## ÞORKELL máni.

(Ur Landnámu 1, 9.)

Ingólfr var frægstr allra Landnámsmanna, því hann kvam hèr at audo landi úbygdo, oc bygdi fyrstr landit, oc giördo þat adrir landnámsmenn at hans dæmom sidan. Hans sun var Þorsteinn, er þíng lèt setea á Kealarnesi, ádr alþíng væri sett. Hans sun var *Þorkell máni* lögsögumadr, er einn heidinna manna á Islandi hefir best verit sidadr, at því er menn vita dæmi til; hann lèt bera sic í sólargeisla í helsótt sinni, oc fal sic á hendr þeim gudi er sólina hafdi skapat; hann hafdi oc lifat svá hreinliga sem þeir kristnir menn, er í sidbesta lagi ero.

## ULFLIOTS lög.

(Ur 4:da p., 7:da Kapitula.)

Ulfliótr var sextugr at alldri, fór hann til Noregs, oc var þar þriá vetur; þar settu þeir Þorleifr hinn spaki módurbródir hans lög þau, er sídan váro köllut Ulfliótslög; en er hann kom út, var sett *alþing*, oc höfdo menn sidan ein lög á landi hèr. Þat var upphaf laga hinna heidnu, at menn skylldo eigi hafa höfut-skip í haf, en ef þeir hefdo, þá skylldo þeir aftaka höfut, ádr þeir kvæmi í landsýn, oc sigla eigi at landi med gapandi höfdi edr gínandi triónum, svá at

landvættir fældust vid. — Baugr tvíeyríngr eda meiri skylldi liggea í hvöreo höfuthofi á stalla: þann baug skylldi hvör godi hafa á hendi sèr til lögþínga allra þeirra, er hann skylldi seálfr heya, oc riódra hann ádr í nautsblódi, þess er hann blótadi seálfr. Hvör sá madr er þar þurfti lögskil af hendi at leysa at dómi, skylldi ádr eid vinna at þeim baugi, oc nefna sèr vâtta tvâ edr fleiri. *Nefni èc þat vætti*, skylldi hann segea, *at ec vinn eid at baugi, lögeid. Healpi mèr svá Freyr oc Njördr oc hinn almáttki ás, sem ec mân svá sök þessa sækea (*eda *veria*, eda *vitni bera*, *kvidu*, edr *dóma) sem ec veit rèttast oc sannast oc hellst at lögum, oc öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mic koma, medan ec er á þessu þíngi.* — Þá var landino skipt í feórdúnga, oc skylldi vera þriú þíng í feórdúngi, en þriú höfuthof í þíngsókn hverri; þar vâro menn valldir til at geyma hofanna at viti oc rèttlæti; þeir skylldu nefna dóma á þíngom, oc stýra sakferli; vâro þeir *godar* kalladir. — Hvör madr skylldi gefa toll til hofsins, sem nú til kirkiu tíund.

---

ÖRVAR-

# ÖRVAR-ODDS Saga.

*(Ex cod. membr. Bibl. Regiæ Holmiensis N:o 7. 4:to.)*

1. *Grímr* hèt maðr *Loðinkinni*, því var hann svâ kallaðr at hann var með því alinn. Hann var son Ketils hængs Hallbiarnarsonar hálftröllz. Grímr átti bú í *Hrafnistö*, hann var auðigr at fè, ok mikils ráðandi 1) um allt Hálogaland, ok þó víðara hvar. Hann var qvângaðr, ok hèt Loptæna kona hans, hon var dóttir Haraldz hersis austan or Vík. Grímr spurði þau tíðendi austan or Vík, at Haraldr mágr hans var dauðr, bió hann þá ferð sína austr þannog; því at Loptæna var einbirni hans, ok var þángat at vitia ógrynni feár í iörðum ok lausum penníngum. Loptæna skyldi fara með Grími, ok var hon þó með barni, því at Grímr unni henni stórmikit. En er þau voru búin oc byr gaf, hèldu þau tveim skipum austr með landi, ok komo fyrir þann bœ er heitir á *Beruriöðri*, þar lágu þau of nótt, ok þá kenndi hon sèr sóttar; var þá sendr maðr til bœiarins, en þar bió

5.

1) *Codex fere semper habet* nnd, lld, *pro* nd, ld, *ut:* ráðanndi, frænndi, hèlldi, skylldi *& sim. qvod, pronunciationem & derivationem secutus, rejeci, in aliis religiose servavi scripturam codicis.*

bóndi sá er Ingialdr hèt. Kona hans hèt Alof, son áttu þau er *Asmundr* hèt, úngr ok fríðr at siá. Þau voru auðig at penníngum. En er Ingialdr spurr til ferða Gríms, þá fór hann til strandar með eyki sína, ok bauð heim Grími til veizlu, ok avllu föruneyti hans því sem hann vildi. Grímr tók því vel, var þeim nú ekit heim til bœiarins, fengu þau þar góðar viðtökur: var Loptænu fylgt í kvennahús en Grími í skála, ok skipat í avndvegi; var þeim veittr enn mesti fagnaðr í dryck góðum ok avðrum lutum. Sótt elnaði við Loptænu, ok varð hon lèttari at sveinbarni, þat var mikit ok vænt miög. Loptæna bað færa favðurnum, qvað hann skyldu nafn gefa, þá var þessi sveinn vatni ausinn, ok nafn gefit, ok kallaðr *Oddr*. Þar voru þau þriár nætr í enni fegrstö veizlo. Þá qvez Loptæna vera búin, Grímr qvað þá skyldu ferðaz. Ingialdr sagði, at hann qvez vildu hafa laun fyrir forbeina sínn. Grímr qvað þat skylt, "ok kiós þèr laun því at nógir eru gripir ok lausir penníngar. Ingialdr mælti: fè hefi èk ærit, en styrk þinn vil ek ok vináttu, ok festa med því at bióða eptir Oddi syni þínum. Þat veit [ek] eigi, segir Grímr, hversu Loptænu er um-gefit. Hon var hiá tali þeirra, ok mælti: þat er minn vilì at þiggia þat, er svâ er vel boðit. Nú ferr Grímr ok Loptæna med sinu föruneyti, en Oddr dvelz eptir á Berurióðri. Þau

Grímr fóru nú ferðar sinnar, ok dvavlduz slíka hríð í Vík austr, sem þeim þótti fallit, ok sigldu síðan austan a); ok er þau komo fyrir Berurióðr, mælti Grímr at þeir mundi leggia seglin, ok leggia at landi. Loptæna spyrr hvat því skyldi. Ek hugða, segir Grímr, at þú mundir vilia finna son þinn. Loptæna segir: leit ek hann áðr við skildum, ok þótti mèr sem hann renndi lítt ástaraugum til vâr Hrafnistumanna, ok munu vèr fara leið vâra. Þau gera nú svâ, ok koma heim til Hrafnisto, ok settuz at eignum sínum.

2. Oddr vex upp á Beruríóðri, ok er hverium manni meiri ok vænni, þeim er upp óx í Noregi ok víðara: hann nam allar íþróttir, þær er mönnum er títt at kunna. Asmundr var ok vel búinn at íþróttum, ok þiónaði Oddi í avllu, hann var ok giörfiligr maðr, giörðiz fóstbræðralag mikit með þeim. Aldrei vildi Oddr at leikum vera nè at riá annarri sem úngmenni avnnur: þeir voru á sundi eðr í skotbavckum, en þess í milli nam hann eitthvat at fóstra sínum Ingialdi, manna fræði eða túngur at tala; því at Ingialdr var enn vísazti maðr í avllu, mat Ingialdr meira Odd en Asmund. Marga leiksveina vandi Oddr til sín, þó fylgði Asmundr

a) *Cod. habet* austr, *qvod non patitur contextus; alii* braut.

hânum fastaz af þeim öllum. Aldrei vildi Oddr blóta, trúði hann á mátt sinn ok megin; hèrvilict quez hânum þickia at hokra þar fyrir stockum eða steinum, þar eptir vandiz Asmundr. Ei var þat af því, at Ingialdr var enn mesti blótmaðr. Oddr lèt gera sèr skeyti mart ok stærra myklö en annarra manna. Hafr lèt Ingialdı drepa svartan, ok lèt flá með hornum, ok qvez Oddr vilia at Ingialdr gæfi hânum, ok svá var. Þar berr Oddr í skeyti sín, ok ei lèttir hann fyrr en hann var fullr. Boga lèt hann sèr giöra með þviliku skapi. Þat var búníngr Odds hversdagliga, at hann hafði skallazkyrtil rauðan, belti miótt, hosur fagrar ok skúa, gullhlað um havfuð sèr, avr-mal sinn á baki en boga í hendi, eingi hafði hann avnnur vâpn, til allra manna lagði hann gott í sínum orðum, ok öllum þótti hann góðr. Þetta leið nú framm með þeima hætti, þar til er Oddr var 12 vetra en Asmundr 15, svá var Oddr þá sterkr, at menn fundu varla at hânum yrði aflfátt, til hvers sem hann tók.

*Spá völvu.*

3. Kona er nefnd Heiðr 3), hon var vavlva ok seiðkona, ok vissi fyrir óorðna

3) *Num eadem, quæ in* Völuspá *celebratur hisce verbis?*

| | |
|---|---|
| Heiþi hana hèto | ok vavlu velspá; |
| hvars til húsa kom | vitti hon ganda, |

hluti af fróðleik sinum. Hún fór á veizlur víða um landit, er bœndr buðu henni til; sagði hon mönnum forlavg sín, ok vetrarfar eðr aðra luti. Hún hafði með sèr 30 manna, 15 sveina ok fimtán meyiar. Þat var raddlið mikit, því at þar skyldi vera qveðendi mikil sem hon var. Svâ bar til um ferð hennar, at hún var á veizlu skamt frá Ingialdi. Þat var morgin einn snemma at Ingialdr var á fótum, hann geingr þángat, er þeir fóstbrœðr hvíldu, ok tók á fótum þeim, ok mælti: ek vil senda ykr í dag, segir hann, er þú villt. Hvert? segir Oddr. Ingialdr mælti: þit skolut bióða híngat völvunni til veizlu. Þá favr mun ek eigi fara, segir Oddr, ok kunna óþavck ef hon kemr, en hvert í annan stað fara, er þú villt senda mik. Ingialdr mælti: [þá skalt þú fara, Asmundr! 4) þín á ek ráð. Oddr segir: gera skal ek annan hlut, þann er þèr þicki eigi betr. Nú ferr Asmundr við enn fimta mann, ok býðr vavlvunni á Beruriódr, hon tók því vel, ok qvez koma mundu, ok þann sama aptan kemr hon þar með avllu liði sínu. Ingialdr geingr í mót henni með fiöl-

seiþ hon kunni, æ var hon ángan
seiþ hon leikinn, íllrar þióþar.

*Sic enim legitur in Cod. chart., qvem in Islandia comparavi.*

4) *Sic Cod. chart. N:o 17. fol. pro* þó *sk. f. Asm.*

menni, ok leiðir hana í skála, ok efnaz þar veizla fögr. Oddr var í lítilli stofu; ok vildi ecki gánga í sýn við Heiði, ok ei samneyta henni. Ingialdr ok vavlvan ætluðu til seiðar mikils um nóttina, gèck hon þá út með liði sínu, er aðrir gèingu til svefns, ok efldi seið. Um morgininn eptir gèck Ingialdr til frètta við Heiði, ok spurði hversu seiðrinn hefði geingit. Þat ætla èk, segir hon, at ek muna vís hafa orðit þeirra hluta er þik varðar, ok þèr báðut mik forvitnazt. Þá skal skipa í sæti, segir Ingialdr, ok gánga þaðan sèrhverr til frètta. Nú var svâ giört; Ingialdr búandi spurði þá fyrst um veðráttu ok vetr, ok sagði hon slíkt er hann spurði. Síðan gèck hann fram fyrir hana, ok mælti: nú vil ek vita mín forlavg. Já, segir hon, gott er þèr þat at vita; þú skalt búa á Berurióðri með mikilli virðíngu til elli, má þèr þat vera mikill vegr ok avllum þínum vinum; þá geingr hann í brutt. Þá fer Asmundr til fundar hennar; hún mælti: þat er vel, Asmundr! segir hon, er þú ert hèr kominn, því at þinn vegr ferr víða of heiminn, ecki muntu við mikinn aldr togaz eiga, ok þickia þar dreingia beztr sem þá kemr þú; Asmundr geingr til sætis síns. Þá fór þann veg avll alþýða manna, ok sagði hon slíkt hverium, sem fyrir var lagt. Allir una þar vel við. Ingialdr bóndi þackaði

henni sitt starf, ok þá mælti vavlvan; hafa nú farit allir menn miög til frètta við mik þeir sem hèr eru? Ingialdr segir: ek ætla nú giörsamliga hafa farit. Vavlvan mælti: en hvat liggr þar yfir í skálanum undir feldinum? mèr þickir sem þat hræriz stundum. Oddr kastar af sèr feldinum, ok sezt upp ok mælti: þat er sem þèr sýnizt, at þetta er maðr, ok sá einn er þat vill, at þú þegir skiótt, ok fleiprir ecki um mitt ráð, þvíat ek trúi ecki á þat er þú segir; ella færi èk sprotann á nasar þèr, er ek held á. Heiðr mælti: ecki fer ek at við heit þín, þvíat ei er leynanda um þitt ráð, ok þar má ek frá-segia, en þú skalt til-hlýða, ok þá varð henni lióð á munni.

| | |
|---|---|
| Ferr eigi þú | á Berurióðri. |
| svâ fiörðu breiða, | Naðr mun þik havggva |
| nè liðr yfir | neðan á fœti |
| lága 5) vâga; | fránn yr fornum |
| þó skaltu brenna | Faxa hausi. |

Þat er þèr at segia, Oddr! er þèr mun þickia gott at vita, þèr er ætlaðr aldr miklö meiri en avðrum mönnum, þú skalt lifa hundrað vetra, þú skalt fara land af landi, ok þickia þar mestr maðr ok ágætaztr sem þá kemr þú, þinn vegr mun fara um hvert land, þat er þú kemr

5) *Sic* 17. f. *pro* láda, *qvod sensu caret. Mallem tamen* lánga vega, *nisi codices obstarent.*

á; en aldrei ferr hann svá viða, þá skaltu hèr deyia á Berurióðri. Hestr stendr hèr at stalli grár at lit, favxóttr, hauss hans Faxa skal þèr at bana verða. Oddr mælti: seg þú allra kerlínga avrmuzt savgu! Hann sprettr upp við, er hann mælti þetta, ok rekr sprotann á nasar kerlíngu, svá at þegar lá blóð á iörðu. Hon kallaði ok bað taka klæði sín, "vil ek verða í brott sem skiótazt; þar hefi ek hvergi komit at menn hafa barit á mèr fyrr en hèr. Ingialdr mælti: tak þú þriggia nátta veizlo með mèr, sem ætlat var, en síðan skal ek reifa þik giöfum. Heiðr mælti þá: lát fram giafar slíkar er þú villt fyrir mann þenna, en í stað skal ek í brött með mínu liði. Svá varð at vera sem hún vildi: giafar þá hon at Ingialdi bónda, ok fór í brant þegar af veizlunni.

*Drepinn (Faxi).*

4. Litlu síðar qveðr Oddr Asmund með sèr, þeir gánga til Faxa, ok slá við hann beisli, ok leiða með sèr í eitthvert dalverpi, ok giöra þar gröf svá diúpa at nær var tveggia mannz-vaxta; síðan drepa þeir Faxa þar í ofan. Eptir þat knýia þeir Fóstbræðr þar á ofan stórt griót, sem þeir voru sterkir til, ok báru hiá hverium steini aur ok sand. Haug urpu þeir þar af upp, ok þá mælti Oddr: rennt mun ek hafa þeim skavpunum, at Faxi verði

verði mèr at bana; eptir þat fara þeir heim.

*Brautför Oddz frá Ingialdi.*

5. Nöckuru siðarr kemr Oddr at máli við Ingiald, ok sagði svá: ek vil at þú fáir mèr skip. Ingialdr segir: hvat villtu athafaz nú? Oddr segir: ek ætla í braut hèðan af Beru-ióðri. Ingialdr mælti: hvat skal manna fara með þèr? Við Asmundr tveir. Ingialdr mælti: skamma stund vil ek at þit sèð í bröttu. Oddr segir: aldrei skolum við aptr-koma. Ingialdr mælti: þetta máttu svá giöra at mèr þickir verst. Oddr segir: þess gerðiz þú þá verðr, er þú bautt hingat vavlvunni. Ingialdr qvað svá vera mundu verða sem hann vildi. Því næst búa þeir fóstbræðr ferð sína; fær Ingialdr þeim karfa einn, tólf-æring, ok bió þá at avllu vel af hendi, siðan biðia þeir Ingiald vel lifa. Siðan taka þeir róðr frá landi, þá spyrr Asmundr hvert þeir skyldu fara. Oddr segir: nú skal sækia heim gavfga frændr sína í Hrafnisto. Ok er þeir komu út um eyiar, mælti Oddr: erfið ferð er at róa, mun nú verða at reyna ættargipt vára; Grímr faðir minn hefir byr hvert er hann vill sigla. Því næst undo þeir segl sitt, ok er þeir höfðu um-siglt kom á byrr enn bezti, gaf þeim byr ok leiði gott norðr á Hálogaland, ok lavgðu at við

6.

Hrafnisto. Síðan gèingu þeir heim til bœiar. Oddr hafði örvamal sinn á baki, en boga í hendi, en Asmundr hafði vâpn sín. Sem Grímr fèck niósn sanna um ferð þeirra, gèck hann í mót þeim með alla húskarla sína, ok bauð þeim með sèr at vera. Ek vil finna fyrst, segir Oddr, frændr mína Guðmund ok Sigurð; mèr er sagt at þeir sè búnir til Biarmalandz. Grímr mælti: þat vil ek at þit sèð með mèr í vetr. Oddr mælti: finna vil ek þá fyrst. Svâ skal þá vera, segir Grímr. Guðmundr var bróðir Odds (ok var) tveim vetrum ýngri, en Sigurðr var systursonr þeirra: þeir voru báðir enir vaskligztu menn. Grímr ferr nú með þeim Oddi þángat á eyna, sem þeir Guðmundr lágo tveim skipum. Oddr lèt kalla þá á land, þeir fagna vel Oddi, hann tók því vel ok mælti: svâ er mál með vexti, at vèr fóstbrœðr vilium ráðaz til ferðar með yðr. Guðmundr mælti: eigi má nú svâ vera; vèr erum nú búnir til siglingar, ok ætlaðir menn sáman bæði at mat ok dryck ok um aðra luti, má nú ecki dveliaz at skipa þat avðru vísi, en þú, bróðir! skalt fara með oss at sumri, hvert er þú vill halda. Oddr mælti: vel er þat talat, bróðir! en vera kann at ek þurfa ecki skip undir yðr at eiga at sumri. Guðmundr mælti: ecki muntu nú með oss fara at sinni. Ecki skal þess ok meirr biðia, segir

Oddr. Snýr Oddr heim með feðr sínum, skipar Grímr Oddi í avndvegi hiá sèr, ok þar Asmundi et næsta. Þar var uppi avll alúð af Grími, Loptæna húsfreyia fagnar þeim ok einkar vel: sátu þeir þar nú í inni fegrstu veizlu.

*Draumr Guðmundar.*

6. Nú er at segia frá þeim Guðmundi ok Sigurði: þeir lágu hálfan mánuð, svâ at þeim gaf aldrei í brött, þat var á einni nótt at Guðmundr lèt illa í svefni, ræddu menn ùm at hann skyldi vekia. Sigurðr qvað hann skyldu nióta draums síns; því næst vaknar hann. Sigurðr mælti: hvat dreymði þik, frændi? er þú lèzt svâ ervidt. Guðmundr mælti: mig dreymði þat at vèr lægium hèr undir eynni tveim skipum, en ek sá hvíta biörn liggia í hríng um eyna Hrafnisto, en hèr mættiz yfir skipunum dausin ok havfuð dýrsins. Þat var svâ grimmlict, at ek hefi ecki slíct sèð, ok framm horfðu avll hár eptir dýrinu, ok svâ þótti mèr sem þat mundi hlaupa út á skipit, ok savckva niðr. Sigurðr mælti: þat er auðsætt at dýr þetta er fylgia Oddz frænda vârs, ok úlfhugr sá er hann hefir á oss, ok þat er mín ætlan at oss gefi eigi í braut, nema hann fylgi oss. Hvat er þá til ráðs, segir Guðmundr. Sigurðr mælti: bióða hânum með allri alværð at fara. Guðmundr mælti: hann mun nú eigi fara vilia. Sig-

urðr mælti: þá skolu við gefa hánum skipit annat. Þetta staðfestiz með þeim: fara þeir nú á land upp ok finna Odd, ok bióða hánum at fara með sèr. Oddr qvez nú eigi fara vilia. Þeir mælti: heldr en þú farir eigi, vilium við gefa þèr annat skip ok alla áhavfn. Oddr mælti: þá skal fara með ykr, em ek nú ok albúinn.

*Oddr þiggr Gusis-nauta.*

7. Nú fylgir Grímr þeim til skipa, ok at skilnaði mælti hann við Odd: gripir ero hèr frændi, segir hann, er ek vil þèr gefa, þat ero avrvar þriár, en þær eigu nafn ok heita Gusisnautar, þær vann ek af Gusi Finnakóngi, en þær munu siálfar fliúga aptr á streing, ok allt munu þær hitta, þat er þeim er at-skotið. Oddr tók við avrvönum ok leit á, ok sýndiz einkar vel skeytit; því-at þær voru gulli reyrðar. Hann mælti: margar hefi ek þegit góðar giafar, faðir! ok aungvar þær er mèr þicki iafngóðar þessum, ok haf þú, faðir! mickla þavck fyrir.

8. Eptir þetta skiliaz þeir, snýr Grímr heim, en Oddr geingr á skip út. Hann heitir þegar á menn sína, biðr þá hafa uppi ackerin, ok dragaz undan eynni með báti. Svâ giöra þeir; ok því næst bað hann þá vinda seglin, þeir giöra ok svâ Grímr ok Sigurðr. Þeim gaf þegar byr, ok sigldu þeir í einni norðr til *Finnmerkr* þeir lavgðuz þar um nóttina við ackeri.

Þar var fiöldi gamma á land upp, um morguninn gánga þeir Guðmundr á land af skipi sínu, þeir renna í gammana, ok ræna Finnurnar, en Finnar voru ecki heima; þær þola illa ok œpa miög. Þeir tala um á skipi Oddz, at þeir vili á land gánga, en hann qvað þat ei skolu vera. Þeir Guðmundr komu um qveldit til skipa, þá mælti Oddr: voru þèr á land geingnir í dag, Guðmundr? Já, segir hann, ok þótti mèr þat mikit gaman at ræna Finnurnar, ok muntu vilia fylgia oss á morgin. Eigi mun ek þat vilia, segir Oddr, þicki mèr þat eingi frami at ræna konur, munu þèr ok giöld fyrir-taka yðart starf, vil ek sigla þegar í morgin.

9. Þeir gera nú svâ, er nú ecki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir komu til *Biarmalandz*, ok hèldu skipunum upp í ána Vínö. En er þeir voru þar komnir, fengu landzmenn skiótt niósn af, voru þá menn sendir til mótz við þá, var þá settr friðr hálfan mánuð til kaupstefnu, komu þá landzmenn ofan með allzkyns grávöru, fengu menn þar fullendi feár, allir þeir er nacquat havfðu at veria. En er siá stund var liðin, þá var uppsagt friði; lavgðu þeir Oddr þá út í ána um streingi. En er nátta tók mælti Oddr til sinna manna: hvat vili þèr ráðs taka? Þeir báðu hann ráða. Þá skolo við Asmundr róa til landz ok forvitnaz til landzmanna. Svâ gerðu

þeir, ok er þeir komo á land, gèingu þeir til merkrinnar: í mörkinni sá þeir skála einn mikinn, þá var myrkt miög. Þeir gèingo at skáladyrunum, sá þeir at þar var lióst inni, svâ at hvergi bar skugga á: mannfiölði var þar mikill inni ok gleði ok dryckia. Oddr mælti þá: skilr þú navckut hèr manna mál. Asmundr segir: eigi heldr en fugla klið, eða hvat skilr þú af? Oddr mælti: siá muntu, at einn maðr skenkir á báða becki, en þat grunar mik, segir Oddr, at sá muni kunna at tala á norræna túngu: nú skaltu bíða mín, meðan ek geing inn. Asmundr gerir nú svâ. Oddr er nú innkominn, ok stendr við trapizo, hôn stóð utar við dyrrin, þar bar ok helzt skuggann á. Gaungu byrlans bar þángat brátt at. Oddr þrífr til hans, ok bregðr honum á lopt. Byrlinn qveðr við hátt, ok kallar at tröll taki hann. Biarmar hlaupa nú upp ok þrífa til byrlans, en Oddr berr þá með honum, ok kemzk svâ út, skilr þá með þeim. Oddr snýr þegar braut með byrlann ok þeir Asmundr, ok til skipa. Oddr setr hann hiá sèr, ok spurði hann tíðenda; byrlinn þagði. Oddr mælti þá: hèr eru tveir kostir fyrir höndum, at þú svara mèr, því at ek veit at þú kannt norræna túngu, eða ella skal þik í iárn setia Byrlinn mælti: hvers viltu spyria. Oddr mælti: hverrar ættar ertu? eða hve leingi hefir

þú hèr verit? Byrlinn segir: ek hefi hèr nú verit siö vetr, en ek em norrænn at ætt. Oddr mælti: hvert vísar þú oss til fèfánga? Byrlinn segir: haugr stendr upp með ánni Vínu, borinn saman af moldu ok skírum penníngum, þángat skal bera gaupnir silfrs ok gaupnir moldar eptir hvern mann er andaz, ok svâ fyrir þeim er í-koma heiminn. Oddr mælti: þá skolu þèr, Guðmundr frændi! segir hann, fara til landz, ok eptir vísan hans til haugsins í nótt með yðra skipara: en ek mun gæta skipa ok byrlans með mína menn. Svâ gera þeir nú. Þeir fara nú, ok koma til haugsins, ok binda sèr þar byrðar, þvi at eigi skorti fè: ok þegar þeir voru búnir, fara þeir til skipa. Oddr lèt vel yfir þeirra ferð, taka þeir nú við byrlanum. Oddr mælti: vaki þit trúliga yfir honum; þvíat svâ standa augu hans á land, sem honum þicki hèr eigi iafníllt, sem hann lætr yfir. Oddr ok hans menn fara nú til landz, ok síðan til haugsins. Nú varðveita þeir Guðmundr ok Sigurðr skipin, þeir setia byrlann ímilli sín, en þeir taka nú ok sælda silfrit. En er minzt von er, bregðr byrlinn við ok fleygir sèr útbyrðis, ok legz þegar til lanz. Guðmundr hleypr upp, ok þrífr eitt snæris-spiót, ok skýtr eptir honum, þat kemr í kálfa byrlanum, ok skilr þar með þeim, er byrlinn því næst á landi ok í skógi.

*Frá ráðagerðum Oddz.*

10. Nú er at segia frá ferð þeirra Oddz, er þeir koma til haugsins mælti Oddr: nú skolum vèr búa oss byrðar hverr eptir sínu magni, ok eigi stœrri en vèr megim fara gilda ferð. Þat var í avndverða lýsing er þeir voru búnir; fóru þeir nú ofan með ánni, var þar (eitt nes) til annarrar handar. Oddr mælti; þá er þeir höfðu farit um hríð: hvat siái þèr tíðenda? Eingi siá vèr, segir Asmundr, eða hvat segir þú? Ek sè þau, segir Oddr, er oss eru óþavrf, mannafiölða mikinn koma or skógi fram; er þat ætlan mín, segir Oddr, at þeim Guðmundi sè lauss orðinn byrlinn, ok mun hann hafa borit Biörmum niósn um ferð vára. Asmundr mælti: hvat er nú til ráðs. Oddr mælti: þèr skoluð víkia framm at ánni, ok fylkia um þvert nes þetta, er framm geingr í ána, en láta fèit á bak yðr; þeir gera svá. Oddr sneri þá aptr í skóginn, ok hió sèr kylfu eina mickla, síðan fór hann til manna sinna. Því næst drífr lið at þeim, ok kennir Oddr þar byrlann í ferðarbroddi. Oddr varp orðum á hann ok mælti: hví stýrðir þú nú svá hverst? Byrlinn segir: ek sagða Biavrmum tiltekiör yðrar. Oddr mælti: hversu líkar þeim nú? Byrlinn segir: þeir vilia enn eiga kaupstefnu við yðr. Hver er sú, segir Oddr.

Byrl-

Byrlinn mælti: kaupa við yðr vápnum. Oddr segir: eigi vilium vèr þat. Byrlinn mælti: þá skolu þèr veria fè yðvart ok fiör, en vèr munum til-sækia. Svâ skal vera, segir Oddr. þá mælti Oddr til sinna manna: þèr skolut at því hyggia, þó at navckut falli af liði vâru, at þèr takit hvern sem dauðr er, ok kastið út á ána; því at þegar münu þeir gera fiölkýngi í lið vârt, ef þeir ná nöckurum enum dauða.

*Bardagi við Biarma.*

11. Því næst veita Biarmar harða átsókn, í þat bil hleypr Oddr framm með kylfuna; ok berr til beggia handa svâ hart at allt stöckr frá, en fiölði fèll. Asmundr fylgði honum einkar vel. Siá bardagi var bæði harðr ok lángr, en sá varð endir at Biarmar flýðu, en ógrynni fallit. Oddr rak flóttann, ok drap allt þat er hann náði, sneri síðan aptr til sinna manna, ok bað þá gera byrða-skipti, látum eptir moldina en klyfium oss með gripum góðum ok vâpnum. Svâ gerðu þeir, fóru nú síðan til skipa, ok er þeir komu þar, voru skipin í bruttu. Oddr mælti: hvat er nú til ráðs? Asmundr bað hann fyrir seá. Oddr mælti: tvennu mun skipta um tiltekiör þeirra Guðmundar, þeir munu hafa lagt í leyni, ella munu þeir hafa brugðiz oss meir en vèr ætlum. Þat mun eigi vera, segir Asmundr.

Ek mân gera raun til, segir Oddr; hann sneri þá til skógar, ok fór upp í trè eitt, ok tendraði eld í limum uppi. Þá sá þeir at bátar tveir reru til landz, kendu þeir þar sína menn, ok varð þar fagnafundr með þeim frændum.

*Brautför þeirra Oddz af Biarmalandi.*

12. Nú stíga þeir á skip sitt, ok hèldu þegar á brutt með herfáng sitt. Er nú ecki sagt um ferð þeirra fyrr en þeir komu við *Finnmörk*, ok í þat sama lægi sem þeir höfðu haft fyrr; ok þá er þeir höfdu þar legit um nótt, þá vakna þeir við þat, at þeir heyrðu brest mikinn, svâ at þeir hafa slíkan ei fyrr heyrt. Oddr spyrr þá Guðmund ok Sigurð hvat þetta muni tákna, er þeir áttu þetta at tala, þá kom brestr annarr sýnu meiri, ok þegar leið þenna, kom enn þriði, ok var sá mestr. Hvat ætlar þú, Oddr frændi! segir Guðmundr, at þetta bendi. Oddr mælti: heyrt hefi èk þat sagt, at veðr tvö verði senn í lopti, ok fariz í móti, en er þau hittast, verði af brestir stórir. Nú munu vèr svâ eiga við at búaz, sem koma muni veðr navckut hart, ok muni Finnar giöra yðr veðr, fyrir þat er þèr ræntuð þá. Nú færa þeir á þvergyrðíng á skipin; ok búaz við öllu sem þeir máttu eptir fyrirsögn Oddz. Síðan heimta þeir upp ackeri sín, þat var miög iafnskiótt ok veðrit laust á, þat var svâ hart at þegar rekr þá

undan, ok aungu ná*u þéir viðfalli. Ecki máttu þeir annat en halda undan, en allir iósu sem viðkomuz, svâ rak þá út tuttugu dægr samfavst. Oddr kallar á Guðmund ok bað kasta finnskrefinn avllu "því er þèr havfðut rænt Finnurnar, því at þat er ætlan min, at ei lètti vâru vâlki, fyrr en þat er útbyrðis. Guðmundr mælti: at hveriö haldi mun þeim þat koma, þótt því sè útbyrðis kastað? Láttu þá fyrir því siá, segir Oddr. Þetta gera þeir nú, at þeir brióta upp finn-skrefit, ok kasta útbyrðis, en þegar þat kemr útbyrðis, rekr þat með avðru borði fram ok avðru aptr, þar til er kemr í einn bagga; þá rekr þat óðfluga ígegn veðrinu 6), svâ at þat er senn or augliti. Samdægris sem þetta var at-giört, rýfr þoköna, ok kyrrir siáinn, ok litlu síðarr siá þeir land, þá voru ok flestir menn farnir at liðsemð, nema þeir frændr. Asmundr var næst Oddi um alla liðsemð, í hverigum háska er þeir voru staddir.

13. Þeir tala þá um hvert land þetta mun vera. Oddr mælti: Þat er ætlan mín at vèr munim lángt norðr komnir í heiminn, ok at frásögn fróðra manna þicki mèr því líkaz sem þetta muni vera *Risaland*, en farnir eru menn vârir, svâ at mèr sýniz oss eingi annarr til, en leita

6) *scilicet æstu maris abreptum.*

til landz ok hvíla sik, hvat sem þar er fyrir. Eptir þat draga þeir at landi, ok gèck út í móti þeim nes eitt ey mikil. Oddr bað þá þángat at leggia skipunum, þar var höfn góð, en stórr skógr á landit. Ok er þeir höfðu tialdat, segir Oddr at þeir skyldu róa med landi því, ok vita hvat við sik væri. Svâ gera þeir; siá þeir þá brátt at þetta var eyland mikit ok gagnauðigt ok óbygt, þar voru dýr mörg á skógum, hvalr ok selr margr við eyna ok fugl 7); eptir þat fara þeir til föruneytis síns. Oddr bað sína menn vera vara um sik, "skal vaka segir hann tólf menn hveria nótt á eynni, en vèr skolum taka af veiðiskap til vista oss, oc hressa yðr, sem vèr megum; þeir gjöra nú svâ. Einn dag er þeir fóru á mörkina, sá þeir skógarbiörn einn mikinn. Oddr skýtr at honum, ok missir eigi, ok drepa þeir biörninn. Síðan lætr Oddr troða belginn ok spelkia, svâ at hann mátti skióta framm or munninum, þó at hann stæði fyrir aptan, hann lèt ok leggia hellu í munninn, svâ at þar mátti lifa eldr; síðan lèt hann setia þat á hamar, þann er til landz vissi, ok horfði hersi inn á meginland. Þeir dveliaz nú þar um hríð, sá þeir fólkit á land, ok þó fátt miög, en stórt var þat, svâ at þeir skildu þat, at þat voru Risar.

7) *forte* Novaja Zemlja.

*Frá Oddi.*

14. Einn aptan síðla sá þeir at Risarnir savfnöðuz á nesit ei allfáir fyrir innann sundit; Oddr mælti þá: forvitni er mèr á, hvat fólk þetta et stóra bersk fyrir, ok vil ek, Asmundr! at vit róim inn um sundit; á báti sem hlióðligazt. Þeir gera svâ, ok er þeir koma inn undir nesit, þá hèldu þeir upp árum, ok hlýdduz um. Þeir heyrðu þá at risinn tók at skuala með mikilli raust: þèr vitoð, segir hann, at nöckur skeggbörn ero komin í ey vâra, ok drepa þar dýr vâr 8) ok annan veiðiskap: nú stefnda èk yðr því híngat, at vèr ráðim þeim banaráð. Nú af því, sem þèr vitið, er ecki semz með ockr Biólvi 9) bróður minum um ófrið, þá fæ èk at slíku lítinn gaum gefinn: nú er hèr Gullhríngr, er ek vil gefa þeim til, er fara vill til at tortíma 10) þeim skeggbörnum. Þat siá þeir nú at kona ríss upp, ef konu skyldi kalla, hon mælti: skyld ero vèr til, Baði Risa-korúngr! at reka þitt örendi allra helzt er þú býðr slíct til: nú mun ek fara þessa ferð, ef þú vill. Hann segir: vel er þess feingit, Gneip hússfreya! því at þú munt hafa örendi. En hvârt siái þèr at hèr eru tvö skeggbavrn á báti undir berginu, ok hlýða til tals vârs? Nú skal ek senda þeim sending. I þat bil

8) *scil. ursos.* 9) *Alii* Bölvi.
10) *aliás* tortýna.

siá þeir Oddr at steinn flýgr, ok stefnir á þá. Oddr mælti at þeir skyldu bregða undan bátinum sem tíðaz, ok svâ gera þeir. Litlo síðarr ferr annarr, ok fór á savmu leið; enn þriði fór svâ mikill at þeim þótti undr at, ok af þeim feingu þeir mikit áfall. Oddr mælti: nú munu vèr róa út til eyiar, ok svá (gera) þeir . . . (Þar næst kemr Gneip þar) . . . hún (var) í skinnkyrtli ok mikil vexti, illilig sýndiz hon þeim svâ, at þeir havfðu ecki kykvendi slíkt sèð: iárnstaf mikinn halði hon í hendi. Oddr geingr nú framm á bergit þar sem dýrit stóð, hann tendraði þá eld í munni dýrinu, en síðan skaut hann avro í gegnum dýrsbelginn ok at henni flagðkonunni. Hon heyrði hvininn ok sá þá avrina, ok brá við lófa sínum, ok beit eigi á heldr en steini. Hon mælti meira mun viðþurfa, segir hon. Oddr leitar nú at Gusisnautum ok skýtr þeirri sem enni fyrri; hon bregdr við hendinni en avrin fló í gegnum lófann ok aptr í augat ok út um hnackann ok aptr á streing. Hon mælti: þetta var mèr ógreiði, en ei skal áfram at síðr. Oddr skýtr nú í annat sinn Gusisnaut, ok ferr á savmu leið. Gneip mælti: nú mun verða aptr at snúa ok væri fyrr sœmra. Nú snýr hon aptr ok þickir þeim hon eigi vânum ógreiðara fara ok er hon nú blind báðum augum.

15. Oddr mælti: nú vil ek, Asmundr! at við róim til landz, ok vil ek forvitnaz hvar Gneip eigi heima. Asmundr bað hann ráða, reru þeir nú til landz, sá þeir at Gneip hèlt undan til fiallz. Oddr hafði boga sinn ok avrſamæli, en Asmundr vâpn sín. Þeir fóru mikit ok sóttu fast í fiallit upp; sá þeir þá hvar eldr brann í helli, ok þángat sóttu þeir; ok er þeir komo þar, sá þeir at þar var ketill yfir eldi mikill: lióst var í hellinum, en myrkt út at siá: þar sátu mörg flavgð á báða becki: dólgr ecki litill sat þar í avndugi, þat var hundvíss iötunn, ok þar tröllkerlíng hiá honum. Aungar vættir þóttuz þeir slíkar sèð hafa: Hann var svartr allr nema augu ok tennr, þat var hvitt; nef hans var mikit ok krókr á, sá er beygðizt allt niðr fyrir munninn: varrar hans voro sem lè-torför, ok hèck en neðri ofan á hökuna, en hin efri flettiz upp undir nefit; hár hans var stórt sem tálknſanar, ok hèck ofan of alla hans bríngu. Augo hans voru sem tiarnir tvær. Sagt er frá þeim báðum hiónum er frá avðru er. Javtunninn tók þá til orða: hvar er Harðhauss þiónustumaðr várr? hví kemr ei matr fyrir oss? Nú em ek, segir hann, hèr kominn, ok [á] at segia þèr havrð tíðendi. Hver eru þau? segir hann. Þau, segir Harðhauss, at Gneip dóttir þín er aptrkomin, ok er nú blind báðum augum,

ok er skotin tveim avrum. Þat var henni at vânum, segir Javtun, hon ætlaðiz ógert fyrir at bana Oddi ok hans fèlögum; en þat fær hon, at siðr gert at tortíma Oddi, at vèr fám eigi, þvíat honum er er ætlaðr aldr mycklo meiri en avðrum mönnum. Ek veit ok at Finnar hafa sent þá hingat, ok vildu at vèr tortímðim þeim; en með því at vèr megum eigi þat, þá mun ek gefa þeim byr á braut heðan aungu minna en Finnar gáfu híngat, en fyrir þat er Oddr hefir skotit Gneip dóttur mína með Gúsisnautum, þá mun ek honum nafn gefa ok kalla hann Avrvar-Odd. Þá mælti Oddr: gefþú allra manna armaztr byr! tekr nú eina af Gúsisnautum ok skýtr at honom; en hann heyrir hvininn ok bregz við sem harðazt, en avrin fló í auga honum, leið síðan undir hönd flagdkonunni, ok út undir dyra; en hon hlióp upp við; ok fló á byrlann ok reytti hann; þá hlíópu upp óvættir á báða becki; ok veittu hvârutveggia: Þat mátti segia at þar var skratta atgángr. Þeir Oddr fara nú á brutt leið sína til favrunauta sinna, ok fagna þeir Guðmundr þeim vel, ok spyrr hvert þeir hefði farit et leingzta. Þá qvað Oddr: Rèð ek at gánga *(o. s. fr. siá æfidr. 21. erindi)*. Þess var at von . . . : (Guðmundr spyrr: hvat bar meira til tiðinda í ferð þinni? Nafn var mèr gefit, segir

segir Oddr, ok þá qvað hann: Þá fèck ek heiti *(o. s. fr. siá æfidr. 22. erindi).* Byrr er oss heitinn, segir Oddr, í braut hèðan, ok er mèr sagt at siá muni at aungu minni nè hægri, en sá er Finnar gáfu híngat, ok þó skal nú á braut búazk; ok svâ giöra þeir, ok búazk um sem varligazt mego þeir, ok síðan halda þeir undan landi. Ok þegar kemr byrr á slíkr eða meiri en fyrr. Svâ var ákafi veðrsins mikill at bæði fylgði storminum fiúk ok frost, svâ at hvert áfall stóð þar sem kom; en þeir vörðu sik með micklum hraustleika ok sína farkosti, svâ at þeir stóðu í austri enn 20 dægr bæði nætr ok daga. En við hraustleika þeirra ok auðnu Oddz, er honum var ætlaðr aldr meiri, þá bar þá or hafi, ok komu aptr undir Finnmörk, ok tóku þar höfn ok hvíld.

Eptir þat er ecki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir komu heim í Hrafnisto, ok var þá mikit af vetri. Grímr varð þeim stórliga feginn ok þóttiz þá or heliu heimta hafa, ok bauð Oddi til sín með avllu liði sínu um vetrinn, ok Oddr þá þat; sátu þeir þar þann vetr. Oddr varð svâ frægr af favr þessi, at engi þótti slík farin vera í þeirra manna minnum er þá voru uppi. Allan feárlut þann er þeir fengu í ferð þessi gáfu þeir Grími feðr sínum,

þar voru dryckiör micklar um vetrinn ok gleði mikil, veitti Grímr þeim með mikilli stórmenzku.

16. En er á-leið vetrinn spurði Oddr þá Guðmund frænda sinn hvat þeir vildu athafaz. Guðmundr segir: þú skalt siá ráð fyrir oss. Oddr mælti: í víking vil ek þá ráðaz. Þeir kvoðuz þess búnir. Nöckuru síðar töluðuz þeir feðgar við, sagði Oddr feðr sínum at hann vill búaz í hernat, "vil ek at þú fáir mèr 3 skip. Grímr qvað þat þegar skyldu til reiðu. Síðan biögguz þeir frændr, ok völdu sèr menn af Hálogalandi ok Naumudal alla þá er röskvaztir voru, því at allir vildu þeim giarna fylgia er þeir nefndu. Ok er þeir voru búnir mælti Oddr: nú vil ek, faðir! at þú vísir oss til víkings þess nöckurs, er þèr þickir við vårt hæfi vera. Grímr mælti: *Hálfdan* heitir víkíngr son Hróa Upplendínga-konúngs, hann liggr optaz austr við Elvarsker, hann hefir 30 skipa, ok er siálfr enn hraustazti maðr. Oddr bað favður sinn hafa þavck fyrir, "því at ek sè nú, segir hann, at þú þickiz mannfáng eiga í sonum, er þú vísar oss til 30 skipa með 3 skip. Eptir þat skiliaz þeir feðgar, halda þeir bræðr austr með landi, er nú ecki sagt frá ferðum. þeirra fyrr en þeir koma austr við Elvarsker, ok lavgðu þar til lægis. Þar eru margar eyiar ok lítt bygðar. Þá er þeir Oddr havfðu tialdat

ok um-búiz, reri Oddr í brutt við fá menn, sá þeir þá brátt hvar víkingarnir lágu, ok í miðium flotanum var dreki mikill ok glæsiligr með gyltum höfðum ok allr lýrbyrðr fyrir ofan siá. Þá kallar Oddr ok spyrr hverr fyrir liði því ráði; maðr sprettir tialdskavrunum á drekanum ok svarar: sá heitir Hálfdan, eða hverr spyrr at? Oddr sagði nafn sitt. Fórtu til Biarmalandz fyrra sumar? segir Hálfdan. Kom ek þar, segir Oddr. En hvert er þitt erindi híngat? segir Hálfdan. Oddr svarar: Háleygir frændr mínir þeim þickir þú ræna sik 11), nú ætla ek annarhvárr ockar skal ei segia frá tíðendum. Hálfdan mælti: hve mörg skip hafi þèr. Oddr svarar: vèr höfum 3 skip ok 100 manna á hveriu. Hálfdan mælti: víst ætlaz þú mickla dul, ok munu vèr sofa fyrir þetta. Oddr rær nú aptr til (manna sinna) ok (segir) þeim . . . "skolu vèr nú ryðia fè á land upp af skipum vârum, en bera á griót, siðan skolum vèr havggva 4 trè með kvistum á skip vâr, skal þat vera stigar vârir við drekann. Svâ gerðu þeir sem Oddr mælti, ok er þeir voru búnir mælti Oddr: þit Guðmundr ok Sigurðr skoluð leggia skip yckat á annat borð drekans, en vit Asmundr á annat. Þeir róa nú hlióðliga: skipin lágu rúmt í höfninni, róa þeir Oddr nú á bæði borð drekanum, ok þegar fylgði

11) við *inserit Membr.*

maðr upp hverium kvisti, hleyptu þeir þá á þá tiöldunum, bavrðu þeir þá tialdkúlur ecki hagliga, þvíat þeir bavrðu ok drápu allt þat er kvikt var. Þar urðu skiót umskipti, því at á skammri stundu höfðu þeir ruddan drekann aptan at lyptíngunni. Hálfdan hafði hlaupit í klæði sín, er hann heyrði harkit; ok því næst greip hann vâpn, hlióp hann þá framm á lyptíngina, ok kallar á avnnör skipin, bað þá leggia at sem tiðaz. Oddr heyrir þetta ok sá Hálfdan; hann krækti þá avxi á lyptingina, ok fleygði sèr upp í lyptíngina. Hálfdan hió í móti honum, kom havggit á hiálminn, en hann bilaði eigi, brast þá sverðit undir hialtinu. Oddr hió þá Hálfdan banahavgg. Oddr gerir þá kosti þeim mönnum hans, hvârt þeir vilia halda við hann bardaga eða geraz hanz menn, en þeir kuru skiótt kvoðuz vilia honum til handa gánga. Oddr tekr þá af liði því þat er honum þótti fræknligazt, drekann tekr Oddr ok sèr til handa, ok annat skip þat er honum þótti bezt, fè ok allt tekr hann til sín, síðan gefr hann víkíngum avnnur skipin; dreka þeim stýrir Oddr nú, ok gefr nafn ok kallar Hálfdanar-naut. Oddr dvalðizt þetta sumar allt úti á skipum fyrir Noregi, ok friðaði fyrir kaupmönnum, en um havstið sigla þeir norðr til Hrafnisto, ok hafa feingit ágætan sigr ok oróf feár. Grímr býðr þeim avllum til sín, sitia þeir þar um vetrinn.

17. Um vârit búaz þeir í hernat, ok er þeir voru búnir spyrr Oddr favður sinn, hvar hann vísi honum til nöckurs víkíngs, þess er nöckur veyg 12) sè í. Grímr mælti: *Sóti* heitir víkíngr; hann liggr suðr fyrir Skíðu *), hann er mikill fyrir sèr, hann hefir 40 skipa ok auð feár. Eptir þat skilia þeir, halda þeir frændr suðr með landi 5 skipum, ok er á-leið sumarit þá spur Sóti til ferða þeirra Oddz, ok ferr þegar í móti þeim. Sóti fær þá andviðri, fèck hann þá niósn af af siglíng þeirra. Hann mælti þá: nú skolu vèr leggia skip vâr hvert at stafni annars, skal dreki minn liggia í miðium flotanum. Ek hefi spurt at Oddr er kappsmaðr mikill, mun hann sigla at skipum vârum, en er þeir hafa fellt seglin, þá skolu vèr slá hríng utan at skipum þeirra, ok láta ecki mannzbarn á braut komaz. Nú er at segia frá tiltekium Oddz, er þeir sá flota Sóta, þá mælti Oddr: sè èk fyrirætlan Sóta at vèr skylim sigla at skipum þeirra. Guðmundr segir: mun þat eigi heldr óráðlict við liðsmun þann sem er? Oddr mælti: eigi skal ónýta 13) ráð Sóta: ek mun sigla fyrir dreka mínum. Oddr hèt á menn sína, bað bera aptr frá siglu allan þúnga þann er þeir

12) veigr *firmitas Cod.* 17. *fol.* *) *forte* Síðu.
13) *Sic Adlerstam recte*; skaltu yta 17. *fol.* skalltnyta *Membr.*

mætti, síðan bað hann alla menn herklædda vera fyrir aptan siglo; en er þetta var giört, bað hann slá við avllu segli. Byrr var at enn bezti, geysaði drekinn uppi fast Hálfdanarnautr, hann var iárnaðr allr framan um barðit, en þessa tiltækis varði aungan mann. Sóti verðr nú eigi fyrr (varr) við en drekinn rendi upp á dreka Sóta flatan, voru þeir þá at at herklæðaz, hliópu þeir Oddr þá á drekann Sóta, ok ruddu þeir hann þá á skammri stundu ok drápu Sóta. Oddr giörir þá kosti víkíngum, hvârt þeir vilia halda við hann bardaga, eða taka grið; en þeir gáfuz þegar upp. Oddr tók þar drekann Sótanaut ok 3 avnnur skip ok ógrynni feár, valdi hann ok af liðinu þat er honum þótti bazt búit ok vígligazt. Síðan snero þeir norðr aptr, ok létto eigi fyrr en þeir komu norðr í Hrafnistö, tok Grímr við þeim báðum havndum ok býðr þeim til sín, ok þat þágu þeir: sátu þeir þar nú of vetrinn með mikinn príss.

18. En er áleið misserin þá búa þeir Oddr skip sín or landi, þeir hafa nú 5 skip. Oddr vandar nú liðit miög, ok er þeir voru búnir, geingr Oddr at favður sínum ok mælti: nú skaltu vísa oss til víkíngs þess er þú veizt verstan ok mestan. Grímr segir: þat er nú bæði at þèr eruð micklir fyrir yðr, enda þickir yðr þat. Vísa mun ek yðr til þeirra

tveggia víkínga er ek veit mesta ok bezt at sèr. Annarr heitir *Hiálmarr enn hugum stóri* en annarr *þórdr stafnglàma.* Oddr mælti hvar hafa þeir friðland, eða hve mart lið hafa þeir? Grímr segir: þeir hafa 15 skip ok 100 manna á hveriö skipi, en þeir hafa friðland á Svíþjóðu. Þar ræðr fyrir kon-úngr sá er heitir I[ngialdr] enn illráði, þeir hafa þar vetrsetu ok landvörn, ok eru úti hvert sumar á herskipum. Þeir Oddr biðia nú favður sinn vel lifa; sigla þeir nú austr með landi, er nú ecki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir komu við Svíþióð, ok lavgðu við nes eitt þat er geck til hafs. Þeir tiölduðu þar yfir skipum sínum, ok síðan gèingu þeir á land ok upp á nesit, en þar lágu þeir avðrum megin undir nesino með 15 skipum Hiálmarr ok Þórðr, ok havfðu herbúðir á landi, ok (voru at leikum) þar hiá tiöldunum. Þeir Oddr snúa nú til skipa sinna ok savgðu þessi tíðendi. Guðmundr spyrr hvat nú skal athafaz. Oddr mælti: nú skal skipta liði våro í helmínga, skolu þér halda helmíngi liðs fram fyrir nesit ok æpa heróp, en ek mon gánga á land upp með helmíng liðs, ok framm et efra með skóginum: munu vèr þá æpa óp annat. Nú má þat vera at þeir bregði við, ok hyggi lið vårt meira, kann vera at þeir hlaupi á merkr á braut, þeir giöra nú

svâ. Eu er þeir heyra heróp þeirra Guðmundar, þá bregða þeir ecki við er at leikinum voru; því næst heyra þeir annat hèróp koma upp, þá námu þeir stað er úti voru, ok þegar þat leið af, þá taka þeir til leiks sem áðr. Þeir Oddr snúa þá aptr hvârirtveggiö, ok mælti Oddr: meiri vân þicki mèr at meira þurfim vèr við, ok ecki muni þessir skelfaz við ófriðinn. Guðmundr spurði hvat þá skyldi til ráðs taka. Oddr mælti: á þessa menn skal ecki stelaz, skolu vèr liggia hèr í nótt, nú gera þeir svâ. Ok þegar er víglióst var, herklæðaz þeir Oddr ok gánga á land til fundar við Hiálmar, ok þegar þeir Hiálmarr siá víkínga á landi með herklæðum, herklæðaz þeir ok gánga á land ok lið þeirra ok ímót þeim Oddi, ok þegar nemr kall spyrr Hiálmarr, hverr fyrir liði því rèði. Oddr sagdi til sín. Hiálmar mælti: ertu sá er fór til Biarmalandz fyrir nockurum vetrum? eðr hvert er öréndi þitt híngat. Oddr segir: ek vil reyna hvâr ockar er meiri maðr. Hann segir: hve mavrg skip hefir þú? Oddr mælti: vèr höfum 5 skip ok 100 manna á hveriu, eða hverso hafi þèr? Vèr höfum 15 skip, segir hann, ok 100 manna á hverio, en aungu skal þik þat skipta; hèr skolu sitia hiá tíu skipshafnir ok skal maðr manni í mót. Oddr segir: dreingiliga er

þat

þat mælt. Ok eptir þat búaz hvârirtveggiu til bardaga, ok fylkia liði sínu, ok beriaz síðan meðan dagr endiz. Þá er brugðit upp friðskildi, ok þá spyrr Hialmarr Odd hversu honum þicki hafa atfarit um daginn. Oddr lèt vel yfir. Villtu leik þenna optar? segir Hiálmarr. Ecki ætla èk annat, segir Oddr, þvíat ek fann aldri betri dreingi fyrri nè harðfeingari. Nú binda menn sár sín of kveldit, ok fara til herbúða hvârirtveggiu; en um morguninn fylkia hvârirtveggiu liði sínu, ok búaz til orrusto, ok beriaz dag annan. Um kveldit var brugðit upp friðskildi, ok þá spyr Oddr Hjálmar hversu honum þicki at hafa farit. Hann lèt vel yfir, "ok muntu vilia leik þenna enn þriðia dag." Já, segir Oddr, nú skal sverfa til stáls með oss. Þá mælti Þórðr: er þar fiárvân mikil á skipum þínum? Eigi er þat, segir Oddr, þvíat vèr höfum einskis fiár aflat í sumar. Hèr heyrða èk sagt, qvað Þórðr, frá óvitrustu mönnum, þvíat vèr beriumz fyrir ofrkapp eitt ok metnað. Hvat villtu nú at-hafaz at því? segir Oddr. Ek vil, segir Þórðr, at vèr giörim fèlag. Vel líkar mèr þat, segir Oddr, en ei veit ek hversu Hiálmari er um-gefit. Hiálmarr mælti: Ek vil þau ein víkíngalavg hafa, er ek hefi áðr haft. Oddr segir: heyra vil ek þau áðr ek iáta. Hiálmarr mælti: Ek vil

aldri hrátt eta nè lið mitt, ok ei blóð drecka; þat er ok margra manna siðr, at vinda vöðva í klæðum, ok kalla þat þá soðit, en mèr þickir þat vara varga matr. Ek vil aldri kaupmenn ræna nè búkarla, meira en svá sem ek þarf til strandhavggva, ok leggia þó verð eptir fullt. Ek vil ok aldri konur láta ræna, hvargi sem þær finnaz með micklum fiárlut. Tekr ok nöckurr minna manna konu nauðga, eða leiðir nauðga til skipa, sá skal aungu fyrirtýna nema lífi sínu, hvárt er hann er ríkr eðr úríkr. Oddr mælti: Vel þicki mèr lavg þín, ok undir avll þau vil ek gánga.

*Dráp berserkia.*

19. Nú giöra þeir fèlag sitt, ok hafa þeir nú iafnmikit lið allir saman, sem þeir Hiálmarr höfðu áðr þeir funduz, þá spyrr Oddr hvat þeir vili at-hafaz, eða viti fiárvân nöckura. Hiálmarr segir: á *Sælund* veit ek berserki þá fimm, er harðfeingari ero en flestir aðrir: heitir Brandr ok Agnarr, Asmundr ok Ingialdr ok Alfr; þessir eru bræðr, ok hafa sex skip. Oddr lètz vilia at þeir hèldi til mótz við berserkina. Ok því næst koma þeir við Sælund, ok finna þar á þessi skip. En þat var þar til tíðenda at berserkir voru geingnír á land upp fimm saman. Þeir Oddr tialda yfir skipum sínum, ok um kveldit fara menn at sofa. Um nóttina tekr Oddr

vâpn sín hlióðliga, ok geingr á land einn saman; hann stefnir þángat, sem hann vissi vân berserkianna. En um morgininn er lióst var geingu berserkir til skipa, ok þá mæta þeir Oddi, ok slær þar þegar í bardaga harðan: veita þeir Oddi grimmliga atsókn, en hann versk þeim harðfeingliga; ok svâ lýkr þeirra leik at hann drepr þá alla, en hann var lítt sárr. Snemma um morgininn saknar Asmundr Oddz, ok sèr hann at Oddr er af skipum geinginn. Þá segir hann: þat mun eigi bregðaz at hann mun farinn til fundar við berserkina; nú skolu vèr ok eigi vera sýslulausir. Hann heldr nú þar til sex skipum, er Víkíngarnir voru, oc biavgguz við hvârirtveggiu, ok síðan lýstr þar saman bardaga. Var þat allt iafnskiótt er Oddr kom ofan, ok þá hafði Hiálmarr hroðit skip þeirra öll, havfðu þeir þar aflat ógrynni fiár.

*Oddr ferr til Svíþióðar.*

20. Um haustið býðr Hiálmarr Oddi til *Svíþióðar* með sèr, ok þat þá hann; en þeir Asmundr ok Guðmundr ok Sigurðr með sínu liði fara norðr til Hrafnistu, ok mæla mót með sèr um vârit við Elvi. Þeir Hiálmarr ok Oddr koma nú í Svíþióð, ok því næst til hirðar Ingialz konúngs, ok fá þar vegsamligar viðtökur, ok dvavlduz nú þar um vetrinn; þar lagðiz svâ mikil virðíng á Odd, at eingi maðr

hefir þar ótíginn feingit þvílíka bæði sakir vitz ok atgerfi. H(iálmarr) gaf Oddi 3 (bú)... (Konúngr átti dóttur þá er Ingibiörg hèt,) meyia friðuzt, ok vel at sèr of flesta hluti. Einn tíma talar Oddr til Hiálmars þessum orðum: því biðr þú eigi kóngsdóttur, ek sè at hugr yckar ferr saman? Hjálmarr segir: ek hefi beðit, en kóngr vill eigi gipta hana útignum manni. Þá skolu vit, segir Oddr, draga saman lið ockat at sumri, ok gera konúngi tvá kosti: annathvârt at hann beriz við okr, eða gipti þèr Ingibiörg dóttur sína. Eigi vil ek þat, segir Hiálmarr; ek hefi hèr leingi friðland haft. Nú sitia þeir þar um vetrinn.

21. En um vârið búa þeir skip sín, ok halda í hernat, finna þá Asmund við Elfi; ræða þeir þá með sèr hvert halda skal of sumarit. Oddr qvez vilia halda í *vestrvíking*, en Hiálmarr bað hann ráða. Hafa þeir tuttugu skip af Norvegi. Oddr hefir dreka sinn Hálfdanar-naut. Nú koma þeir fyrst við Orkneyiar ok heria þar, ok leggia undir sik eyiarnar, þeir áttu þar margar orrustur, ok höfðu sigr í öllum. Því næst venda þeir suðr undir Skotland ok heria þar, þeir leggia undir sik mikit af Skotlandi, ok sátu þar tvá vetr.

*Líflát Asmundar.*

22. Eptir þat stefna þeir hernaðinum undir *Irland*, ok havfðu þá 60 skipa. Sem þeir komu við Irland veita þeir upprásir, brenna

bygðir, en ræna fè, ok drepa menn alla þá er þeir náðu, en fólk þat er mátti dróz á merkr ok á skóga, ok báru feárhlut sinn í leyni. Asmundr fylgdi Oddi þá sem iafnan fastaz allra manna. Þat var einn dag at þeir Oddr ok Asmundr sóttu á landit upp, þeir fóru þá svâ mikit at aungvir gátu fylgt. Oddr var svâ búinn, at hann hafði örvamal sinn á baki en boga í hendi; en er Odd varði minnzt, heyrir hann at streingr gellr í skóginum, ok hann sèr hvar avr flýgr, sú leitar staðar fyrir bríóst Asmundar, ok þegar fèll hann, ok því næst dauðr. Oddi þickir þetta svâ mikit, at aldri beið hann fyrr þvílíkan skaða. Oddr hylr Asmund með skildi hans ok klæðum, en hann stefnir þángat í skóginn, sem avrin fló at. Því næst sèr hann rióðr mikit í skóginum, ok þar í mannfiölða mikinn bæði konur ok karla. Þar stóð upp maðr í guðvefiar klæðum, sá hefir boga í hendi, en avrvar stóðu í vellinum hiá honum. Þat þickir Oddi at sýnu gánga, at hann mun þar eigà eptir hefndum at siá. Oddr tekr nú eina af gusisnautum, ok skýtr at þessum manni, avrin kemr á hann miðian, ok fèll sá skiótt. Oddr skýtr nú hverri at annarri, ok drepr þar 6 menn, þá var ok braut flýiðr á skóga allr sá lýðr ok fiölði.

Oddr er nú með svâ illu skapi at hann ætlar at vinna Irum nú allt þat íllt er

hann má. Hann kom nú á skógarbraut eina mikla, gèck eptir, en hvar sem runnar urðu fyrir hönum, þá reif hann þá upp með rótum. Einn hrísruðr varð fyrir honum lausari mycklu en aðrir; hann lèit til, ok sèr at þar var hurð undir. Hann kippir henni upp, ok þá gèck hann þar í iörð niðr, ok finnr þar á konur siö, ok var ein mycklu fríðari en aðrar. Oddr tekr þegar í hönd henni, ok vill kippa henni í braut or iarðhúsinu. Þá mælti hon: Oddr, segir hon, láttu mik vera! Hann segir: hvat muntu vita at ek heiti Oddr? Hon segir: ek vissa þegar er þèr híngatkomuð hverr þú vart, ok svâ at Hiálmarr er með þèr, ok mun ek segia honum ef ek fer nauðig til skipa. Oddr mælti: ei skaltu fara at síðr. Nú þrífa þær til hennar konurnar, ok vilia halda á henni. Hon biðr þær hætta. Ek mun kaupa at þèr, Oddr! segir hon, at þú látir mik vera í friði, því at mik skortir eigi gersimar. Ek vil eigi fè þitt, segir Oddr. Þá skal ek láta gera þèr skyrtu. Oddr mælti: gnógar á ek þær. Gnógar muntu eiga, ok ei þvílíkar sem siá skal vera: hon skal giör vera af silki ok saumuð við gull, þeir kostir skolu ok fylgia at fár munu aðrar svâ gera. Oddr mælti: lát þú mik heyra þat fyrst. Hon mælti: þik skal aldri kala í skyrtunni, hvârki á siá nè landi, þik skal eigi sund mæða ok eigi eldr granda, þik

skal eigi húngr saka ok eigi járn bíta, ok við avllum lutum mon ek skyrtu giöra nema einum. Hverr er sá enn eini, segir Oddr, ef þú mátt við þessu öllu gera? Við því má ek eigi giöra, segir hon, at iárn munu þegar bíta er þú kemr á flótta. Ef þú lætr þessar náttúrur fylgja, segir Oddr, þá þicki mèr ólíkara at ek koma á flótta; en nær skal búin vera? Hon segir: annat sumar í þat mund árs ok dags sem nú er; en nú er sól í suðri, ok hèr í þessu sama rióðri skolu vit finnaz. Oddr mælti: en hvat kemr þèr í hug, hverr ek muna vera yðr Irum, ef þú efnir eigi orð þin, svâ íllt sem ek hefi af yðr hlotið, er þèr hafit fèldan Asmund fóstbróður minn. Já, segir hon, þickiz þú ecki hafa hefnt hans, er þú feldir nú föður minn ok brœðr mína þriá? Eigi þicki mèr hans at hefndra, segir Oddr, þó skal þetta vera kaup ockat, sem þú hefir beðit.

Eptir þetta ferr Oddr til skipa, kemr Hiálmarr ímót honum, hafði hann Asmund á baki sèr. Hialmarr spyrr nú hversu at-bæriz um líflát Asmundar, eða hvârt Oddr hefði nöcquð hefnt hans? Oddr qvað þá: Fann ek at við *(o. s. fr. siá æfidr.* 38. *erindi).* Heria muntu nú vilia, segir Hiálmarr, ok brenna allt, ok drepa fólk. Eigi vil ek þat, segir Oddr, ek vil halda í brott hèðan sem fyrst gefr byr. Þetta undra víkíngar, en Hiálmarr

qveðr svâ vera skolu, sem Oddr vill. Þeir verpa nú haug mikinn eptir Asmund, en síðan búaz þeir í braut. Svâ láta víkingarnir yfir þessu, at þeir leggia bleyðiorð á bak Oddi, er hann hefnir eigi Asmundar; eigi lætr hann sem hann viti þat.

Því næst sigla þeir vestan, ok er nú ecki sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir komu undir *Hlèsey*, þar lá fyrir þeim jarl sá er *Hergautr* hèt. Hann hafði hálfan þriðia tug skipa, þar leggr Oddr til orrusto við hann, ok varð þar hinn harðazti bardagi, ok rekr nú af sèr bleyðiorðit. Svâ lýkr þeirri orrusto, at jarlinn fèll ok mestr hluti liðs hans, en þeir feingu þar ógrynni feár. Eptir þat skilia þeir lið sitt, siglir frá Guðmundr ok Sigurðr með sinu liði, ok vilia nú hætta hernaði, sigla þeir norðr til Hrafnistu ok setiaz um kyrt.

23. Oddr ok Hiálmar sigla nú austr með Danmörku ok heria á víkinga; þá rèðu fyrir *Seálandi* jarlar tveir, hèt annar Hólmgeir en annar Harðvígr, þeir havfðu feingit landit með hernaði, þeir voru brœðr þeirra 5 berserkia er Oddr feldi. Þessir bræðr fá niósn af um ferð þeirra Oddz, ok leggia til mótz við þá með 20 skip, en þeir Oddr hafa þá tíu skip; þar tókz orrusta mikil, ok lauk enn med sama móti at þeir Oddr ok Hiálmarr havfðu sigr, þat taka þeir nú ráðs at þeir setiaz þar

um

um vetrinn, ok um vârit búa þeir her sinn, ok spurr Hiálmarr hvert nú skal halda herinum. Oddr segir at halda skal til Irlandz. Varð þèr eigi þat leitt í fyrra sumar? Þó skal þángat halda, segir Oddr. Svâ gera þeir nú, er nú ecki sagt frá ferðum þeirra fyrr en þeir komu til Irlandz, ok er þeir höfðu umbúiz, þá segir Oddr at hann vill gánga einn saman á land. Hiálmarr bauð at fara með honum, en Oddr qvað ei þat vera skolu. Eptir þat geingr hann, ok lèttir eigi fyrri en hann kemr í rióðr þat, sem þau Avlvavr konúngsdóttir havfðu fundiz it fyrra sumar, ok er Avlvör eigi komin. Oddr verðr nú stórliga reiðr, ok bíðr þó um stund. Ok því næst heyrir hann at vagnar gánga, ok þar vâr Avlvör ok mart fólk með henni. Hon qveðr Odd fyrri ok mælti: nú vil ek ei at þú sèr mèr reiðr, þó at ek hafa orðit nöckuru seinni en ek qvað á. Er nú búin skyrtan? segir Oddr. Ei (trauðer) um þat, segir hon, ok skaltu nú setiaz niðr í vagninn hiá mèr ok líta á skyrtuna. Hon tekr nú skyrtu, ok sýnir honum. Hann lítr nú á, ok ferr í síðan, ok var hon honum at öllu hævilig. Oddr mælti þá: hvårt fylgia nú allir þeir kostir, sem áqveðnir eru? Svâ er víst, segir hon. En hvårt

hefir þú ein gjört þenna grip? Þá varð henni lióð á munni:

> Serk of-frá ek ór silki-
> í siö stavðum gervan;
> ermr var á Iralandi,
> avnnur norðr með Finnum,
> slógu Saxa meyiar,
> en suðreyskar spunnu,
> váfu valskár drósir,
> varp óþióðans móðir.

Þá varð Oddi ok lióð á munni: Vara sem brynia *(o. s. fr. sjá æfidr. 41. er.)* Hon spyrr þá hversu honum líki skyrtugerðin. Hann lætr vel yfir: "ok skaltu nú kiósa þèr laun fyrir." Hon mælti þá: Hèr er svâ herskátt, segir hon, at síðan faðir minn fèll frá, þá er við þ(ví) búit at þeir hafi undan mèr landit; nú kýs ek þau laun at þèr sitið hèr þriá vetr. Þat verðr eigi kauplaust, segir Oddr. Hvat skal þar til vinna, segir hon. Þú skalt gánga með mèr, segir Oddr, ok vera mín eiginkona. Avlvavr mælti: manngiarnliga mun þèr mælt þickia, segir hon; þenna kost mun ek taka, segir hon, eptir þetta taka þau þetta með fastmælum, hon fær honum þá mikit fólk, ok fer hann við svâ búit til skipa. Ok er þeir Hiálmarr finnast, segir Oddr honum allt sem háttað er, ok biðr hann nú vera þar þessa 3 vetr ok því iátar Hiálmarr honum;

því næst dreckr Oddr brúðlaup sitt ok fær Avlvarar. Eptir þat liggia þeir úti á herskipum, ok drepa víkínga ok illgerðamenn, þá er þar höfðu heriat, líða nú þessir þrír vetr með þeima hætti. Á þessi stundu gátu þau Oddr dóttur saman, sú hèt Ragnhildr. At liðnum þrim vetrum lýsir Oddr brautferð sinni af Irlandi, ok vill hafva dóttur sína með sèr. Avlvavr segir at hún skal vera eptir hiá henni. Þar til þreyta þau þetta, at Hiálmar blýtr at ráða ok skipa þessu, segir þat sitt atqvæði, at mær vaxi upp með móður sinni henni til yndis.

*Frá Skolla.*

24. Eptir þat sigla þeir vestan, ok halda til *Norðimbralandz*, þar lá víkíngr sá er Skolli hèt, hann hafði 60 skipa á vatni, ok er þeir funduz, spyrr Skolli hverr fyrir liði rèði. Oddr sagði til sín. Ertu sá Oddr er fórt til Biarmalandz? Var ek þar, segir Oddr. Hvat viltu híngat, segir Skolli. Ek vil hafa fè þitt ok fiör, segir Oddr. Skolli mælti: hví villtu heria á mik? Oddr segir: því at þú heriar á konúng þinn. Skolli mælti: Veiztu hverjar sakir ek á við konúng þenna? Nei, segir Oddr, þat veit ek ei. Þá skal ek segia þèr, segir Skolli. Þessi konúngr hefir drepit favður minn, er hèr rèð fyrir, ok Hrói jarl hèt, en síðan lèt hann gèfa sèr konúngs nafn, ok tók mitt ríki allt undir sik. Nú þætti

mèr yðr þat meiri frami, at ráðaz í lið með mèr ok drepa konúng þenna; vil ek því heita at eiga síðan allt mitt mál undir yðr fóstbræðrum. Oddr segir: með því at þetta sè svå farit sem þú segir; þá skaltu fá þèr tólf bœndr af landi ofan ok eiðafulltíng til savnnunar þíns máls þegar í morgin. Svá skal vera, segir Skolli, við þetta skilia þeir.

Um morgininn geingr Oddr ok Hiálmarr á land med avllu liði sínu, þá voru þar komnir 12 bœndr af landi ofan, þessir sóru eiða með Skolla at þessum málum; eptir þat snúaz þeir í lið Skolla taka nú ok heriâ Norðimbraland ok leggja undir sik. En er þetta spyrr konúngr þeirra, fer hann ímót með her sinn, ok slær þar þegar í bardaga er þeir finnaz. Þessi orrosta stóð þriá daga með enu mesta mannzspelli, ok þá fèll konúngr þeirra: En þeir Oddr leggia undir sik landit, ok sitia þar um vetrinn; en um vârit lètu þeir taka Skolla til jarls; (skildu síðan) með henum mesta kærleik.

25. Þeir Oddr sigla nú aûstr til Noregs ok koma at austr við Elvina, þar lá fyrir herkonúngr sá er *Hlavðver* hèt, hann hafði 30 skipa, ok var siálfr enn mesti kappi. Annar konúngr var með honum sá er (*Róarr*) hèt, þegar þeir Oddr höfðu tialdat ok um-búiz, þá róa þar í höfnina at þeim tíu skip; ok þegar þeir funduz, slær í

bardaga með þeim. Þessir menn gjörðu svâ harða lavtu, at hverr þeirra hefir mann fyrir sik eða meirr; en með því lauk at þeir Oddr ruddu þessi skip tíu. Oddr mælti: þa til Hiálmars: Allmiög hafa þessir menn mikladir verit í frásögnum. Hiálmarr mælti: bíðum enn, meiri vân at þeirra lið sè, meira, ok í því komu 20 skip í höfnina at þeim, þeir æptu þegar heróp, ok lavgðu þegar at þeim, tókz ákavf orrosta, ok svâ havrð at Oddi þótti eigi ofsögum sagt frá hraustleik þessa manna. Svâ lykr þeirra leik, at þeir drepa konúngana báða ok allt lið þeirra. Þeir Oddr hafa nú ok eigi meira lið en tvö skip, er þeir sigla þaðan.

26. Þessu næst koma þeir Oddr ok Hjálmarr í sker þau er Elvarsker heita, en í skerin gánga vâgar þeir er *Trönuvâgar* heita, þar lágu fyrir 2 skip mikil ok tialdat yfir svavrtu. Nú kallar Oddr ok spyrr hverr fyrir skipum ráði. Maðr sprettir skavrum yfir sèr, ok svarar: sá heitir *Avgmundr* er fyrir skipum þessum ræðr. Hvat Avgmundr ertu? segir Oddr. Hvar landa ertu þess fæddr, segir hann, at þú hefir eigi heyrt getið Avgmundar Eyþiófsbana? Oddr svarar: Ek hefi þin víst heyrt getið, ok eptir því sem þú ert siálfr at siá, því at ek sá þèr aldrei íllmannligra mann; gánga ok frá þèr illar savgur margar. Avgmundr segir: hverr

er þessi enn stórorði? Oddr sagði nafn sitt. Avgmundr segir: fórtu til Biarmalandz fyrir nöckuru. Já, segir Oddr. Þá hefir vel tilborit, segir Avgmundr, því at ek hefi þín leitat um hríð. Oddr mælti: hvat hefir þú mèr hugat? Við skolum beriaz hvárt er þú vill á siá eða landi. Oddr mælti: við skolum beriaz á skipum, þá reka þeir Avgmundr tiöld af sèr, ok þeir Oddr ok Hiálmar búaz ok um, ok bera griót á skip sín. Svá er sagt frá yfirlitum (Avgmundar), at hann var svartr á hárs lit, ok hèck flóki svartr mikill ofan fyrir andlitið, þat er topprinn skyldi heita; allr var hann ok svartr í andliti nema augu ok tenn. Hann hafði átta menn með sèr, þá er voru at siá sem hann. Þeir voru líkari tröllum en mönnum fyrir vaxtar sakir ok allrar illzkö; þessa menn bitu ok eingi járn. En er hvárirtveggiu voru búnir; þá tókz þar bardagi, ok leggia borð við borð. Þeir eiga lánga orrustu ok harða, ok er þat hafði geingit um hríð, þá bregðr Avgmundr friðskildi upp, ok spyrr Odd hversu honum þicki at-fara. Oddr mælti: vel læt ek yfir þó þickiumz ek nú við tröll eiga en eigi við menn; ek hió á háls þèr um hríð með sverði mínu, ok beit eigi heldr á en tálknskíði væri hravkt um. Avgmundr svarar: hvártveggi ockar kann at mæla slíkt við annan, ek hió á avxl þèr;

ok hugðumz ek at gjöra þig einhendan, en eigi beit á þinni skyrtu, ok hefi èk þat sverð, er hvergi nemr í havggvi stað, en hvárt villtu eiga bardaga leingr? Já segir Oddr, reyna skal leingr. Ek mon nú segia þèr, segir Avgmundr, hversu gánga mun ímilli vár; hèr múnu falla bæði Hiálmarr ok Þórðr ok menn þínir allir; þá munu ok fallnir allir kappar mínir, ok munu við tveir uppstanda, en ef við skolum viðeigaz, þá muntu driúgari verða; því at þèr er ætlaðr aldr meiri myckla en avðrum, þú hefir ok skyrtu þá, er eigi bíta járn ok eigi eldr. Nú herða þeir at í annat sinn, ok beriaz nú hvar snarpara, ok ei lýkr fyrr, en þeir standa þrír upp fóstbræðr, þá standa þeir Avgmundr upp níu. Þá mælti Avgmundr viltu nú at vèr skilim, Oddr! því at nú kalla èk jafn vegit? Já, segir Oddr, því betr þicki mèr er vèr skilium fyrri, því at ek á hèr við fjandr en eigi við menn.

27. Þeir Oddr halda nú á braut einni skúto, ok komu um kveldit undir einn hólma. Oddr mælti þá: Nú eru þrenn verk fyrir höndum, þat er eitt at skióta dýr til matar í skógi, annat at gæta skips, þriðja at drepa eld ok fá oss eldivið. Þórðr mælti: Ek mon gæta skips. Hiálmarr mælti: ek mon slá eld ok fá eldivið. Þá ferr Oddr í skóg ok skýtr dýr, en er þeir koma aptr, þá er fest skútan, en Þórðr

í bruttu. Þeir fara nú ok leita hans, ok um síðir finna þeir hann í bergskoru einni, ok sitr þar, ok var þá avrendr, þetta þótti þeim svá harðr skaði, at þeir, þóttuz aungvan slíkan hafa feingit nema lát Asmundar. Þeir leita þá hvat honum hafi at bana orðit, ok finna spiót undir hendi hans, en fjöðrin tók út avðrum megin; þá mælti Oddr: þetta mun en vândi Avgmundr vitað hafa, ok skal nú þegar halda aptr ok beriaz til þrautar. Þeir gera nú svá, róa aptr í sundin, ok er Avgmundr í brautu or vâgum, þeir leita hans nú viku fulla ok fasta um sker ok hólma, ok eigi finna þeir hann því heldr, nè spyria til hans.

*Haugsgjörð eptir (Þórð).*

Nú snúa þeir þángat sem lík Þórðar var, ok flytia hann heim með sèr til Svíþióðar ok verpa þar eptir hann fagran haug. Ingialdr konúngr tekr við þeim fóstbræðrum avar vel, ok dveliaz þeir nú þar (um vetrinn) *).

28. En at sumarmagni býðr konúngr þeim at þeir siti þar, "ok mun ek fá yckr skip ok lið fyrir land fram at skemta yckr. Þat er

*) *Episoden seqventem de morte Hjalmari, exaratori membranæ ex consulto omissam (vel saltem in 7 lin.postea erasas contractam) ex aliis codd. chartaceis mediocris notæ, mutata orthographia, transcripsi.*

er, nú at segja af þeim at þeir búa skip sín, ok hafa fjörutíu manna á hvörju skipi. Þeir sigla nú hafsiglingar; svo ber við at veðr bægir þeim, ok sigla þeir til eyjar einnar er köllnð er *Sámsey*, ok koma í voga þá er Munarvogar heita; þar leggja þeir skip sín í lægi, ok tjalda, yfir sèr. En þat hefir til-borit um daginn á skipi Odds at húsa-snótra hefir í sundr gengit, en er morgun kemr gánga þeir á land tveir Oddr ok Hjálmar, ok höggva sèr efnitrè, ok var Hjálmar svo vanr at gánga at hann hafði herklæði sín, þau sem hann var vanr at hafa í bardögum, en Oddr hafði eptirlátit örvamæli sinn á skipum niðri, en bæ i dag ok nótt hafi hann skyrtu sína, ok var nú lið þeirra allt í svefni. Þeir finna ei fyrr en víkingar koma at þeim tólf saman, hèt sá Angantýr er fyrir þeim var, ok voru allir bræðr; þeir höfðu aldrei meira lið, ok fóru þó víða um heiminn, ok feingu þó hvörgi viðnám. Nú koma þeir þar at, sem skip þeirra Odds ok Hjálmars voru fyrir: þeir hlaupa á þá, verðr þar skjót frásaga, at þeir drepa þar hvert manns-barn, er á skipunum var. Þá taka þeir bræðr til orða: þar er þó umm at mæla, at ei hefir faðir vår annan tíma meir logit at oss, en nú, er hann sagði menn þessa harða ok mikla víkinga, svo ecki reisi rönd við; en vær höfum svo hèr komit, at vær höfum alla sèð sízt duga, ok förum heim til föður vors ok drepum hann, skarnkallinn, ok launum hönum svo lygi sína. — Þat hefir annathvört verit, at þeir (Hjálmar ok Oddr) hafa aungir (menn) verit, eða hinn ella at þeir voru geingnir á

land upp; nú munu vær gánga á land upp ok leita þeirra, heldr en fara á burt at óreyndu.

Þeir gánga nú á land tólf bræðr, nú kemr á þá berserksgángr gjörvalla, ok fara grenjandi, þá kom ok berserksgángr á Angantýr, en þat hafði aldrei fyrr verit. Þetta stendz á at þeir Oddr ok Hjálmar gánga þá ofan af mörkinni. Þá nemr Oddr staðar, ok stíngr niðr fótum; þá spyr Hjálmar, hvat honum sè. Ber fyrir mik læti kynlig, segir Oddr; mèr þykir stundum sem griðúngar gjalli eða hundar ýli, en stundum er því líkt sem grenjat sè, eða veiztu nockra þá menn, er þann veg sèu til náttúru, at slík læti hafa? Já segir hann, veit ek; þeir eru tólf bræðr. Kanntu nöfn þeirra? segir Oddr. Þá varð Hjálmari ljóð at munni:

Hervarðr, Hjörvarðr,
Hrani, Angantýr,
Bildr ok Bragi 1),
Bölvi ok Toki 2),
Tindr ok Tyrfíngr,
tveir Hǫddúngar:
þeir 'ro í Bolm 3) austr
bornir verstir
Arngríms synir

ok Eyvöru.
Þá frá ek menn
mein auðugasta,
ok ógjarnasta
gott at vinna;
þeir 'ro af berserks
böli uppfyldir,
tvö skip hruðu
tryggra manna.

1) Búi ok Brani *Hervs.*

2) Barri ok Reitner *aut* Reifner *Hervs. malim eqvidem*:
Búi ok Bragi Böðvar ok Toki.
*vel* Reiðmar.

3) *Sic ego pro* bær, *qvod Grammaticæ regulis repugnat.*

þá sèr Oddr hvar þeir gánga, berserkirnir, ok varð honum ljóð at munni.

Men sè èk gánga
frá Munarvogum,
gunnar-gjarnir
í grám serkjum:
þeir hafa reiðir
rómu háða,
eru skip ockar
á ströndu niðri.

Oddr mælti: þetta kemr eigi vel við; því at örvamælir minn liggr við skip niðri, ok svo bogi minn, utan ek hefi bordöxi eina í hendi. Oddr qvað þá stöku þessa:

Nú er ótti
einu sinni
er þeir grenjandi
gánga af öskum,
ok emjandi
á ey stíga;
[þá frá ek firða
flárá'asta,
ok örvasta
íllt at vinna 4).

Nú geingr Oddr til merkrinnar aptr, ok höggr sèr kylfu, en Hjálmar bíðr þar á meðan; ok er hann kemr at ofan, þá koma hinir at neðan öskrandi, ok bættu þeim lítt fyrir brjósti, at þeir sögðu þeim fall manna sinna. Hverir eru þessir menn, segir Oddr, sem vær höfum hèr hitta? þeir sögðu til sín ok um ætterni sitt ok óðal, "eða hvör spyr at því? segir Angantýr. Hèr heitir annar Oddr en annar Hjálmar enn hugstóri. þá ber vel at, segir Angantýr, fyrir því vèr höfum yckar leitat leingi, ok skal einn gánga at hvörjum yckar í senn; ok ætla èk mèr at berjast við Odd, fyrir því at þú hefir skyrtu þá at eingin járn bíta á, en ek á sverð þat er Tyrfíngr

4) *Rectius Hervars.* týrar lausir (eru) ok tólf saman.

heitir, er dvergar hafa smíðat, ok er því heitit at hvörgi skal í höggi stað nema, hvort sem fyrir verðr járn eða steinar. Hèr er skipt í helmínga liði, ok fara sex í annan stað, en ek er sjalfr við fimta mann; þat er likt látit, ek einn ok Haddúngar tveir, þá kemr einn í móti Tyrfíngi. Þá tók Hjálmar til orða: ek vil berjast við Angantýr; því ek hefi brynju þá at ek hefi aldrei sár í-feingit; hún er sett ferföldum hríngum. Þá gjörir þú illa segir Oddr, ok ecki at mínum vilja; því þat má ske at járn bíta á brynju þína, þó hún sè góð. Ek skal ráða, segir Hjálmar. Þá segir Angantýr: ef nockur kemst í burt hèðan þá skal einginn ræna annan at vopnum, ek vil hafa Tyrfing i jörð með mèr, þó at ek deyi, svá skal Oddr hafa skyrtu sína, ok skeyti sín, en Hjálmar brynju, ok svá skilja þeir á at hvorir skulu verpa haug eptir aðra, þeir er lifa.

Nú gánga fram Haddúngar tveir, en Oddr lýstr sitt kylfuhögg hvorum þeirra, ok þurftu þeir ecki fleiri; þá rís upp hver eptir annan, er við Odd skulu eiga, ok svo lykr at Oddr drepr fyrst þá sem honum voru ætlaðir; nú tekr Oddr hvíld. Þá stendr Hjörvarðr upp ok geingr einn á móti honum (Hjálmari) ok urðu stutt þeirra viðskipti áðr hann fèll; þá rís upp annar, þriði ok hinn fiórði, ok fara allir eina leið. Þá rís upp Angantýr ok eiga þeir harðan ok lángan atgáng, en svo lýkr at Angantýr fellr fyrir Hjálmari: Þá geingr Hjálmar at þúfu einni, ok settiz niðr, ok hnigr upp at. Þá geingr Oddr at honum ok qvað vísu:

Hvat er þèr, Hjálmar! hjálmr er þinn högginn,
hefir þú lit brugðit, en á hlið brynja,
þik sè ek mæða nú held ek fjörvi
miklar undir, farit þínu.

ok hefir nú sannazt þat sem ek sagði þèr, at ockr mundi ei hlý a at berjaz við Angantýr; [þá mælti Hjálmar: at deyja verðr hvör um sinn 1) þá qvað Hjálmar:

Sár hef ek sextán, hneit mèr við hjarta
slitna brynju, hjör Angantýrs,
svart er fyrir sjónum, hvass blóðrefill
sè ek ei at gánga: hertr i eitri.

Nú hefi èk þann skaða feingit, segir Oddr, at ek mun aldrei bætr bíða, meðan lif endiz, ok hafa nú illa gefizt ráð þín, mundu við hèr elligar mikinn sigur feingit hafa, ef ek hefði ráðit. Nú skaltu setjaz niðr, segir Hjálmar, ok skal ek qveða ljóð nockur, ok senda heim til Svíþjóðar, ok nú qvað hann þetta:

Fregna eigi þat ótrauðr gamans
á fold konur, út með Sóta:
at ek höggum fór snúðuga
hlífa gjörða; ok fèck í lið
hlæja mân-at því mesta liðsinni
at ek 2) hlýða gjörða frá húsvinum,
snót svinnhuguð. Leiddi mik en hvíta
Sigtúnum í. hilmis dóttir
Hvarf ek frá fögrum á Agnafit
fljóða saungvi utanverða:

1) *om* 73. 2) ei 73, hlífa vildi *Adl.*

saga mun sannast,
er hún sagði mèr,
at aptur koma
eigi munda èk.
Hvarf ek frá úngri
Ingibjörgu
skjótt rèð ek um þat
á skárra dægri:
sá mun fljóði
fastnæmr tregi,
at hún síðan
sèr mik aldrei.
Ber þú til sýnis
sá er minn vilì
hjálm ok brynju
í hölls konúngs:
hugr mun gángaz
hilmis dóttur,
er hún höggna sèr
hlíf fyrir brjósti.
Atta èk á foldu
fimm bú saman

en ek unda þó
ei á landi
nú verð ek liggja
lítt megandi
sverði unda×r
Sáms í eyju.
Drag mèr af hendi
hrínginn rauða,
færðu hann úngri
Ingibjörgu:
Sá mun fljóði
fastnæmr tregi,
at hún síðan
sèr mik aldrei.
Sè ek hvar sitja
Sigtúnum í
fljóð þaug er litu
farar mik þar 3) veg:
gleðr ei Hjálmar
í höllu konúngs
öl nè reckar
aldrei síðan.

Nú vil ek þú berir qveðju mína öllum beckju-nautum ockar, ok vil ek nefna þá á nafn:

Drucku vèr ok dæmdum
dægr mart saman
Alfr ok Atli,

Eivindr, Trani,
Steinkell, Stikill,
Steinólfr, Vífill,

3) þann 73. fara mier þannug *Adl.*

Gissur, Glammar,
Guðvarðr, Stari,
Hrafn ok Helgi,
Hlöðver, Igull,
Steinn ok Kári,
Stýr ok Ali,
Össur, Ögur,
Ormr ok Trandill,
Gilfri í Götu,
Gjafar, Ragnar.
Fjölmundr, Fjalar,
Frosti ok Beinir,
Tindr, Tyrfíngr,
tveir Haddúngar,
Valbjörn, Vikar,
Vemundr, Flosi,
Geirbrandr, Gauti,
Guttormr Snerill.
Stýr ok Ari,
Steinn ok Kári,
Vöttur ok Veseti,
Vermundr, Hnefi:
vèr á einn 4) beck
allir sátum,
Teitr, Refr,
því em ek trauðr flugar.
Snarfari, Sigvaldi,
Snæbjörn ok Kolr,
Þráin, Þjóstólfr,
Þórálfr, Snati,
Hrafn ok Haddíngr,
Húnfastr, Bendir 5),
Ottar, Egill
ok með Ingvari.

Nú vil ek biðja þik þess, segir Hjálmar, at þú látir mik ecki verða lagðan í haug hjá so illum óvættum, sem berserkir þessir eru, fyrir því ek þykiz miklu betri at mèr. Þetta vil ek ok veita þèr sem þú biðr, segir Oddr, því nú þicki mèr sem fast dragi at þèr. Nú skaltu draga hrínginn af hendi mèr, segir Hjálmar, ok færa Ingibjörgu, ok seg henni so, at ek færi henni hrínginn at sendíngu á deyjanda degi, ok nú varð enn Hjálmari ljóð at munni:

Dreckr með jöfri öl glaðliga
jarla meingi at Uppsölum:

4) *Sic etiam* 73. 5) Bárdr *Adl. in marg.* Berdir 37.

mæðir marga
munngát firða
en mik eggja spor
í eyjo þessari.
Hrafn flýgr sunnan
af Ham 6) hei i,
ok er eptir þar
örn í sinni:
þeim gef ek erni
efstum bráðir
sá mun af blóði
bergja mínu.

Eptir þetta dó Hjalmar, þá dró Oddr berserkina saman í eina kös, ok sveigir þar at utan mikla viðu, þetta var skamt frá sjó; þar leggr hann hjá þeim vopn þeirra ok klæði, rænandi þá aungu; síðan ber hann at torf, ok eys eptir þat sandi at utan. Síðan tekr hann Hjálmar ok leggr á bak sèr, ok geingr til sjófar ofan, ok leggr hann niðr á ströndina; ok eptir þat geingr hann út á skip, ok ber á land hvörn mann, sem fallit hefir, ok verpr þar annan haug eptir lið sitt, ok er þat sagt af þeim mönnum, sem þar höfðu komit at enn sægi þess merki í dag, sem Oddr gjörði þar.

Eptir þessa iðju leggr Oddr Hjálmar á bak sèr, ok á skip, flyzt undan landi, þá verðr Oddr at taka til íþróttar sinnar, þeirrar, sem honum var lèð, at hann færir upp segl í logni ok siglir heim í Svíþjóð með Hjálmar dauðan; hann tók þar land, sem hann kaus á, ok dró upp skip sitt, hann leggr Hjálmar á bak sèr, ok geingr með hann til Uppsala, ok leggr hann fyrir hallar dyrum ok geingr so inn í höllina, ok hefir brynju Hjálmars á hendi sèr ok so hjálm, ok leggr niðr á hallar gólfit fyrir kóng, ok segir hönum tíðindin, sem gjörzt

6) Hamar 32. hám meidi *Adl. in marg.*

gjörzt höfðu, Síðan gèck hann til Ingibjargar, þar sem hún sat á stóli; hún var at sauma Hjálmari skyrtu. Hèr er hríngr, segir Oddr, er Hjálmar sendi þèr á deyjanda degi ok qveðju sína með. Hún tekr við hríngnum ok sèr á, ok svarar aungu; hún hnígr þegar aptr af stólnum, ok dó þegar. Þá skellir Oddr upp yfir sik ok hlær, ok mælti þetta: nú skal þessu fagna, nú skulu þið njótaz dauð, fyrst yckr varð ei auðit lifandi. Nú tekr Oddr hana dauða, ok ber hana þángat sem Hjálmar lá, ok leggr hana í hans faðm fyrir hallar-dyrum. Nú gjörir hann menn í havllina, fyrir Hlödver 7) kóng, ok bað hann sjá hvernig hann hefir um-búit. Eptir þetta allt fagnar kóngr Oddi mjög, ok sitr hann í hásæti, þegar hann lètti harmi sínum, en þegar Oddr hafði hvíld tekit þá segir hann kóngi at hann vill láta erfi drecka ok verpa haug um þau Ingibjörgu. Kóngr lèt alla hluti svo gjöra, sem Oddr sagði fyrir; þá var framborinn Hjálmar ok brynja er Hjálmar hafði átt ok þickir mönnum mikils vert um afreks verk hans eða hvat mikit hönum var til fjörs. Nú eru þau bæði lögð í einn haug, ok gánga margir menn at gjöra þetta þrekvirki, ok lèt Oddr þetta gjöra með Hlödver kóngi, en um vorit ljær kóngr honum lið ok skip, ok fór Oddr at leita Ögmundar á nýan leik, ok fann hann hvergi 8).

Nú dvelz Oddr nöckvurá hríð í Garðaríki, ok leggr kóngr til hans mikil met-

12.

7) *Sic etiam Adl. &c.* 8) *Incipit iterum Membr.*

orð, svâ at hann skyldi avllu ráða því með kónginum sem hann vildi; Oddr hefr nú landvavrn fyri Gardaríki.

29. Frá því er nú sagt eitt sumar at Oddr siglir liði sínu til *Gotlandz*, ok hefir tíu skip; þar varð fyrir honum víkíngr sá er *Sæviðr* hèt. Hann var mikill kappi, ok hverium manni meiri ok sterkari, ok hafði alla æfi sína úti legit á herskipum. Hann hefir hálfan sètta tug skipa; hann leggr þegar til orrosto við Odd með avllu liði sínu, en af því at liðsmunr var mikill þá snýr mannfalli þegar í lið Oddz, ok svâ lýkr um kveldit at rudd eru skip avll fyrir Oddi, þar til er hann stendr einn upp sinna manna. Ok þá stavckr hann fyrir borð, en náliga vàr myrkt, ok leggz þegar í braut frá skipunum. Þetta getr einn maðr sèð, ok þrífr gaflok, ok skýtr eptir honum, ok kemr í kálfa honum, ok bítr svâ at í beini nam stað. Oddi kom nú í hug, at meiri vân væri at hann sè nú í flótta særðr; snýr nú aptr í stað ok at skipunum. Jafnskiótt sem þeir víkíngarnir geta þetta at líta, hafa þeir þegar hendr á honum, leggia nú fjötur á fætr Oddi, en bogastreing at höndum. Sæviðr fær nú til þriár tylptir manna at vaka yfir Odd, en allt fólk annat fór at sofa, ok flest á landi. En er herrinn var sofnaðr, þá mælti Oddr: þèr eruð vesælir menn, vakit eptir mèr, en hafit ecki til gamans, gjörit nú

annat-hvårt, at einn-hverr yðvarr skemti, ella mun ek skemta. Þeir qvoðuz gjarna vilja at hann skemti, ok qvoðu hann mikinn ágætis-mann vera; eptir þat qveðr Oddr þeim qvæði, ok hvert at öðru þar til er þeir voru sofnaðir allir. Þá ekr Oddr sèr þár at er avx lá, hann gnýr þarvið bakinu þartil er bogastreingrinn skarsk, ok er Oddr var lauss á havndum, þá ók hann af sèr fjötrinum; því næst leitar Oddr at skeyti sínu, ok fann ävrvamalinn ok svå boga sinn. Síðan sneri Oddr í skóg. Nú leið af nóttin, ok um morgininn, ætlar Sæviðr at láta drepa Odd, sendir nú menn út á skip, svåfu þar varðmenn, en Oddr var í brautu. Sæviðr dvelz þar nockura daga, en Oddr hefir niósn af athöfn hans; svaf hann þá á landi í tjaldi. Oddr leitar þá um nótt til tjallz Sæviðar, urðu varðmenn eigi fyrr varir við, en Oddr feldi á þá tjaldit, ok barði þeim tjaldkúlur, ok lètti ei fyrr en Sæviðr var drepinn, ok allir þeir er þar voru í tjaldi með honum. Oddr býðz þeim víkingunum til formannz, ok þeir játa því, ferr Oddr nú víða um lavnd, ok vinnr stórverk, en sat jafnan í Svíþjóðu á vetrum.

*Skírn Oddz.*

30. Eitt vår sendir Oddr menn norðr í Hrafnistu, at þeir frændr hans Guðmundr ok Sigurðr kæmi norðan. Þeir bjöggu

ok þegar sína ferð, ok mæltu fund sinn í Eik-reyium. Þetta vár sagði Oddr upp þiónostu við Ing' Svía konúng, hèlt Oddr þá til Eikr-eyia, ok er þeir funduz frændr, segir hann þeim skil á at hann vill halda í útlavnd liði sínu. Þeir lètu vel yfir því, fóru þeir nú um sumarit; en en hvar sem þeir komu í ókunn lavnd, þá buðu konúngar Oddi at hafa í þeirra ríki hvat er hann vildi. Þenna vetr eptir sótti Oddr með liði sínu út á Grickland, ok þar fèck hann sèr skip, ok sigldi út undir *Sikiley*, þar var þá kristið. Sá ábóti rèð þar fyrir einu klaustri, er Hugi hèt, hann var enn mesti ágætismaðr; hann fèck spurn af at þar voru heiðnir menn komnir norþan or heimi: fór þessi enn góði ábóti þá til fundar við þá, ok tók tal við Odd; sagþi ábóti honum marga hluti frá dýrð guðs, lèt Oddr sèr þat allt vel skíliaz. Abóti bað þá Odd at láta skíraz, en hann qvez mundu siá fyrst siðu þeirra. Oddr ferr nú einn dag til kyrkju með sínum mönnum; heyrðu þeir þar klucknahlióð ok fagran söng. Abóti fór þá enn til tals við Odd, ok spurði hversu þeim gætiz at sið þeirra. Oddr lèt vel yfir; munu vèr nú, segir Oddr, sitia hèr í vetr með yðru lofi. Abóti qvað svâ vera skyldu. Sem Oddr hafði þar setið framm um jól, lágu illgerðamenn úti, ok herjuðu á Sikiley. Hugi ábóti átti þá tal við Odd,

ok bað hann frelsa land þeirra af illþýði. Oddr játar því, býr hann nú her sinn; þenna vetr fór hann víða um Gricklandz eyjar, ok heriaði, ok vann stór verk ok fèck auð feár. Þar kom hann fremst, er heitir Aqvitanaland: þar rèðu fyrir fjórir höfðíngjar, ok þar átti Oddr orrosto mickla, ok felldi þar alla þessa höfðíngja ok mikit fólk annat, ok fèck þar oróf fjár. Þarum qvað hann þessa vísu: Þar kom ek utarst *(o. s. fr. sjá æfidr.* 53.) Eptir þat heldr Oddr aptr til Sikileyjar ok dvalðiz þar um hríð, var Oddr þá skírðr af Huga ábóta ok allr herr hans.

31. Eptir þat siglir Oddr út til *Jórsalalandz*, ok þá fèck hann storm svâ mikinn, ok grunnsævi at þar braut skip hans avll, þar týnduz ok menn hanns allír, svâ at einn komz hann á land með því moti, at hann rak með skipflaki nöckuru til landz. Hann hafði avrvamal sinn með sèr. Hèr um qvað Oddr þessa vísu: Sigldum síðan *(o. s. fr. sjá æfidr.* 52.) Oddr er nú kominn á Jórsala-land, hann snýr nú leið sinni út til Jórdánar, þar ferr hann ór klæðum avllum, ok ór skyrtu sinni, ok hèlt hón avllum kostum sínum, hann snýr nú austr með hafinu til Sýrlandz, ok hefr avrvamal sinn á baki.

32. Oddr fer nú land af landi, er ecki sagt af ferð hans fyrr en hann kemr austr

á *Ungaraland*. Þar réðu fyrir landi konúngar tveir úngir, hètu Vilhjálmr ok Knútr, þeir höfðu fyrir skavmmu tekit við favðurleifð sinni. Vilhjálmr var þeirra eldri, ok vildi hann einn hafa forráð fyrir þeim, en Knútr undi því eigi, urðu þeir af því missáttir ok hieldu ófrið. En af því at Vilhjálmr var þeirra reyndr meirr í orrostom, þá varð hann liðfleiri ok driúgari, kom Knútr á flótta, ok lèt lið mikit, stavck hann þá or ríki sínu, aflaði hann þá liðs hvargi sem hann fèck. Þá er svá er komit, kemr Oddr til móts við Knút konúng, ok bauð honum lið sitt. Konúngr spurði hverr hann væri, en Oddr sagði. Knútr konúngr mælti: hefir þú farit til Bjarmalandz fyrir laungu? Já, segir Oddr, var ek þar. Konúngr mælti þá: velkominn skaltu með oss vera, skaltu geraz forstióri fyrir liði mínu.

*Orrosta Oddz við Vilhjálm konúng.*

Nú dróz lið mikit til Knúts konúngs, ok eptir þat snýz hann aptr með herinn til síns landz. Oddr mælti þá til Knúts. Nú vil ek at þú sendir menn til konúngs bróður þíns, ok bióðir honum frið ok jafnsætti ok helmínga-skipti á ríki. Knútr segir: þessa favr vil ek at þú farir. Oddr hefir nú með sèr hundrað manna, ok finnr Vilhjálm konúng, ok segir honum boð bróðurs síns. Vilhjálmr konúngr segir at hann vill einskis skiptis Knúti konúngi unna á

ríki, meira en hann sè innan hirðar. Oddr qvað hann eflaust mega þat vita, at Knútr konúngr mun eptir leita s(ínum) hluta. Þeir skildu at svá mælto. Oddr ferr nú ok segir Knúti konúngi svá skapat, ok at þeim var allra sætta varnat. Eptir þat stefna þeir herinum í mót Vilhjálmi konúngi, ok þegar þeir finnaz slær þar í mikinn bardaga. Oddr gèck svá hart framm at hann brautz á skjallborg Vilhjálms konúngs, ok um síðir lagði hann sverði í gegnum hann, fèll konúngr þá undir merkium sínum, var þá œpt sigróp um allan herinn. Knútr konúngr lèt þá stavðva bardagann, ok bióða avllum mönnum grið, tók þat þá avll alþýða, játtu honum allir menn þá hlýðni, ok gáfu þar til trú sína. Eptir þat settiz Knútr konúngr í ríki sitt, bauð hann þá Oddi alla kosti með sèr. Hèr um qvað Oddr þessa vísu: Unda èk eigi *(o. s. fr. sjá æfidr. 64.)*

*Frá Oddi.*

33. Oddr hefir þar nú verit svá at nöckurum misserum hefir skipt, ok þá gerir honum svá leitt at hann má þar með aungu móti leingr dveljaz. Konúngr býðr honum lið mikit, en hann qvez með aungu móti vilja. Oddr snýr nú á braut af Ungaralandi, ok ferr nú mörg lavnd ok stórar merkr; hann kom fram um síðir á *Húnalandi*, þar fann hann í mörk einni mikilli lítinn bœ, ok þar fýsti Odd

at taka hvíld. Hann hafði þá våskufl einn mikinn ok síðan yfir klæðum sínum ok avrvamal sinn á baki, en boga i hendi. Sem Oddr sneri at þeim litla bœ, stóð maðr úti ok klauf skíð, sá var lítill vexti ok grár fyrir hæru, sá heilsar hinum komna ok. spyrr at nafni. Hann qvez heita Víðförull, "eða hvat heitir þú karl? Ek heiti Jólfr, segir karl, þú munt vilja vera hèr í nótt? Já, segir Oddr. Þeir gèngu þá inn ok til stofu. Jólfr mælti: þú kerling skal sæma við gestinn, en ek á mart annaz. Kerlíng mælti: þat er mjög opt, at þú býðr mönnum, en matr er lítill. Um qveldit kom vist fyrir þá bónda. Víðfavrull tekr kníf undan kofli sínum þar voru gyltir hólkar á, þat var gersimi mikil. Karl tók upp knífinn ok leit á ok mælti: átþu gersimi þessa? Já, segir Víðförull, eða villtu þiggja? Gjarna, segir karl, ok gef þú dreingja heilaztr! Nú sofa þeir af nótt þessa. Víðförull vaknar um morgininn, ok er Jólfr karl í bruttu. Kerlíng mælti: þat vildi karl minn at þú biðir hans heima. Svå skal þá vera, segir Víðförull. Karl kom heim nær miðdegi, var þeim þá gefinn matr, ok sett borð; karl leggr á borð fyrir sik steinavrvar þriár. Víðförull sæiliz til ok hyggr at, er þar vönduð mjök smíð á. Víðförull mælti: áttu skeyti et góða, karl? Já, segir hann,

væri

væri svå vel at þèr þætti sem þú talar um, þá vil ek þèr gefa. Þetta er vel gefit, karl! en eigi veit ek, at ek þurfa at bera steinavryar eptir mèr. Karl mælti: þat kann vera, Oddr! at þèr dugi þessar avryar, er eigi duga Gusisnautar. Veizt þú at ek heiti Oddr? Já, segir Karl. Þá má vera, segir Oddr, at þú vitir ok þat er nú sagðir þú, ok skal at vísu þiggia avryar, ok kunna þèr mikla þavck fyrir. Oddr lætr þær nú í avryamel sinn. Oddr mælti: hverr ræðr fyrir landi þesso, Karl segir: sá konúngr heitir *Herrauðr*, ok dóttir hans *Silkisif*, en kappar hans Sigurðr ok Siólfr, ráðgiafi kóngs heitir Hárekr, hann er ok fóstri kóngsdóttur. Vel segir (þú um þat), ok muntu vilia fylgia mèr til konúngs, segir Oddr. Já, segir Jólfr, ei mun föruneyti þitt of mikit, þótt ek fylgia þèr; því næst voru þeir búnir, ok fóru síðan, ok framm komu þar, sem Herrauðr konúngr var með Húnaher. Sem þeir voru þar komnir, geingu þeir til konúngs, þar sem hann sat yfir borði, ok dóttir hans á aðra havnd honum, en Hárekr á aðra, kappar hans sátu í avndvegi gagnvart konúngi. Þeir heilsuðu á konúng: hann tók qveðio þeirra, ok spyrr hver sá væri enn mickli koflmaðrinn. Hann qvez Viðförull heita. Konúngr spyrr hvar landa hann sè fæðíngi. Viðförull qvez ecki þat

fá greint "hefi ek verit á mörkum úti leingi ævi minnar; en ek em þvi hèr kominn, at biðia yðr vetrvistar. Konúngr mælti: ertu at nockru íþrótta-maðr? Eigi ferr, þat nær, segir Viðförull. Þat hefi èk mælt, segir konúngr, at ek skyla þeim einum mönnum gefa mat, er nöckut vinnr til. Fiarri er því þó, Herra! segir Oddr, at ek vinna nöckut. Kunna muntu at draga saman dýr, segir konúngr, ef aðrir skióta. Þat má vera, segir Viðförull. Þat skal freista, segir konúngr. Hvar skal ek sitia? segir Viðförull. Sittu þar, segir konúngr, sem mætaz hirð vâr ok gestir. Eptir þat snúa þeir í braut, ok leiðir Viðförull Jólf karl út, ok þackar honum sitt sinni "ok er hèr fíngrgull, er þú skalt færa kerlíngo. Karl þackar vel Oddi. Snýr hann nú á braut, en Oddr í havllina, ok þángat sem honum var til sætis vísat. Þar sátu fyrir tveir hirðmenn, hèt Ingialdr ok Ottar, hann segir at honum var þar til sætis vísat. Já, segia þeir, við viliùm ok giarna við þèr taka, ok skaltu sitia í milli ockr. Þat þiggr hann, festir upp síðan avrvamel *) sinn yfir sik, en trèlurk sinn leggr hann undir fœtr sèr. Síðan legz á sitt knè hvârr þeirra, ok spyria hann tiðenda, en hann kann

*) *Ita sæpe membrana pro* Örvamal *vel* Örvamæli.

þeim segia nær af hverio landi; ecki heyra aðrir menn til tals þeirra. Víðförull er nú þar um hríð, hann ferr þess hvergi, er ei hafi hann belg sinn ok trè. Þeir bióða at kaupa honum klæði góð, ok kastaði hann kofli þessum: hann segir at ecki má svâ vera.

*Dyra-veiði.*

34. Svâ berr nú til at menn skolu fara á dýraveiðar. Ingjaldr mælti þá: nú skolu vèr vakna snemma í morgin. Hvat skal nú at-hafaz, segir Oddr. Ingjaldr mælti: nú ætlar konúngr á dýraveiðar með hirð sína ok kappa. Þeir sofa nú af nóttina. Um morgininn eru þeir bræðr snemma á fótum, ok vilia vekia Víðförul, en hann vaknar með aungu móti. Svâ liðr lángt á morgininn framm, en þeir vilia eigi frá honum gánga. Þar kemr enn at Víðförull vaknar, ok mælti: hvat er nú, mun konúngr búinn vera? Þeir svavruðu báðir: óvænliga hefir þú sofit, er konúngr laungu í bruttu ok allt hans föruneyti. Munu vèr nú aldregi dýr fá, er allt er fellt. Förum nú at því, segir Víðförull. Svâ giöra þeir: Víðförull hefir belg sinn á baki, en fork sinn í hendi, Víðförull mælti: eru þeir allmicklir bogmenn Sjólfr ok Sigurðr? Já, segia þeir, á allar íþróttir eru þeir fyrir avðrum mönnum. Nú koma þeir á fiallit, ok renna dýr hiá þeim, ok benda þeir upp boga sinn Ingjaldr

ok Ottar, ok leita við at skióta, ok hæfa aldri dýr. Víðförull mælti þá: allófimliga fari þit at þessu, liái þit mèr nú bogann, ei má ek nú siá at mèr muni firr fara. Víðförull tekr nú bogann, ok dregr þegar fyrir Odd avrinni, ok rekr í sundr bogann. Ingjaldr mælti; nú hefir þú illa giört, ok er nú avrugt at vèr munum ecki dýr skióta í degi. Víðförull segir: illa er þá, ef ek hefi ykr mein giört. Breiðit nú niðr mavtla yckra, ok mun ek nú sýna ykr hvat í belg mínum er. Þeir qvoðuz þat vilia. Víðförull leysir nú til belgsins ok steypir ór skeytinu. Þeir þickiaz ecki slíkt skeyti sèð hafa; því at þetta var allt gulli reyrt. Oddr tekr nú kaðal einn ok setr nú upp bogann, ok leggr avr á streing. Hann skýtr framm yfir höfuð avllum mönnum, ok at þeim hirti, er hlióp fyrir siálfum konúngi. Þessi hiörtr fèll þegar. Konúngr undrar miög hvaðan þetta skot kom. Siðan skýtr Víðförull avllu sínu skeyti, ok hefir dýr með hverri avr, þar til er sex oro eptir. Þat voru Gusisnautar ok steinavrvar karls. Þeir hlióрu hiá Ingialdr ok Ottarr, ok hlógu at. Þeir Sjólfr ok Sigurðr gátu fá dýr skotið um daginn. Siðan fara menn heim um kveldit, ok er menn koma í sæti sitt; þá eru borin inn skeyti manna, ok lavgð á borð fyrir konúng; skyldi konúngr þá siá hversu mörgum dýrum hverr hefði at skaða orð-

it: hvers manns skeyti var þar markat. Þá ræða þeir bræðr um við Viðförul: Nú skaltu gánga fyrir konúngs borð eptir skeyti þínu. Viðförull mælti: biðum fyrst ok hlýðumz um. Sem skeytið var komit fyrir konúng, þá mælti hann til dóttur sinnar. Sè hèr fagrt skeyti, dottir! þau hèldu nú á skeyti Viðföruls, oc tavluðu um, hverr eiga mundi. Þá mælti Viðförull: nú skoluð þit gánga fyrir konúng, ok segia at þit eigit skeytið. Þeir svöruðu: þat tiár ecki; konúngr veit áðr atgiörfi ockra, þá skolu vèr fara, segir Viðförull. Svâ gera þeir, gánga nú fyrir konúngs borð. Viðförull mælti: Herra, segir hann, skeyti þetta eigu vèr fèlagar. Konúngr leit við honum, ok mælti: þú munt vera mikill bogmaðr. Fiarri er því, herra! en þó hefi ek þessu helzt vanizt, er ek hefi legit úti á mörkum, at skióta dýr eða fuglá til matar mèr. Vera má svâ, segir konúngr, kann ok vera at þú sèr annarr en þú segiz. Eptir þat gánga þeir til sætis síns, ok varðveitir Viðförull avrvar sínar, líða nú stundir.

*Veðiön.*

35. Þat er einn aptan, er konúngr var útgeinginn til svefns, at þeir Sigurðr ok Sjólfr gánga utar fyrir þá brœðr Ingjald ok Ottar; þeir bera þeim horn tvö af hinum sterkazta dryck, ok biðia þá drecka. Þeir taka við, ok drecka af. Litlu síðar komu

þeir með avnnur tvö horn, ok þó at þeir hefði orð fyrir, þá tóku þeir við, ok drucku af. Þá mælti Siólfr: liggr seá ok sefr, koflmaðr, fèlagi yckarr? Já, segia þeir, þat þickir honum vitrligra en drecka sik ófæran. Hvárt mun (svâ) vera, segir Sjólfr, eða mun (hann) vanari at liggia úti á mörkum, ok skióta dýr til matar sèr, en halda samsæti hiá ríkum mönnum, eða mun hann vel syndr vera? Já, segia þeir, bæði mun hann vera vel búinn at þeirri íþrótt ok avðrum. Svâ mun vera, segir Sjólfr, en þar skolum vèr veðia um, hvárt hann mun betr syndr einn eða vit báðir, ok þar skolu vit leggia við hríng þenna, er stendr mörk, en þit tvâ hrínga, er stendr hálfa mörk hvârr, en konúngr ok dóttir hans skolu siá sund vârt, ok konúngsdóttir skal varðveita hríngana. Nú með því at þeir Ingjaldr voru ofdrucknir, þá játtu þeir þessu: eptir þat gánga þeir Sjólfr í brutt en hinir gèngu at sofa. Um morguninn er þeir vakna Ingjaldr ok Ottar, kemr þeim í hug, at ei mun veðiat orðit til vitrliga; taka nú þat ráðs at segia Viðförli hversu komit er. Hann segir: eigi hefir yðr tekiz til forsiáliga; (þar sem) ið vitið eigi hvárt ek fl·t á vatni, en þó at svâ væri um hríð at kalla, þá hefi èk þó svâ fyrirlagt, at ek kom aldrei á sund et næsta. Þeir segia þá: gjörom ei þetta oss at vanda. Þat er makligazt at við gialdim siálfir heimsku

ockarrar, ok hafi þeir hringa ockra. Víðförull segir: eigi nenni èk því, þar sem it þickiz veita mèr tillæti í avllu ok virðíng, at fara eigi til sunz, ok segit svâ konúngi ok dóttur hans. Þeir giöra nú svâ. Konúngr lætr nú blása um borgina, gengr nú til múgr ok margmenni, at siá á þeirra leik. Sem konúngr ok dóttir hans ok allr borgarlýðr var kominn til vatz þess er þar var, þá gánga þeir þrír á sund, ok voru þeir brœðr í sundfavtum, en Víðförull var í kofli sínum, ok þegar þeir koma á diúp, leggiaz þeir báðir at koflmanni, ok færa niðr, ok halda í kafi leingi. Þar kom enn, at þeir lètu hann upp, ok tóko hvíld; þeir leggiaz þá at honum í annat sinn, en hann seiliz þá ímóti þeim sinni henni hvârum, ok rekr báða í kaf, ok heldr niðri svâ leingi at fádæmi þóttu í-vera, áðr en lètti. Þó ætlar hann þeim skamma hvíld, færir þá enn niðr, ok heldr niðri svâ leingi, at eingi ætlaði at lífs mundi þeir upp koma. Þat verðr enn at þeir koma upp allir, stavckr þá blóð or navsum þeim báðum brœðrum; þeir urðu þá ok eigi siálfbiarga til landz. Víðförull flytr þá nú til landz. Síðan legz hann á sund, ok leikr marga leika, ok um síðir geingr hann á land ok fyrir konúng, ok heilsaði á hann, hann tók því vel, ok mælti: þú ert syndr vel, Víðförull! Já, herra! segir hann, yðarr nýt ek at því,

þót ek fenga nú hæra hlut. Vera má svá, segir konúngr. Drífr nú fólk brutt. Konúngr geingr nú ok í havll sína með hirð sinni, ok er nú miög hugsiúkr, hverr þessi maðr mun vera. Kóngsdóttir fær honum nú hríngana, en Viðförull selr þeim Ingjaldi, ok segir at þeir skolu hafa. Konúngr talar nú jafnan við dóttur sína ok við Hárek, ok biðr þau vís verða, hver þessi vetrgestr er: þau kvoðuz þat giarna vilia.

*Enn Version.*

36. Þat er nú eitt kveld, er stund leið, ok konúngr var sofa farinn, þá taka þeir Sjólfr ok Sigurðr horn tvö mikil með hinum sterkazta dryck, ok gánga utar fyrir þá Ingjald, ok biðia þá drecka. Þeir tóku við, ok drucku af; þeir létu taka þeim avnnur tvö; þá mælti Sjólfr: sefr þessi jafnan raumrinn, koflmaðrinn, eða hvárt má hann ecki drecka? Ingjaldr segir: þat er ei, hann er hinn mesti dryckju-maðr. Sjólfr mælti: þar skolu við veðja um, hvárt meira má hann drecka eða við báðir brœðr, skolu við hrínga tvá viðleggja, er stendr mörk hvárr, en þit skolut leggia við havfut yckur, skal dóttir konúngs sitia hiá, ok skýra hvárir vinna. Nú með því at þeir voru ofdrucknir, þá játtu þeir, ok festu þetta sín í milli; eptir þat fóru þeir at sofa. Um morgininn

vakna

vakna þeir Ingjaldr, þickiaz nú vesælir sinna ummæla, þó segia þeir Viðförli til hvar komit var. Viðförull mælti: svâ mikil þarflausa sem mèr þótti í fyrri veðion yckarri, þá þicki mèr nú micklu við-auka, ef þit hafit líf yckat lagt undir ena mestu fólsku, er ofdryckia er; en sakir yckars góðvilia annars til mín ok umsátra þeirra, er oss vilia öllum fyrir-koma, þá mun mèr íllt þickia at siá yckr leidda undir avxi, ef ek má ykr hiálpa; segit svâ konúngsdóttur, at vèr munum reyna dryckiö í aptan, er konúngr er geinginn at sofa. Þeir segia nú konúngsdóttur, ok hon föður sínum. Konúngr mælti: þat er eigi illa sums kostar, þvíat þat er líkazt til, at vèr verðim vísir hverr þessi maðr er, ok skolu þit Hárekr gefa nú at góðan gaum, hvat í-ferr með þeim. Þau qvoðuz mundu freista. Nú líðr dagr siá, ok ferr konúngr at sofa. Kóngsdóttir færir nú sæti sitt, ok þau Hárekr, ok setiaz þau utar á beck iafnær hvârum-tveggium. Þá standa þeir Siólfr ok Sigurðr upp með horn tvö, ok gánga utar fyrir þá sessunauta. Þá mælti Siólfr: þú koflmaðr! þat skal upphaf at avlteiti vârri, at ek særi þik fyrir þann guð er þú trúir á, ef þú átt annat nafn en heita Viðförull, þá seg nú til þess. Já, segir hann, ef þèr

er forvitni á nafni mínu, þá er þat óvant, ek heiti Oddr. Já, segir Siólfr, nú er enn hálfu betr, ok er þèr hèr horn:

| | |
|---|---|
| Oddr! klauftu ei | guðr geisaði, |
| at orrostu | gèck eldr i bæ, |
| (hravck hjálmat lið) | þá er af Vinðum |
| Hamðis skyrtur: | vá sigr konúngr. |

Nú fær Sigurðr honum annat horn, ok qvað þetta:

| | |
|---|---|
| Oddr! vartu eigi | bar ek sár þaðan |
| at egg-roði, | sex ok átta, |
| þá er seggi alvallz | en þú með bygðum |
| svelta lètum: | batt þèr matar. |

Nú gánga þeir at sitia, en Oddr dreckr af hornum; þá ríss Oddr upp, ok fyllir hornin, ok gengr fyrir þá með, ok fær sitt horn hvárum, ok qvað þetta

| | |
|---|---|
| Þit skoluð hlýða | þú lát, Sjólfr! |
| hróðri mínum, | soð-gólfi á, |
| Sjólfr ok Sigurðr | daða vanr |
| sessunautar! | ok dýrs hugar: |
| ykr á ek gjalda | en ek út |
| greypan . . . . | með Akvitanum |
| hróðr harðsnúinn | fjóra menn |
| huglausum tveim. | fjörvi næmðag. |

Nú geingr Oddr at sitia, en þeir drecka af hornum. Síðan gánga þeir fyrir Odd með hórn full, þá qvað Siólfr:

| | |
|---|---|
| Þú hefir, Oddr! | ok bitlínga |
| farit með avlmusum, | borit af borði: |

en ek einn havggvinn skjöld
af Ulfs-fjalli í hendi bark.

Þá selr Sigurðr Oddi horn annat, ok qvað þetta:

Oddr! var þú eigi gerðum harðan
út með Grickjum, hlióm ísarna,
þá er á Serkjum fèllu fyrðar
sverð vâr ruðum í fólk-roði.

Nú gánga þeir at sitia, en Oddr dreckr af hornum; síðan fyllir hann hornin; ok geingr fyrir þá, ok qvað þetta:

Sjólfr! láttu v. meyja En þú látt, Sigurðr!
málmþíng sam. *) í sal meyja,
meðan loga lètum meðan við Bjarma
leika um konúng: bavrðumz tysvar:
unnum harðan háðum hildi
hilding drepinn, heldr snarliga,
ok hans fèlögum en þú seggr í sal
aldr of syniat. svaft und blæjö.

Oddr geingr þá at sitia, en þeir drecka af hornum. Því næst færa þeir Oddi horn tvö, ok qvað Siólfr þetta:

Oddr! vartu ei vèr berserki
á Atals-fjalli, binda knáttum,
þá er fen-loga þá var af kappi
feingit höfðum: kóngs lið drepit.

Sigurðr qvað nú ecki. þeir gánga nú at sitia; en Oddr dreckr af hornum. Ok nú

*) *forte:* mál-þing-samr við meyjar.

geingr hann fyrir þá með tvö horn, ok qvað þetta:

Sjólfr! vartu eigi
þar er sjá knátti
brynior manna
blóði þvegnar:
hrucku oddar
í járnserkjum,
en þú havll konúngs
heldr kannaðir.

Ok Sigurðr! vartu ei
þar er sex ruðum
hábrynjuð skip
fyrir Hólms nesi:
vartu ok eigi
vestr með Skolla,
þá er Einglagram
aldri næmðum.

Oddr setz nú niðr, en þeir drecka af hornum, ok síðan fylla þeir horn, ok færa honum, ok verðr nú ecki qveðit; þeir setiaz niðr, en Oddr dreckr af hornum, ok fyllir þeim avnnur, ok sèr nú at þeir gerast miög drucknir, ok nú færir hann þeim horn, ok qveðr þetta.

Sjólfr! vartu ei
þar er sverð hvavss
á hjarli . . . .
fyrir Hlèseyjo:
en þú hallaðiz
heima á milli
kyn-mála-samr
kálfs ok þýjar.

er á Sælund feldag
brœðr bavlharða
Brand ok Agnar,
Asmund, Ingjald,
Alfr var enn fimti:
en þú heima látt
í havll konúngs
skravk-mála-samr,

Ok Sigurðr vartu eigi skauð hernúmin!

Þá setz Oddr, en þeir drecka af hornum, ok enn fylla þeir horn ok færa Oddi, ok qveða ecki; því at af þeim tók málit, er þeir gjöraz úfærir. Oddr dreckr af horn-

um, en þeir sitia, ok nú fyllir Oddr hornin, ok færir þeim, ok qveðr þetta:

Sjólfr! vartu eigi
suðr á skíðr;
þar konúngar
knídu hjálma:
óðum dreyra,
svâ at í avkla tók,
víg vakta èk,
vartu eigi þar!

Ok Sigurðr! vartu eigi
þar í Svía-skerium,
þá er Hálfdani
heiptir guldum:
urðu randir
róg-micklaðra
sverðum skornar,
en hann sjálfr drepinn.

Nú sezt Oddr niðr, en þeir drecka af hornum, ok nú færa þeir Oddi horn, ok geisar nú fast í þeim, ok grenia miök. Oddr dreckr þegar af, ok fyllir þeim avnnur oc færir, ok qvað þetta:

Hvàr voru þit þá,
vesælar snytur!
er vèr hèldum aski
í Elvar-sund:
teitir ok reifir
at Trönu-vâgum?
þar lá Avgmundr
Eyþjófsbani,
trauðaztr flugar

á tveim skipum.
þar lèto vèr
lindi bavrðu
havrðo grjóti
hvavssum sverðum:
þrír lifðum vèr,
en þeir níu:
hrókr hernuminn
hví þegir nú?

Oddr geingr nú til sætis, en þeir drecka af hornum, ok færa Oddi horn tvö, ok þó siá allir er inni voru, at þeir voru farnir. Oddr dreckr af hornum þegar, ok fyllir enn ok færir þeim, ok qvað þetta:

Sjolfr! vartu eigi
Sámseyjo í,
þar er við Hjörvarð
havggum skiptum:
tveir voru við,
en þeir tólf saman;
sigr hafða ek,
saztu kyrr meðan.
Geck ek um Gautland.
í grimmum hug

sjö dægr saman
áðr ek Sævið fyndag:
knátta ek þeirra,
áðr ek þaðan fœra,
fimtán liða
fjörvi ráða.
En þú gjögraðir,
gárúngr vesæll!
sið of avpnum
til sængr þýjar.

þá var æpt at um höllina alla, en Oddr geingr til sætis sins. þeir drúcku af hornum enn; þá mælti kóngsdóttir bað menn hlýða skemtan, þá er hiá væri. Siólfr stendr enn upp ok fyllir hornin ok færir Oddi, en Sigurðr var nú farinn. Oddr tekr við hornunum, ok dreckr af þegar; siðan byrlar hann í hornin, ok geingr fyrir þá Siólf, ok qvað:

þit munuð hvergi
hæfir þickia,
Siólfr ok Sigurðr!
í sveit konúngs:
ef ek Hiálmars getk
ens hugum stóra,
þess er snarligazt
sverði beitti.
Gèck skarpr þórðr
fyrir skiöldu framm
hvargi er orrostu

eiga skyldum:
hann lèt Hálfdan
hníga at velli,
fræknan stilli
ok hans fylgiara.
Voru við Asmundr
opt í bernsku
fóstbrœðr saman
báðir litnir:
bar fyrir stilli
staung darraðar,

þars konúngar
kappi deilldu.
Hefi ek á Saxa
ok á Svía heriat,
Frísi ok Fracka
ok á Flæmíngia,
Ira ok Engla
oc endr Skota,
þeim hefi ek öllum
óþarfr verit.
Nú hefi ek dýra
dreingi talða,
þá er forðom
mèr fylgðu úti:
munu eingir
verða síðan
frægri fyrðar
í fólk-roði.
Nú hefi ek orar
iðnir talðar,
þær er forðom
vèr framðar höfðum
opt geingum vèr
til avndvegis
sigri fegnir;
látum Siólf mæla!

Siólfr tók við horni þesso, ok fèll þá af út dauð-druckinn ok þeir Sigurðr báðir, en dryckr fór niðr. Oddr gèck þá til sætis sins, ok drack um stund ok þóttuz flestir menn eigi miög finna á hann. Kóngsdóttir gèck þá brátt í braut, ok Hárekr með henni, en þau havfðu þó eigi ecki athafz um kveldit; því at allan þeirra queðskap ok sameign havfðu þau ristið á speldi.

*Oddr segir til sín.*

39. Sem konúngr var klæddr um morgininn, kom dóttir hans til hans, ok þau Hárekr, ok tèþo konúngi allt þat er í hafði farit, um nóttina þóttuz þau nú avll saman giörla skilja hverr þessi maðr mundi vera, ok þetta var þrekvirki Avrvar-Odds, en einskis mannz annars; því at þau

havfðu þeirra opt heyrt getið áðr. Nú leið dagr sá framan til dryckjomáls, ok sem konúngr var komin í sæti, ok avll hirðin, sendi konúngr eptir Víðförli, ok bað hann koma fyrir borð sitt. Sem hann kom þar, mælti konúngr: hitt er nú til, Avrvar-oddr! ef þú ert sá sem vèr hyggjum, at kasta koflinum ok dyliaz eigi leingr; ærit leingi höfum vèr þik sett með knavpum, ok kennum vèr þèr mikil völd af því. Svâ skal nú vera, herra! segir Oddr, sem þèr vilið. Eptir (þat) kastaði Oddr af sèr koflinum, var hann undir í skallatz-kyrtli hlaðbúnum, ok knýtt gullhlaði um enni sèr, digran gullhríng á hendi sèr, hárit silki bleikt, oc fèll allt með lockum, oc var maðrinn enn avldurmannligzti. Konúngr mælti: stíg upp, Oddr! í hásætið hjá oss, ok eig við oss át ok dryckjö. Hafið mickla þavck, herra! fyrir gott boð, segir Oddr, en nær verðum vèr at sitja ok þeir sessunautar mínir, sem í vetr hafa setið hjá mèr; því at ei samir mèr at þeir siti hiá knavpum, en ek setiumz í hásæti. Konúngr mælti: ek kan þar gott ráð til: Hárekr skal sitia þèr et næsta, þá þeir Ingialdr ok Ottar; skolu þeir ok þat starf fá, at þeir skolu vera þèr til þiónostu davgum sem nóttum. Vel mæli þèr, herra! Nú var svâ skipat, sem konúngr qvað á. Giörðiz nú brátt enn mesti

mesti fèlagskapr med Oddi ok Háreki; Ingialdr ok Ottar þiónuðu honum ok í avllu því er þeir máttu; konúngr metr nú ok Odd svâ mikils at éngi komz til iafns um þat. Svâ líðr nú framm þessi vetr. En er hallaði vetri, tavluðuz þeir við Oddr ok Hárekr: spurði Hárekr hvat Oddr vill athafaz, hann qvez eigi ráðinn í því; "mèr þickiz víðaz dauflikt eptir mannamissi þann, er ek hefi feingit. Vårkunn er þat, segir Hárekr; þó *verðr maðr eptir mann lifa*, eðr eru þèr eigi qvânfaung í hug? Ek veit ei þat, segir Oddr, mèr þickir ei afvænt at ek þickia gamall, en ek vil ei kvângaz til þess at stocka enn lágt. Mèr er slíks vân, segir Hårekr, eðr villtu þik í nöckura hættu leggia, at fá kóngsdóttur, fóstru mína? Oddr spurði hvernig sú hætta væri? Hárekr segir: konúngr heitir Alfr, er ræðr fyrir landi því er Bjálkaland heitir, því er hann kallaðr Alfr Bjálki, hann á konu þá, ef konu skal kalla, er Gyða heitir, son þeirra heitir Viðgrípr; þau eru fiölkunnig, svâ at þau líma saman stoð ok stiörnur. Þar á konúngr vårr skatt af landi þessu, ok hefir leingi niðri legit; þat hefir konúngr vârr mælt, at þeim manni muni hann gipta dóttur sína, er skattgildir landit undir hann í annat sinn. Oddr mælti: forvitnaz-tu við konúng ok dóttur

hans, ef þau unni mèr þessa kostar. Hárekr qvað svâ vera skyldu. Nöckuru síðar kom Hárekr at máli við Odd, ok mælti: þat er ætlan mín, at þú megir leita þessa ráðs, er við töluðum næstum. Oddr mælti: samt er mèr í hug nú ok fyrri. Eptir þat vekr Oddr bónorð sitt við konúng, ok þó at þar væri fleira umtalað, þá lýkz með því, at Oddr festir konúngsdóttur, en hann heitr *) at skattgilda Biálkaland. Þessa vísu qvað Oddr hèr um. Var mèr Hárekr *(o. s. fr. sjá æfidr.* 69.*)*

38. Litlu síðar safnar konúngr liði handa Oddi, ok eptir þat búa þeir herinn, ok sem Oddr er búinn, tók hann orlof, ok mælti konúngr: hèr er giavf, Oddr! er ek vil þèr gefa, þat er ein skialdmær: er hon avrugg í bardaga, ok hefir mèr iafnan vel fylkt. Oddr segir: sialdan var ek þar er (ek hafða) konur fyrir mèr, ok svâ mun enn vera; en af því at þèr gerit fyrir góðu, þá skal ek þiggia. Nú var svâ, ok fór hon með Oddi. Svâ bar til einn dag at Oddr fór með her sinn þar sem mýrótt var, ok varð fen nöckuð fyrir þeim. Oddr skapaði skeið, ok hlióp yfir fenit. Skialdmærin skapaði skeið ok ætlaði at hlaupa eptir honum, en er hon kom á backann varð henni bilt. Oddr mælti: hvi fór nú svo?

*) *Alias* heitir *contra regulam* 2:*dæ conjugationis.*

Skïaldmær segir: ek skal betr hlaupa í annat sinn. Hon ræðr til í annnat sinn, ok fór á savmu leið. Mèr sýniz, segir Oddr, sem þú þorir eigi. Hon ræðr til enn þriðia sinn, ok fór savmu leið. Oddr hlióp þá aptr yfir fenit, ok þrífr til hennar, ok steypir henni út í fenit, svâ at hon kom aldrei upp, ok mælti þá: far þú nú þar er þik hafi avll travll, heldr en ek eiga sigr minn undir þèr. Oddr hèlt þá herinum í Biálkaland, en þeir feðgar fá niósn af, draga þeir þá lið saman, (ok) búaz til orrostu. Þeir senda menn til Oddz, ok hasla honum völl til bardagans.

Eptir þat komu þeir þar hvârirtveggiu; Alfr hafði lið micklu meira, tókz þar enn hardazti bardagi. Oddr var í öndverðri fylkingu sinni, ok sá menn sína falla sem storð, honum þótti orrosta siá fara miök undarliga; hann sá ok hvergi Alf Biálka nè Viðgríp son hans. Sá maðr var með Oddi er Haki hèt, hann var þiónustumaðr kóngsdóttur, ok hafði hon fengit hann til fylgðar við Odd. Þat var mælt at hann sæi iafnlángt nefi sèr, ei leingra. Oddr kallaði Haka til sín, ok mælti: hveriu gegnir, er menn mínir falla svâ sem storð, ek sè eigi orrostu þessa svâ hættliga. Haki segir: sèr þú eigi hvar þau fara þriú saman Gyða ok Alfr ok Viðgrípr son þeirra? Já, segir Oddr, víst sè ek þau eigi. Haki mælti: sè þú undir havnd mèr þá! Oddr gerir

uú svá, ok þegar sá hann hvar þau fóru, ok fór Gyða fyrir, ok veifði höndunum, ok hafði blóðgar trefr, ok hvern er hon sló með, fèll hverr dauðr niðr, allt þat er í nánd þeim fló, griót eðr avrvar eðr avnnur vápn, þá brá hon við lófunum, berum, ok beit aldrei á: þeir Alfr ok Viðgrípr hiuggu til beggia handa; þau voru þá í miðri fylkíngu Oddz. Hann verðr óðr við þettá, ok hlióp frá Haka, ok ætlaði at þeim; ok þegar þeir voru skildir, þá sá Oddr þau eigi. Oddr sneri þá aptr til Haka, ok mælti: Nú skaltu hlífa þèr með skildi þínum, en ek mun leita at skeyti mínu, ok svá gjöra þeir. Oddr tekr nú Gusisnauta, ok skýtr at Gyðu; hon heyrði hvininn, ok brá við lófanum, ok beit ei heldr en á hellu. Oddr skaut avllum Gusisnautum, ok þær fèllu allar í gravs. Oddr mælti: framkomit mun nú þat sem Jólfr spáði, at farnir munu Gusisnautar, mun nú ráð at reyna steinavrvar hans. Oddr tekr nú steinavrina, ok skýtr undir havnd Haka ok at Gyðu; hon heyrir hvininn ok bregðr við lófanum, avrin flýgr ígegnum lófann ok aptr í augat ok út um hnackann. Oddr skýtr annari, ok fór savmu leið. Oddr skaut þá enni þriðiu, ok kom á Gyðu miðia, ok fèll hon þegar, ok er hon var dauð, þá sá Oddr þá feðga, en er Viðgrípr sá fall móður sinnar, þá hlióp hann framm ok barð-

iz alldiarſliga. Oddr hleypr þá móti honum, ok áttu þeir þá allharða samkvâmu, ok lauk með því, at Viðgrípr ſèll. Alſr biálki flýði þá til borgarinnar, var þá ok myrkt af nótt, ok skilði þá með þeim.

39. Um morgininn eptir lèt Oddr kanna valinn, sá þeir þá at þar var allt fullt af blótskap hiá borginni. Lèt Oddr þá brénna avll hoſin ok allan blótskap. Ok sneri þá til borgarinnar með avllu liði sínu, en Alſr biálki varði hliðit, ok þá qvað hann:

Hverr veldr eldi?
hverr orrostu?
hverr iarls magni
eggium beitir?
hof sviðnuðu
havrgar brunnu,
hverr rauð eggiar
á Yngva nið?

Nú svarar Oddr ok qvað þetta:

Oddr brendi hof,
ok havrga braut
ok trègoðum
týndi þínum:
giörðu þau ecki
gó s í heimi,
er þau or eldi
avsla nè máttu.

Þá qvað Alfr:

Þess hlægiumz ek,
at hefir feingna
Freys reiði þú
fári blandna:
hiálpi æsir
ok ásynior
giörf-avll regin
gyðium sínum!
eða hverr eggiaði þik
austan híngat
fræknan ſella
ſláráðan *).

*) *Mendosum hoc sine dubio, neqve mihi in promtu medela, nisi forte melius esset:*

| | |
|---|---|
| Hirði èk ei, | skoluð eigi ærr |
| þótt heitir þú, | skratta blóta. |
| fárgiarnt höfuð! | Veit ek í eldi |
| Freys reiði mèr, | ásu brenna, |
| illt er at eiga þræl | tröll eigi þik! |
| at einka vin, | trúi ek guði einum. |

Skal nú ok reyna, segir Oddr, hvårt hamíngian styrkir mik. Þreif Oddr þá trè eitt mikit, svâ at furða mátti at-þickia, ok hlióp þá at borgar-hliðinu: færði hann þá svâ hart trèit á hurðina at þegar gèck í sundr. Alfr biálki hió þá til Oddz, en sverðit beit ecki, þar sem skyrta hans var fyrir. Oddr brâ þá ok sverðinu, ok hió til Alfs, ok beit ei heldr en hann hravcti tálknskiði: hiöggu þeir þá báðir hart ok tiðum, ok varð hvârgi sárr. Oddr þreif þá eiki-kylfu eina, ok sló til Biálka á hiálminn svâ hart at þegar brotnaði hiálmrinn en Alfr fèll í úvit. Oddr lèt þá fara hvert at avðru, þar til er Alfr biálki var dauðr. Hèr um qvað Oddr þetta: Færðum seggi *(o. s. fr. sjá æfidr. 68.)*

Eptir þetta lætr Oddr alla menn gánga til griða í borginni, ok síðan skattgildir hann landit undir Herrauð konúng, oc tók þar svâ mikit fè, at ei mátti tavl' á-

flárá*ð*an fella
fræknan kon.
*scil. filium meum.*

koma í allzkonar gersimum. Oddr setr nú yfir landit Ingiald ok Ottar, ok lætr gefa þeim iarlsnavfn. Síðan fór Oddr heim í Húnaland, ok varð hann víðfrægr af ferð þessi. Litlu síðr tekr Herrauðr konúngr sótt ok andaz, var orpinn haugr mikill eptir hann. Því næst lætr Oddr efna til veizlu mikillar í Húnalandi, er þá druckit allt saman ervi eptir Herrauð konúng ok bruðlaup Oddz; tekr hann þá við landzstiórn, ok iáta allir honum hlýðni, sezt Oddr nú um kyrt, þau Silkisif konúngsdóttir áttu mart barna.

*Um Odd.*

40. Þá er aldri Oddz leið miög eptir, því sem vavlvan hafði fyrir-spáð, var þat einn tíma at Oddr talaði við drottníngu þessum orðum: favr er sú fyrir hendi, er ek vil fara. Hvert vill þú fara? segir hon. Oddr mælti: ek ætla norðr í Noreg; vil ek vita hverir eyna Hrafnistu hafa at varðveita eða aðrar eigur várar, frænda. Drottníng segir: Svá þætti mèr sem þú mættir fullvel una hèr með oss ríki í Húnalandi, ok mavrg skattlavnd avnnur; þætti mèr sem þú þurftir eigi at girnast á eyiarskika þann er vettugis er verðr. Já, segir Oddr, svá er þat, at eyin er lítils verð; þó vil ek ráða hverr hafa skal, mun ok ecki tióa at letia mik; því at ek er ráðinn til ferðarinnar, en ek mun skamma hríð í bruttu vera. Oddr

býr tvö skip ok hundrað manna á hvâru, ok nú verðr ecki sagt frá ferð hans, fyrr en hann kom við Hrafnisto. Þat var tíðenda í eynni, at þar hafði komit vestan af Irlandi Ragnhildr dóttir Oddz, hafði hon tekit undir sik eyna ok allar eigur favður síns. Hon hafði giptz gavfgum manni, er Hákon hèt, ok voru þau avnduð bæði, son áttu þau eptir, er Víðkuðr hèt, ok rèð hann nú Hrafnisto. Sem Víðkuðr vissi at Oddr frændi hans var þar kominn, gjörði hann veizlu mickla ímóti honum, ok bauð til enum ríkuztum mönnum um Naumdælafylki. Oddr sótti þessa veizlu með avllu liði sínu. Allir menn undruðuz Odd miög, þar sem þeir vissu aldr hans mycklu meira en annarra manna, ok var hann enn hraustr ok herfær, myckla var hann ok meiri en aðrir menn þeir er þá voru, ok grár allr fyrir hærum. Oddr dvalðiz þar hálfan mánuð, oc voru þar allir hlutir feingnir í vald hans, þeir sem hans frændr havfðu átt, en hann gaf þat hverium sem áðr hafði. Eptir þat bíz Oddr norðan, ok var leiddr út með ágætligum giöfum. Oddr siglir nú norðan, þar til er hann kom fyrir Berurjóðr; þá mælti Oddr: Svâ mikil forvitni er mèr á at siá bœ fóstra míns, at vèr verðum at leggia seglin, ok gánga á land, svâ giörðu þeir. Oddr ok menn hans geingu nú

þáng-

þángat sem bœrinn var, ok segir Oddr þeim hvar hvergi hús havfðu staðit. Þar var þá lítill bœr. Oddr fylgði þeim ok þartil, er þeir Ásmundr havfðu átt skotbacka, ok (sagði þeim) hverr munr með þeim var um skot. Oddr fylgði þeim ok þar til, er þeir havfðu á sund farit, ok sagði þeim þar allt til, þar var þá viða blásit ok javrvi, er þá voru hliðir fagrar. Oddr mælti þá: förum leið vora," ecki er hèr at horfa á, rennt mun þeim óskavpum at ek brenna á Berurjóðri. Eptir þat sneru þeir ofan, ok urðu fyrir þeim smá hrískiörr ok blástr í milli, ok er þeir geingu snúðict, drap Oddr fæti, ok laut áframm. Hann mælti: Hvat illt var þat, er ek drap við mínum fæti? Hann skaraði til spiótskaptinu, ok sá þeir allir, at hrosshauss var, ok þegar hravckviz ormrinn undan ok at Oddi, ok hió þegar á fót honum fyrir ofan avkla, ok þar laust þegar verk í með eitri, ok blès allan fótinn ok lærit. Svá tekr Odd mein þetta fast, at þeir verða at leiða hann ofan til strandar, ok er hann kom þar, mælti hann: nú skolu þèr fara ok hèggva mèr steinþró, en sumir skolu þèr sitia hiá mèr, ok rísta eptir qvæði, því er ek vil yrkia um athafnir mínar ok ævi. Eptir þat tekr hann at yrkia qvæði, en þeir rísta eptir á speldi, en svá leið at Oddi, sem upp leið á qvæð-

16.

it. Þessa vísu qvað Oddr síðarst. Fiölð er at segia, (*o. s. fr. sjá æfidr 70, 71*).

Ok eptir þat deyr Oddr, ok er þat fornra manna ok fróðra frásögn, at hann þicki einn verit hafa mest-háttar maðr iafnborinna manna í fornum sið. Hann hafði áðr sagt þat mönnum sínum, at þeir skyldu leggia hann í steinþró, draga síðan at við ok brenna svâ líkam hans; því at hann vildi eigi at heiðnir menn fari með líkam hans, en steinþró kvað hann þar vera skyldu eptir til sýnis, ok er þat sögn manna at hon sé siö álna laung, ok svâ hafi Oddr verit.

41. Eptir þessi tíðendi fára menn Oddz austr heimleiðiss: sögðu Silkisif drottníngu þessi tíðendi ok qveðio Oddz; hon qvað sér slíkra tíðenda vân. Nú tók hon ríki undir sik í Húnalandi með sonum sínum, ok kom mart ágætra manna frá þeim sonum Oddz. Afqvæmi Ragnhildar hefir víða dreifz um Hálogaland; þaðan var kominn Viðkunnr i Biarkey. Þat er fróðra manna sögn at Oddr hafi lifat þrjú hundruð vetra tiræð, hann var fæddr fimmtíu vetra fyrr en Haraldr enn hárfagri; en hann lètz á davgum Olafs konúngs Tryggvasonar, þá er hann hafði ráðit þrjá vetr Noregi. Þat sumar var skírðr hinn helgi Olafr konúngr *Anno ab incarnatione domini* níu hundruð ára ok níutígir ok átta vetr. Vetri síðarr var

kristnað Hálogaland. Lýkr hèr Avrvar-Oddz savgu.

## 42. *Æfidrápa Örvaroddz* *).

1. Hlýði seggir!
en ek segja mun
víg-snjöllum frá
vinum mínum:
seint mun ek dyljast,
sè ek ei tjáir
skógs skæ.stöfum 1)
við sköpum gjöra.

2. Var mèr fóstur tekit
at föður ráði,
brátt vöndunst því
á Beru-rjóðri:
var mèr ecki
vant til sælu,
þeirrar er Ingjaldr
átti kosti 2).

3. Vóxum báðir
á Berurjóðri
Asmundr ok ek
upp í bernsku:
skófum skeyti,
skip smíðuðum,
gjörðum við örvar
ockr at gamni.

4. Sagði mèr völva
sannar raunir,
en ek vilda því
ecki hlýða:
gat ek fyrir úngum
Ingjalds syni,
at ek feðr-túna
fýstunst vitja.

5. Búinn lèzt Asmùndr
opt meðan lifði
málm-þíngs-vanr
mèr at fylgja:
sagða èk karli,
at ek koma mundi
aptr aldreigi,
nú er ek eiðrofi!

6. Lètum beiti
á brim fara,
stóð harð dreginn
húnum fjærri: 3)

*) *Carmen hoc, in membrana omissum, exceptis versibus qvibusdam autori occasione data supra allegatis, ex. codd. chart. transcripsi.* 1) *al.* stafr. 2) *Sic ego pro* kostar. 3) *Sic Adlerst.*, *al.* þat er báran nærri.

komum at eyju
utan brattri,
þar er Grímr (ráð)
fyrir garði átti

7. Sá ek bliðliga
ey 4) til bæjar,
komu bergsagnir
mèr báðar fagna;
víst mátta èk
með vinum mínum
gulli skipta
ok gaman-málum,

8. Varð ek at vori
víst at fara,
bryn-þíngs-boðar!
Bjarma at sækja:
siðan qvadda èk
Sigurð ok Guðmund;
vilda èk með frændum
til farar ráðast.

9. Vorum horskir
á herskipum
frændr mínir tveir
at for-ráðum:
vildu hásetar
hoskir eignast

góts þat er áttu
gamlir Finnar 5).

10. Vær kaupskipi
komum heilu,
þar er Bjarmar
byggðir áttu:
eyddum eldi
eignir þeirra,
uns at röskr var
ráðmaðr tekinn.

11. Hann lèzt seggjum
segja kunna,
hvar til hodda
var hægt at ráða:
hann bað oss gánga
götu leingra,
ef vèr vildum fè
fleira eiga.

12. Rèðu borgarmenn
brátt at verja
haug hermönnum
ok hamalt fylkja:
lètum þegna,
áðr þaðan fórum,
ofmarga mjög
öndu týna.

4) ɔ: *semper v. non;* eid *näset Adl.* 5) tak þad, e. a. Tyrfi Finnar *Adl.*, *qvod eqvidem non intelligo*, *nisi forte pro* tök *vel* tól þau - - Ter-finnar *accipi debet.*

13. Rèð ek skunda
til skipa ofan,
þá eð flótti 6) var
á fen rekinn:
mistum bæði
báts ok knarrar
ok ýta, er vær
ofan komum.

14. Skjótt namk kynda
í skógi þraungvum
eld brennandi
uppá landit
svá at við lopti
lètum leika
heitan hripuð
í hráum viði 7).

15. Sáum skjótliga
at skunduðu' at landi
skeiðar vegligar
ok skrautligir liðar
fegnir urðu
er fyrir voru
frændr mínir,
er mik finna gjörðu.

16. Lètu skeika
at sköpuðu
dreingir snotrir
í drífu veðri
sýndist seggjum,
sandr var á þiljum,
landvon liðin,
lá ek ei þar til 8).

17. Komum at eyju
utan brattri
sumar síðla,
segl var þá liðit 9):
gjörðu fyrðar
flestir allir 10)
skipum til hlunns
skjótt at ráða.

18. Slóum tjöldum,
en sumir fóru
björn at veiða,
þeir við boga kunnu:
rèðum í eyju
upp at kinda
bál brenniligt,
Bessi stóð fyrir.

19. Qváðust fjallbúar
flytja mundu
oss úr eyju,
nema utan færum:
þótti ei reckum
rómu at heyja

6) *Sic ego pro* floti. 7) *Sic Adlerst.* 8) *forte* lagðag ecki til. 9) rofit *Adl.* 10) *melius forte* allra.

háligr sá er var
Hrumnersskölddúngr 11).
20. Voguðum ecki
vist eyjar til,
vopns víglegir
er viðir komu:
hlóðu bragnar
fyrir bjarg framan
vegg sterkligan,
var ek at því.
21. Rèð ek at gánga
með Gusisnauta
beggja á milli
bjargs ok eyjar 12)
laust ek í auga
einu flagði 13)
en í brjóst framan
bjarga-Freygju.
22. þá fèck ek heiti,
þatz ek hafa vilda,
er mik úr fjöllum
flögð kölluðu
qvâðust Oddi
Örvar vilja
byr bráðliga
í braut gefa 14).
23. Búnir lètunst
í burtu þaðan
brátt úr eyju,
þegar byr feingi:
heilir komunst
heim úr þeirri,
gjörðum við fagna
frændum, hollvinum.
24. Vorum allir
vetur þann saman,
gulli gladdir
ok gaman-málum:
dróu fyrðar,
er frostum lètti,
skrautligar heldr
skeiðar at vâgi.
25. Sigldum síðan
suður med landi
tállaust skipum
tveimr ok einu:

11) þóttist ei r. r. a. h. hógligr sá er var Hrum skollúnga *Adl.; forte:* þótti -- hógligt (hægt) þar er var Hrumnir skjöldúngr *vel* hógligr sá er var hrumr sk. 12) *Sic. Adlerstam* eyju *Cod.* 17. *fol.* eisu *Membr. cap.* 15. 13) einum þussi *cod.* 17. 14) *Membr. cap.* 15.

væntum feingjar,
þar er fyrir vissum;
ok Elvarsker
öll 15) könnuðum.

26. Fundum síðan
fyrir á sundi
þegna nýta
Þórð ok Hjálmar:
frágu fyrðar,
þeir er fyrir voru, (víg
hvert vær vildum á firði
eþa' á fróni hafa? 16)

27. Báru reckar
ráð sín saman,
þótti ei fyrðum
fè-von mikil:
kjöru Háleygjar
kostinn vildra,
rèðum leggja
lag vort saman.

28. Hèldum allir
úr höfn skipum,
þegar fullhugar
feingjar væntu:
hræddunst ecki,
meðan höfðíngjar
heilir rèðu
fyrir herskipum.

29. Vorum reiðir,
er rand-berendr
hoska hittum
fyrir Hólms-nesi:
rèðum síðan
öllum eignum
snarpra dreingja
ok sex skipum.

30. Vorum allir
vestr med Skolla,
þar at landi sat
lýða drottin:
báru bragnar
blóðgar undir
sverðum meiddir,
en vèr sigur þaðan.

31. Höfðu jarls-niðjar
útnes roðit
rand-þíngs-vanir
sem refum hundar 17):

15) skjótt *Adl.* 16) *Sic ex conjectura restituere conatus sum locum satis difficilem:* hvört vær vildum frið á fróni hafa *Cod.* 17. *qvod contextui repugnat* hvört vèr vildum frið eða á fjör halda *Adl. qvod sensu caret* 17) refar hundum *Adl.*

unnum við Hjálmar,
er hinnig fórum,
eldi ok osla
eytt lángskipum.

32. Frètti Guðmundr,
ef ek fara vilda
heim at hausti
ok honum fylgja:
sagði èk svâ,
at ek sjá vilda
norðr aldreigi
til niðja minna.

33. Mæltu allir mót
með sèr at sumri
austr í Elfi
til útfarar:
vildi Hjálmar
enn hug-stóri
sveit mína með sèr
suður hafa.

34. Fóru teitir
tveggja vegna
bryn-þíngs-boðar
þegar byrir 18) feingust
sigldum þegar
Svíþjóðu til.

sóktum Inga konúng
heim til Uppsala.

35. Mèr gaf Hjálmar
enn hug-stóri
fimm bústaði
á fold saman:
unda èk auði
meðan mik allir
hríngum gæddu
en heils friðar.

36. Fundust allir
á fegins dægri
svenskir seggir
ok Sigurðr vestan:
ræntu ýtar
eyjar-skeggi 19)
auði öllum,
en þeir elds biðu.

37. Lètum vestr þaðan
víðirs fáka, (venda
Yrlands á fit
eldar brenna:
höfðu þaðan,
er þángat komum,
dreingir ok drósir
drifit úr húsum

38. Fann

18) *Sic Adlerst.* byri *Cod.* 17. 19) *Ita mutavi* skeggjar *Adl.* stundum *Cod.* 17.

38. Fann ek at við
vagns slóð-götu
áðr ek streingvölum
striðum mættag:
munda èk Asmund
auði mínum
aptur úðáinn
öllum kaupa 20).

39. Sá ek um síðir
hvar samnan fóru
karlar röskvir
ok kóngr þeirra;
þá lèt ek fjóra
frændr Alvarar
egg-leiks-hvata
öndu týna.

40. Rèð mik úr vagni
víf at qveðja,
ok haddi Sifjar
mèr hètu góðum:
bað mik snót komá
sumar eð næsta,
lèzt þá at launum
leita mundi.

41. Var-a sem brynja
eda bláir hríngar
ísköld um mik
allan 21) fèlli:
þá er of síður
silki-skyrta
gulli saumuð
gèck fast ofan.

42. Fórum vestan
feingjar vitja,
svá at bragnar mèr
bleyði kendu:
undur á skíði
skatnar fundu,
bræðr bölharða,
at bana urðu 22).

43. Sóti ok Hálfdan
í Svía-skerjum
mörgum manni
at meini urðu:
unnum þeirra,
áðr þaðan fórum,
hálft hundrat skipa
hroðit með stöfnum.

44. Fundum þegna,
er þaðan fórum
teita ok slitna 23)
í Trönu-vogum:

17.

20) *Membr. cap.* 22. 21) aðan *Membr cap.* 23. 22) *Ita qvoqve Adl. forte:* er at bana urðum. 23) *Sic etiam Adl. forte:* reisa.

var ei Ögmundi
auð-hægt tekit,
komunst vær þrír það-
en þeir níu. (an,
45. Mátta èk banorðe
fyrir brögnum hrósa
snotra seggja,
er til sjóar komu:
höfðu við Hjálmar
haldit illa,
þá er Glam stóð
i gegnum spjör 24).
46. Fórum heim það-
hoskir þegnar, (an
en haug þórði
háfan urpum:
maðr eingi þorði
móti oss mæla,
var oss þá einkis
vant þess góða. (ar
47. Vorum við Hjálm-
hvert dægur glaðir,
meðan herskipum
heilir rèðum:
uns í Sámseyjo
seggi fundum,
þá er ben-logum
bregða kunnu.
48. Lètum þá falla
und fætr ara
týra-lausa
tólf berserki:
þá varð ek skiljast
á skapadægri
við þann hinn mesta
minn fulltrúa.
49. Hafða èk eigi
á aldri mínum
havfut hraustara
í hernaði 25) fundit:
bar ek mèr á herðum
Hjálmar dauðan,
ok til Sigtúna
síðan færði.
50. Lèt ek eigi þess
lángt at bíða,
er ek Sæmundi
at sjónum voru: 26)
unnu skatnar
skip mín hroðin,
en ek sjálfr þaðan
sunds kostaði.
51. Gèck ek um Gaut-
í grimmum hug (land

24) *Ita mutavi* spor. 25) hvörgi *Adl.* 26) *Ita quoqve Adl. forte:* er þeir Sæviðr.

sex dægur í samt
áður Sæmund fynda:
lèt ek hans lýði
fjörvi svipta
sex ok níu
með sjálfum grami 27).
52. Sigldum síðan
suðr lángt í haf,
áðr ek grunnsæli
grimmu mættag:
svá at einnsaman,
en öllu firðr
gumna sinni
gèck ek annan veg 28).
53. Þar kom ek ut-
er Aqvitana (arst,
bragna kindir
borgum rèðu:
þar lèt ek fjóra
fallna liggja
hrausta dreingi,
núem ek hèr kominn 29).
54. Þat var fyrri
at ek til-fór,
at senda öllum
sinnum 30) minum:
varð ek svá feginn
fundi þeirra,
sem húngraðr
haukr eptir bráðum.
55. Brögnum þrimr
buðu þaðra
margir síðan
metorð skatnar:
en ek þat þeigi
þiggja vildi,
urðu mínir báðir þar
bræður eptir.
56. Rèð ek skunda
frá skatna liði,
unz ek hitta breiða
borg Jórsala:
rèð ek þar allr
í at fara,
kunna ek þá
Kristi að þjóna.
57. Veit ek at föss
um-falla lèt
Jórdan um mik
fyrir utan Gricki 31):

27) *conf. carm. amœbæum cap.* 36. *pag.* 110.
28) *Membr. cap.* 31. 29) *Membr. cap.* 30.
30) *Ita mutavi* synum *Adl.* niðjum *cod.* 17. 31) *Ita ex conj. restitui hunc locum*

hèlt þó sem áðr,
hver sem vissi,
ýtur-gjör skyrta
öllum kostum 32).

58. Mætta èk gammi
gljúfrum nærri,
flaug hann með mik
fjærri löndum;
þar til háfa
hamra fundum,
ok lèt mik hvílast
í hreiðri sínu.

59. Unz mik Hildir
hafði á burtu,
risi rammligr
á róðrar skútu:
lèt mik veitir
Vimràr-elda
heila tólf mánuði
hjá sèr dvelja.

60. Þýddunst ek prúða,
þar meðan dvaldi
rausnsamliga
risa-dóttur:
ok með henni nið
heldr sterkligan
eiga nam ólíkan
öðrum mönnum.

61. Þann drap Ögm-
Ey-jófsbani (undr
í Hellulands
hraùns óbygðum:
fèlaga hans
ek fjörvi rænta,
hef' ek ei víking
verra fundit.

62. Fleiri hefr mína
fóstbræðr drepit
Syrner ok Gard,
gèck skeggit af;

*Cod. & Adl. legunt:* Veit ek at fossum falla lètu Jórdan um mik, *qvod regulis Grammaticæ nimis repugnat.*

32) *Perseqvitur poeta sex verss. seqventibus fabulosas admodum atqve insulsas narrationes de expeditionibus herois nostri in Grönlandiam, Hellu-landiam &. sim., ab Adl. cod. 17. &. cet. prolixe satis expositas, sed qvarum in membrana nullum existit vestigium.*

var hann þá flagði
furðu 33) likr,
ok kalla r sí an
Qvillanus blesi.

63. Þótti èk hæfr
á Brávelli,
þá ek barðist
við buðlúngs meingi;
bað Hríngr þá
hamalt fylkja
Odd hinn víðförla
at orustu.

64. Unda èk eigi
áðr Ungara
lofðúnga tvo
líta knáttag;
rèð ek með öðrum
arfs at qveðja,
veitta èk jöfri
vilt of-sinni 34).

65. Kom ek um síðir
þar svinnir þóttust
Sigurðr ok Sjólfr
í sveit konúngs;
rèði oss skatna lið
skots at biðja 35)
ok skjalda fimm
til skilmínga.

66. Skaut ek ei skemra
en skjöldúngr,
var lètt skafin
lind í hendi;
rèðu síðan
sunz at kosta,
þá lèt ek báða
blóði snýta.

67. Var mèr skjaldmær
skiput et næsta,
þá er orustu
eiga skyldum:
velta èk ýtre
í óþeckju,
and-rán biðu (þeir)
en vèr auð feingum.

68. Færðum seggi
frá svikaráðum,
ok trègoðum
týnda èk þeirra:

33) *Ita mutavi* aungu. 34) *Sic Membr. cap.* 32. *Adlerst.* &c. *habent*: Hitta ek hugsvinna heim í Gallía lofdúnga tvo litlu sídar. 35) *Sic Adl.* rèði ek sk. l. skots oss bíða *Cod.* 17.

barða èk Bjálka
i borghliði
eiki-kylfu
áðr hann önd of-lèt 36).
69. Var mèr Hárekr
hollr fulltrúi,
þá er hann festi 37)
fóstru sína: (mèr
áttak 38) hoska
hilmis dóttur,
vel rèðum saman
sigri ok löndum.
70. Sat ek at sælu
síðan minni

vegliga leingr
en ek vita þóttunst:
fjölð er at segja
af ferðum mínum
snotrum seggjum,
sjá mun en efsta.
71. Þèr skolut skunda
til skipa ofan,
heilir allir,
hèr mun ek dveljaz:
berit Silkisif
ok sonum ockrum
qveðju góða,
kem ek ecki þar!

36) *Membr. cap.* 39. 37) fastnaði *Membr. cap.* 37. 38) *Sic ego pro* at ek *Membr. vero hæc habet:* avflgum jörlum er ek böð ríki at sitja, rèð ek orosto eiga fyri.

## NÍÐQVÆÐI dróttmælt.

(Ur Njálu)

*Gunnar á Hlíðarenda og Njáll á Bergþórshvoli voru mestu merkismenn fyrir sunnan á þeirra dögum, og var mikil vinátta þeirra ámeðal, enn konur þeirra Hallgerðr og Bergþóra urðu ósáttar í heimboði og leituðu hefnda, lèt hvör drepa menn annarrar. Síðast eggjaði Hallgerðr Sigmund frænda Gunnars að drepa Þórð fóstra Njálssona, ámeðan Gunnar og Njáll voru á þíngi báðir, sendi síðan mann og lèt segja Gunnari tíðindin, enn hann sættist þegar við Njál um vígsmálið, svo að Njáls-synir voru ecki við; þeim þótti fyrir ecki allitið, er þeir vissu, þó sefuðust þeir með fortölum Njáls föður síns, og hètu því, að rjúfa ecki sættina, nema svo færi, að meira gerðist til saka af hendi Sigmundar. (44. Kap.)*

*Sigmundr níddi Njál ok sonu hans.*

Nú riða menn heim af þíngi, ok er Gunnarr kom heim, mælti hann til Sigmundar: meiri ertu úgiptu-maðr enn ek ætlaða, ok hefir þú til illz þína ment; en þó hefi ek nú gert þik sáttan við Njál ok sonu hans, ok skalt þú nú eigi láta

annarri flugu koma i munn þèr; ert þú mèr ekki skaplikr, þú ferr með spott ok háð, en þat er ekki mitt skap; kemr þú þèr því vel við Hallgerði, at it eigit meirr skap saman. Gunnarr taldi á hann lánga hríð; hann svaraði honom vel, ok qvaz meirr hans ráðum skyldu framfara þaðan af enn þar til. Gunnarr sagði honom þá hlýða mundu; hèlz vinátta með þeim Gunnari ok Njáli þótt fátt væri með-al annars liðsins. Sá atburðr varð at farandkonur komu til Hlíðarenda frá Bergþórshvoli, þær voru málgar ok heldr illorðar. Hallgerðr átti dýngju, ok sat hon þar optliga, þar var Þórgerðr dóttir hennar, þar var Þráinn ok Sigmundr ok fjöldi qvenna, Gunnar var eigi þar nè Kolskeggr (bróðir hans); farandkonur þessar gengu inn í dýngjuna, Hallgerðr heilsaði þeim, ok lèt gefa þeim rúm, ok spurði at tíðendum, en þær qváðuz engi segja. Hallgerðr spurði hvar þær voru um nótt, þær sögðu: at Bergþórshvoli. Hvat hafðiz Njáll at? segir hon. Stritaðiz hann við at sitja, sögðu þær. Hvat gerðu synir Njáls, segir hon; þeir þickjaz nú helz menn? Micklir eru þeir vexti, en úreyndir eru þeir mjöc, segja þær, Skarphèðinn hvatti avxi, Grímr skepti spjót, Helgi hnauð hjalt á sverð, Havskuldr treysti mundriða í skildi. Til stórræða nockorra munu

þeir

þeir ætla, segir Hallgerðr. Eigi vitu við þat, segja þær. Hvat gerðu húskarlar Njáls? segir hon. Eigi vissu við þat hvat sumir gerðu, einn ók skarni á hóla. Hví mundi þat sæta, segir hon. Þat sagði hann at þar yrði taða betri enn annarsstaðar, segja þær. Misvitr er Njáll, segir Hallgerðr, þar er hann kann til hversvetna ráð. Hvat er í því? segja þær. Þat mân ek tilfinna, er satt er, segir hon, er hann lèt eigi aka í skegg sèr, at hann værí sem aðrir karlmenn, ok köllum *karl enn skegglausa*, en sonu hans *taðskegglínga!* ok kveð þú um nocqvot, Sigmundr! ok lát oss njóta þess er þú ert skáld. Þess em ek albúinn segir hann, ok kvað vísur þessar:

1. Hvat skolu, hauka-setra-
hildr! mundriða' í skildi
trauðir trygra ráða
tað-skegglíngar negla?
því at sviphnuggnir seggir
svan-teigs megu eigi
elda-björk! þau er yrkjum
orð háðulig forðaz.

2. Karlinn spyrì orða illra
(einsætt er þat!) greinir,
vámr nemi víst í tómi
vårt raus hinu skegglausi!
hodd-veitir velr heiti

havlzti gott af spotti
[lið sem ek. trautt um-trúða]
tað-skegglíngum [vegligt].

3, Get ek, makligaz miklu
meins-leitendum heiti
(trauðr rýf ek trygðir!) síðan
tað-skegglíngum negliz;
heiti kallinn [kneytum
(kanna ek opt hugi manna)
skjal í skömmu máli]
skegglauss í tali seggja! *)

*) *Ordo verborum prosaicus. hic fere est:* hauka-setra-hildr (ɔ: qvennmaðr, húsfreyja!) hvat skolu taðskegglingar, (sem eru) trauðir tryggra ráða (ɔ: ótryggir, duglausir), negla mundriða í skildi? því at (ɔ: fyrst) svip-hnuggnir seggir megu eigi forðaz (ɔ: reka tilbaka, af sèr) háðulig orð, þau er yrkjum, svan-teigs (ɔ: sjáfar, AEgis-) elda (ɔ: gulls-) björk! (ɔ: qvennmaðr, frú!)

2. Karlinn spyrì illra orða greinir, þat er einsætt! vánir hinn skegglausi nemi víst (rètt) vârt raus í tómi Hoddveitir velr (ɔ: èg vel) af spotti hölztí gott heiti tað-skegglíngum, sem ek trautt um-trúða vegligt lið. *Ærat autem re vera imberbis Nj.*

3. Ek get at meins-leitendum miklu makligast heiti síðan (hèr eptir) neglist taðskegglíngum (ɔ: festist við þá), trauðr rýf ek trygþir: kneytum skjal í skömmu máli, heiti karlinn Skegglaus í seggja tali, ek kanna opt manna hugi.

*Enn er Bergþóra frètti það, kona Njáls, þá eggjaði hún sonu sína til hefndar, enn þeir drápu þá Sigmund og Skjöld. (45. Kap.)* Skarp-héðinn *(Njálsson)* sá smalamann Hallgerðar, ok hafði höggit höfut af Sigmundi, hann seldi smalamanni höfuðit, ok bað hann færa Hallgerði, qvað hana kenna mundu, hvårt þat höfut helði ort níð um þá, ok qvað vísu:

> Höfuð þetta skaltu hrotta-
> hljóm-stæranda *) færa,
> kom-þu, eld-skerðir orðum
> áls-ferðar! Hallgerði:
> hyck at þavll muni þekkja
> þynjar-logs ok skynja
> þýð, hvårt þat hafi smíðat
> þúngt níð boðum stríða **).

*) *Conject. mea pro* hljómstærandi *nominandi vel vocandi casu.*

**) *Sic denominationem viri (virorum sc. filiorum Njalis) nimis claudicantem* boði (-um) skíða *adjuvare conatus sum, possis qvoqve* striðu *legere eodem sensu. Ordo autem verborum hic fere est*: þetta hrotta-hljóm-stæranda (ɔ: manns) höfut, skaltu, áls-ferðar-eld-skerðir! færa Hallgerði; komþu orðum (nl. þessum til Hallgerðar einnig ɔ: með qveðjo minni): hyck (ɔ: hygg ek) at þýð þynjar-logs-þöll (ɔ: frúin) muni þekkja ok skynja, hvårt þat hafi smíðat (ɔ: ort) þúngt níð stríða-boðum (ɔ: um oss).

- - - Fóro þeir þá heim, ok sögðu Njáli tíðindin. Hann svarar svâ: njótið heilir handa! hèr skulu eigi sjálfdæmi fyrir koma at svâ búnu.

Nú er þar til máls at taka er smalamaðr kemr heim til Hlíðarenda, hann sagði Hallgerði tíðindin: fèkk Skarphèðinn mèr í hendr höfuð Sigmundar, ok bað mik færa þèr; en ek þorða þat eigi, segir hann, at gera, því at ek vissa eigi hversu þèr myndi þat líka. Þat var illa, er þú gerðir þat eigi, segir hon; ek skylda færa Gunnari, ok mundi hann þá hefna frænda síns, ella sitja fyrir hvers manns ámæli. Síðan gèkk hon til Gunnars ok mælti: ek segi þèr víg Sigmundar frænda þíns, hefir Skarphèðinn vegit hann ok vildi láta færa mèr höfuðit. Slíks var honom von, segir Gunnarr, því at illa gefaz ill ráð, ok hefir hvârtveggja yckat opt gráliga gert til annars. Gèkk þá Gunnarr í brott, hann lèt ekki búa til vígsmálit, ok engan hlut at-hafa. Hallgerðr minti opt á, ok sagði Sigmund vera úbættan. Gunnarr gaf ekki gaum at því. Nú liðu þrjú þíng, þau er menn ætluðu, at hann myndi sækja málit; þá kom eitt vandamál at hendi Gunnari, þat er hann vissi eigi hversu upp skyldi taka, reið hann þá til fundar við Njál; hann fagnar vel Gunnari. Gunnarr mælti til Njáls: heilræði em ek kominn at sækja at þèr

um eitt vandamál. Makligr ertu þeirra, segir Njáll, ok rèð honom ráðin. Gunnarr stóð þá upp, ok þakkaði honom. Njáll mælti þá, ok tók til Gunnars: ærit lengi hefir Sigmundr frændi þinn verit úbættr. Fyrir laungu var hann bættr, segir Gunnarr, en þó vil ek eigi drepa hendi við sóma mínum. Gunnarr hafði aldri illa mælt til Njálssona *). Njáll vildi ecki annat, enn Gunnar gerði um málit. Hann gerði tvö hundruð silfrs, en lèt Skjöld vera úgildan; þeir greiddu þegar allt fèit. Gunnarr sagði sætt þeirra upp á þíngskála-þíngi, þá er þar var mest fjölmenni, ok tjáði hversu vel þeim hafði farit, ok sagði þau en illu orð, er Sigmund dró til höfuðsbana, skyldi ok engi herma þau eða kveða vísurnar, en ef kvæði, skyldi vera úgildr sá er mælti. Þeir mæltu þat báðir Gunnarr ok Njáll at engir hlutir skyldu þeir til-verða, at eigi semdi þeir sjálfir: efndiz þat ok vel síðan, ok voro þeir jafnan vinir.

---

## HÖFUÐLAUSN EGILS
### Lofqvæði rúnhent.
### (úr Eiglu).

*Egill Skallagrímsson var einhver sú mesta hetja, er fæðst hefir á Islandi:*

*) þ: um Njálssonu.

*hann veitti Aðalsteini Eingla-konúngi lið í ófriðnum við Skota, þá unnu þeir Aðalsteinn konúngr bardaga mikinn á Vinheiði; bauð konúngr Agli mikið ríki í Einglandi, og tæki hann staðfestu þar með honum; enn Egill fýstist at vitja frænda og föðurlanz, sigldi hann fyrst austr til Noregs, og qvongaðist þar, fór siðan út til Islanz, enn af því qvonfángi hófust deilur miklar við mág hans um arfinn eptir teingðaföður þeirra. Þá sat at löndum í Noregi Eiríkr blóðöx, og Gunnhildr konúnga-móðir með honum, og var Egill í litlum kærleikum hjá þeim, enn mágr hans var inn mesti vinr drottníngar. Egill bjóst þegar til Noregs, sókti heim Arinbjörn alda vin sinn og ætlaði með hans styrk að þreyta lög við mág sinn um þetta mál. Þau Eiríkr konúngr voru á þíngi og fjölmenni mikið, enn þegar þeir Egill skyldu færa fram vitni og sannindi á máli sínu, þá lèt dróttníng hleypa upp dóminum og spilti svo málinu fyrir þeim.* (57. *Kap.)*

Þá mælti Egill: hvert má Bergönundr (*mágrinn*) heyra mál mitt? Heyri ek, segir Önundr. Þá vil ek bjóða þèr hólmgöngu, ok þat með, at við berimz hèr á þínginu; hafi sá ockar fè þetta, lönd ok lausa aura, er sigur fær, en þú ver hvers manns níðíngr, ef þú þorer eigi. Þá

svarar Eiríkr konúngr: ef þú, Egill! ert allfúss at berjaz, þá skulum vèr nú veita þèr þat. Egill mælti: ecki vil ek berjaz við konúngs ríki ok ofurefli liðs, en fyri jafn mörgum mun ek eigi flýja, ef mèr skal þess unna; mun ek þá ok at því gjöra öngan manna mun, hvårt (heldr) er tíginn eðr ótíginn. Þá mælti Arinbjörn: förum vèr á brutt, Egill! ecki munum vèr hèr iðja at sinni þat er oss muni gagn í-vera. Sneri Arinbjörn þá á braut ok allt lið hans með honum. Þá sneri Egill aptr, ok mælti hátt: "Því skírskota ek undir þik, Arinbjörn! ok þik Þórðr! ok alla þá menn, er nú megu orð mín heyra, lenda menn ok lögmenn ok alla alþýðu: at ek banna jarðir þær allar er átti Björn Brynjólfsson *(teingðafaðirinn)* at byggja ok at vinna, ok allra gagna af at neyta; banna ek þèr, Bergönundr! ok öðrum mönnum öllum, innlendzkum ok útlendzkum, tignum ok ótignum; en hverjum er þat gerir, legg ek við lögbrot ok goða gremi, og griða-rof." Þá gèck Egill í brott með Arinbirni.

*Þá veitti Eiríkr konúngr honum eptirför, drápu menn hans alla þá er þeir náðu, enn ræntu hafskipið og brendu síðan. Egill komst undan við 30 manns, fór síðan á fund Arinbjarnar og bjóst skyndiliga úr landi á braut; enn áðr enn hann lèt í haf leitaði hann lags að hefna sín:*

*drap fyrst Bergönund og marga menn með honum, enn rœntu bæinn, og spiltu því öllu er þeir máttu eigi meðfara. Þá bar svo til að Rögnvaldr konúngsson rèri ámóti þeim við tólfta mann, er þèir fóru frá þessu starfi; þeir Egill drápu þá alla, rœntu síðan þann konúngsbæ, er Rögnvaldr hafði verit á kynnisleit hjá fóstra sinum.* (60. *Kap.)*

Fóro síðan út til skips síns, var þá ok eigi lángt at bíða, at byrr rann á af landi, búaz þeir til at sigla, ok er þeir voro seglbúnir, gèck Egill upp í eyna (Herðlu). Han tók í hönd sèr heslisstaung, ok gèck á bergsnavs nockura, þá er vissi til landz inn; þá tók han hrosshöfuð, ok setti upp á staungina, síðan veitti han formála ok mælti svâ. "Hèr set ek upp níðstaung ok sný ek þessu níði á hönd Eiríki konúngi ok Gunnhildi drottníngu." Han sneri hrosshöfðinu inn á land. "Sný ek þessu níði á landvættir, þær er þetta land byggja, svâ at allar fari þær villar vega, ok engi hendi nè hitti sitt inni, fyrr enn þær hafa rekit or landi Eirík konúng ok Gunnhildi." Síðan skýtr han staunginni niðr í bjargrifu, ok lèt þar standa, han sneri ok höfðinu inn á land, en han reist rúnar á staunginni, ok segja þær formála þenna allan.

*Eptir*

*Eptir það sigla þeir Egill út til Islanz, skömmu seinna andaðiz Skallagrímr faðir hans, tók þá Egill við arfi ok rèð fyrir búi. Þá varð at áhrýnsorðum nið Egils, þvi sama sumar kom til Noregs Hákon Adalsteins fóstri vestan af Einglandi, enn áðr hafði Eirikr látið drepa bræðr sína, ok var hann óvinsæll hjá alþýðu af þeim verkum; þá var Hákon til konúngs tekinn, enn Eirikr varð at flýja land, herjaði siðan um Skotland og Eingland, loksins sættuz þeir Aðalsteinn Einglakonúngr svo, að hann fèck Eiriki Norðymbráland til forráða og landvarnar, hafði Eirikr þá atsetu í borginni Jórvik, og rèð þar löndum, enn um þessar biltingar hafði eingin frètt til Islanz komið. Þá þótti Agli dauflígt á Islandi, og fýstist að fara til Einglanz og vitja heita þeirra, er Adalsteinn konúngr hafði heitið honum at skilnaði; enn er þeir sigla suðr fyrir Skotland, feingu þeir storm mikinn, brutu loksins skipit, og komu að landi í Humru mynni, það er á sú, er Norðymbraland hefir nafn af-dregit. Þar spurðu þeir at Eirikr konúngr og Gunnhildr voru þar fyrir í Jórvik og Arinbjörn hersir með þeim. (62. Kap).*

Ok er Egill var viss orðinn þessara tiðenda þá gerði han ráð sitt; þótti hon-

um sèr úvænt til undankvámu, þótt han freistaði þess at leynaz ok fara huldu höfði leið svâ lánga, sem vera mundi áðr han kæmi or ríki Eiríks konúngs, var han þá auðkendr þeim er hann sæi; þótti honum þat lítilmannligt at vera tekinn í flótta þeim: herði han þá huginn, ok rèð þat af, at þegar um nóttina, er þeir höfðu þar komit, þá fær han sèr hest ok ríðr til borgarinnar, kom han þar at kveldi dags, ok reið han þegar í borgina, han hafði síðan hatt yfir hjálminn, ok alvæpni hafði han. Egill spurði hvar garðr sá væri í borginni, er Arinbjörn átti, honum var þat sagt, han reið þángat í garðinn, en er han kom at stúfunni, steig han af hesti sínum, ok hitti mann at máli, var honum sagt at Arinbjörn sat yfir matborði. Egill mælti: ek vilda, góðr drengr! at þú gingir inn í stúfuna ok spyrðir Arinbjörn, hvårt han vill helðr úti eða inni tala við Egil Skallagrímsson. Maðrinn segir: þat er mèr lítit starf, at reka þetta erindi; han gèck inn í stúfuna, ok mælti stundarhátt: maðr er hèr kominn úti fyri dyrum, segir han, mikill sem tröll, en sá bað mik gánga inn, ok spyrja hvårt þú vildir úti eða inni tala við Egil Skallagrímsson. Arinbjörn sagði: gack, ok bið hann bíða úti, ok mun han eigi lengi þurfa. — Arinbjörn bað taka upp bordin, síðan gèck han út, ok allir húskarlar

hans með honum. Ok er Arinbjörn hitti Egil, heilsaði han honum, ok spurði hví han var þar kominn. Egill segir í fám orðum it ljósasta af um ferð sína, "en nú skaltu fyri-sjá hvert ráð ek skal taka, ef þú vilt nockurt lið veita mèr. Hefir þú nockura menn hitt í borginni, segir Arinbjörn, þá er þik muni kent hafa, áðr þú komt higat í garðinn? Engi, segir Egill. Taki menn þá vâpn sín, segir Arinbjörn; þeir gerðo svâ. En er allir menn voro vopnaðir, þá gengu þeir í konúngsgarð, ok er þeir komu til hallar, þá klappaði Arinbjörn á dyrum, ok bað upp-láta, ok segir hver þar var; dyrverðir lètu þegar upp hurðina, konúngr sat þá ifir borðum. Arinbjörn bað þá gánga inn tólf menn, nefndi til þess Egil ok tíu menn aðra. "Nú skaltu, Egill! færa konúngi höfut þitt, ok taka um fót honum, en ek mun túlka mál þitt." Síðan gánga þeir inn; gèck Arinbjörn fyri konúng, ok kvaddi hann *). Konúngr fagnaði honum, ok spurði hvat er han vildi. Arinbjörn mælti: èk fylgi híngat manni þeim, er kominn er um lángan veg at sækja yðr heim, ok sættaz við yðr. Er yðr þat vegr mikill, herra! er úvinir yðrir fara sjálfviljandi af öðrum

*) *Njála & Eigla* en *habent ubi* sed, enn *vero ubi* qvam *it.* adhuc *significat. Eigla insuper* han *in nom.* hann *in acc. subtilius arbitror qvam verius.*

löndum, ok þykjaz eigi mega bera reiđi yđra, þó at þèr sèt hvergi nær. Láttu þèr nú verđa höfđinǵliga vit þenna mann, lát han fá af þèr góđa sætt, fyri þat er han hefir gert þinn veg svâ mikinn, sem nú má sjá, farit ifir mörg höf ok torleiđi heiman frá búum sínum, bar honum enga nauđsyn til þessar farar nema gođvili viđ þik, konúngr! því at vel mátti hann gæta sín á Islandi fyri reiđi þinni.

Þá litađiz konúngr um, ok sá han fyri ofan höfuđ mönnum, hvar Egill stóđ; konúngr kendi hann skjótt, ok hvesti augun á hann, ok mælti: hví vartu svâ djarfr, Egill! at þú porđir at fara á fund minn? leystiz þú svâ héđan næstum, at þèr var engi vân lífs af mèr. Þá gèck Egill at borđinu, ok tók um fót konúngi, han qvađ þá:

Kominn em ek á jófi
ángr-beittum veg lángan
öldu, enskrar foldar
atsitjandą' at vitja:
nú hef'ec sí-skelfi sjálfan
(snar-þáttr Haraldz áttar
viđr ofrhuga yfrinn)
undar-bliks of-fundinn *).

*) jófi *pro* jó ifa *v.* 1. *item* ángrbeittum *pro* ángrbeittan *v.* 2. snar þáttr *pro* snar þat er, *vel* snar þátt *v.* 6. *ex conjectura propria reposui*; hefec sískelfi *pro* hefer sí-

Eiríkr konúngr segir: ecki þarf ek at telja upp sakir á hendr þèr; þvíat þær eru svâ margar ok stórar, at einhver má vel endaz til þess, at þú komir aldri hèðan lífs, áttu engis annars af (mèr) vân, en þú munt hèr deyja skulu; máttir þú þat vita áðr, at þú mundir enga sætt af mèr fá. Gunnhildr mælti: hví skal eigi þegar drepa Egil? eda mantu eigi nú, konúngr! hvat Egill hefir til þín gert: drepit vini þína ok frændr, ok þar á ofan son þinn, en nídt sjálfan þik; eðr hvar viti menn slíku belt við konúngmann? Arinbjörn segir: ef Egill hefir mælt illa til konúngs, þá má han þat bæta í lofsorðum þeim, er allan aldr megi uppi vera. Gunnhildr mælti: vèr viljum ecki lof hans heyra; láttu, konúngr! leiða Egil út ok höggva hann! vil ek eigi heyra orð hans ok eigi

skelfir *v. 5. ex conject. Gunn. Pauli. Ordinem vero hunc esse censeo:* Kominn em ek á ángur-beittum öldu-jófi lángan veg, at vitja enskrar foldar at-sitjanda; nú hef ek of-fundinn sjálfan undar-bliks-sískelfir, Haraldz ættar snar-þáttr viðr (ɔ: vinnr) yfrinn ofrhuga! *Possis qvoqve ambiguam hic vero apprime commodam sententiam ita redigendo elicere:* Nú hef ec viðr (ɔ: við) yfrinn ofrhuga of-fundinn unda-bliks-sískelfir Haraldz ættar snar-þátt (*v.* svar-þátt) sjálfan; *respectu ad verba regis:* hví vartu svâ djarfr *&c.*

sjá hann. Þá mælti Arinbjörn: eigi mun konúngr láta at-eggjaz um öll níðíngsverk þín, eigi mun han láta Egil drepa í nótt; því at náttvíg ero morðvíg. Konúngr segir: svá skal vera, Arinbjörn! sem þú biðr at Egill skal lifa í nótt; hafðu hann heim með þèr, ok fær mèr hann á morgin. Arinbjörn þackaði konúngi orð sín "væntu vèr, herra! at hèðan af muni skipaz mál Egils á betri leið. En þótt Egill hafi stórt til saka gert við yðr, þá líti þèr á þat, at han hefir mikils mist fyrir yðr frændum: Haraldr konúngr faðir þinn tók af lífi ágætan mann Þórólf föðurbróður Egils af rógi vándra manna, en af engum sökum; en þèr, konúngr! brutuð lög á Agli fyrir sakir Bergönundar, en þar á ofan vildu þèr hafa Egil at dauðamanni, ok drápuð menn af honum, en ræntuð hann fè öllu, ok! þar á ofan gerðut þèr hann útlaga, ok rákut hann af landi, en Egill er engi ertíngamaðr. En hvert mál, er maðr skal dæma, þá verðr at líta á tilgjörð með efnum. Mun ek varðveita Egil náttlángt. Gánga þeir Egill heim til húss, ok er þeir komu í garðinn, þá gánga þeir tveir í lopt nockurt lítit, ok ræða um þetta mál, segir Arinbjörn svá: allreiðr var konúngr nú, en heldr þótti mèr mýkjaz skaplyndi hans áðr lètti, ok mun nú hamíngja skipta hverr uppkemr. Veit ek at Gunnhildr mun allan húg á-legg-

ja at spilla þínu máli. Nú vil ek at við takim þat ráð upp, attu vakir í alla nótt, ok yrkir lofqvæði um Eirík konúng, þætti mèr þá vel, ef þat yrði drápa tvítug ok mættir þú kveða á morgin, er við komum fyrir konúng. Svâ gerði Bragi frændi þinn, þá er han varð fyri reiði Bjarnar Svía-konúngs, at han orti drápu tvítuga um hann eina nótt, ok þá þar-fyrir höfuð sitt: nú mætti ok svâ vera at við bærim gæfu til við konúng, svâ at þèr kæmi þat í frið, ef þú fengir drápuna fært honum. Egill segir: freista skal ek þessa ráðz, er þú vill, en ecki hefi ek við því búiz at yrkja lof um Eirík konúng. — — Þá orti Egill drápuna, ok hafði fest svâ at han mátti kveða um morguninn, þá er han hitti Arinbjörn. Þeir hèldu vörð á, nær tími mundi vera at hitta konúng.

63. Eiríkr konúngr geck til borða at vanda sínum, ok var þá fjölmenni mikit með honum; ok er Arinbjörn varð þess varr, þá geck han með alla sveit sína allvápnaða í konúngs-garð, þá er konúngr sat ifir borðum. Arinbjörn krafði sèr inngöngu í höllina, honum var þat ok heimolt gjört, gánga þeir Egill inn með helmíng sveitarinnar, en annar helmíngr stóð úti fyrir dyrum. Arinbjörn kvaddi konúng, en konúngr fagnaði honum vel. Arinbjörn mælti: nú er hèr kominn Egill, hefir han ecki leitat til

brott-hlaups í nótt: nú viljum vèr vita, herra! hverr hans luti skal vera; væntir ek attu munir láta hann njóta orða *minna*, því at mèr þikir allmiklu skipta, at Egill fái sætt af yðr. Hefer ek þat gjört, sem vert var, at ek hefi engan lut til þess sparat at gera ok mæla svá, at yðvarr vegr væri þá meiri en áðr, hefi ek ok látit allar mínar eigur ok frændr ok vini, er ek átta í Noregi, ok fylgt yðr, en allir lendir menn yðrir skilduz við yðr, ok er þat makligt, þvíat þú hefir marga luti til mín stórvel gjört . . Þá mælti Gunnhildr: hættu, Arinbjörn! ok tala ecki svá lángt um þetta; mart hefir þú vel gjört við Eirík konúng, ok hefir han þat fullu launað, er þèr miklu meiri vandi á við Eirík konúng enn Egil, er þèr þess ecki biðjanda at Egill fari refsíngalaust hèðan af fundi Eiríks konúngs, slíkt sem han hefir til saka gjört. Þá mælti Arinbjörn: ef þú, konúngr! ok þið Gunnhildr hafit þat einráðit, at Egill skal hèr enga sætt fá; þá er þat dreingskapr at gefa honum frest ok farar-leyfi um viku sakir, at han forði sèr, er han hefir at sjálfvilja sínum farit híngat á fund yðvarn, ok vænti sèr af því friðar: fari þá enn skipti yður, sem verða má, þaðan frá. Gunnhildr mælti: sjá kann ek á þessu, Arinbjörn! at þú ert hollari Agli enn Eiríki kon-

úngi

úngi. Ef Egill skal ríða héðan viku í brott í friði, þá mun han kominn til Aðalsteins konúngs á þessi stundu: en Eiríkr konúngr þarf nú ecki at dyljaz í því, at honum verða nú allir konúngar ofreflismenn; en fyri skömmu mundi þat þikja ecki líkligt, at Eiríkr konúngr mundi eigi hafa til þess vilja ok atferð at hefna harma sinna á hverjum manni slíkum, sem Egill er. Arinbjörn segir: engi maðr mun Eirík kalla at meira mann, þó at han drepi einn bónda-son útlendan, þann er gengit hefir á vald hans. En ef konúngr vill miklaz af þessu, þá skal ek þat veita honum, at þessi tíðendi skulu heldr þikja frásagnar verð; því at við Egill munum nú veitaz at, svâ at jamsnemma skal ockr mæta báðum. Muntu, konúngr! þá dýrt kaupa líf Egils, um þat er vèr erum allir at velli lagðir ek ok sveitúngar mínir; mundi mik annars vara af yðr, enn þú mundir mik vilja leggja heldr at jörðu, enn láta mik þiggja eins mannz líf, er ek bið. Þá svarar konúngr: allmikit kapp leggr þú á þetta, Arinbjörn! at veita Agli lið, trauðr mun ek til-vera, at gera þèr skaða, ef því er at skipta, ef þú vill heldr leggja fram líf þitt, enn han sè drepinn, en ærnar ero sakir til við Egil, hvat sem ek læt gera við hann. Ok er konúngr hafði þetta mælt, þá gèck Egill fyrir hann, ok

hóf upp kvæðit, ok kvað hátt, ok fèck þegar hljóð.

*Inngángr.*

1. Vestan fórc of ver,
en ek Viðris ber
mun-strandar-mar,
so er mitt of-far:
dró ek eik á flot
við Isa-brot,
hlóð ek mærðar hlut
minnis-knarrar-skut.

2. Buðumz hilmir löð,
á ek hróðurs um-kvöð;
ber ek Oðins-mjöð
á Engla bjöð:
lof at vísa vann,
víst mæri ek þann,
hljóðs biðjum hann;
því at hróðr of-fann.

———

3. Hygg, vísir! at
vel sómir þat,
hve ek þylja fat,
ef ek þögn of-gat:
flestr maðr of-frá
hvat fylkir vá,
en Viðrir sá
hvar valr of-lá.

4. Ox hjörva hlöm
við hlífar þröm,
Guðr óx um gram,
gramr sótti fram:
þar heyrðiz þá,
þaut mækis-á,
málm-hríðar spá,
sú er mest of-lá.

5. Var-at villr staðar
vefr darraðar
of grams glaðar
geirvángs ráðar:
þars í blóði
í brimils móði
flaustr of-þrumdi
en und um-glumdi.

*Fyrsta stef.*

6. Hnè firða fit
við fleina hnit,
orðstýr of-gat
Eiríkr at þat.

7. Fremr mun ek segja,
ef firðar þegja,
frágum fleira
til frama þeira:
æstuz undir
við jöfurs fundi,
brustu brandir

við blár randir.
8. Hlam hryns öðul
við hjálm-röðul,
beit ben-grefill,
þat var blóð-refill:
frá ek at félli
fyrir fetils-svelli
Oðins eiki
í járn-leiki.

*annað stef.*

9. þá var odda at
ok eggja gnat,
orðz-týr of-gat
Eiríkr at þat.
10. Rauð hilmir hjör,
þat var hnafna gjör,
fleinn hitti fjör,
flugu dreyrug spjör:
ól flagðs-gota
fár-bjóðr Skota,
trað nipt Nara
náttverð ara.
11. Flugu hjaldr-
of hræs lanar, (tranar
voru-t blóðs vanar
ben-más granar:
þá er odd-breki
(sleit und freki)
gnúði hrafni
á höfuð-stafni.

*þridja stef.*

12. Kom Gríðar læ
á Gjálpar skæ,
bauð úlfum hræ
Eiríkr of sæ.
13. Beit fleinn floginn,
þá var friðr loginn,
var álmr dreinn,
því var úlfr feginn:
brustu broddar,
en bitu oddar,
baru hörvar
af bogum örvar.
14. Verpr brodd-fleti
af baug-seti
hjör-leiks-hvati,
han er blóð-skati:
þróaz hèr sem hvar,
hugat mæli ek þar,
frètt er austr um mar
Eiríks of-far.

*fjórda stef.*

15. Jöfurr sveigði ý,
flugu unda bý,
bauð úlfum hræ
Eiríkr um sæ.
16. Enn mun ek vilja
frá verum skilja,

skapleik skata,
skal mærð hvata:
lætr snót saka
um súð frí 1) vaka,
en skers aka
skið Geirs braka.

17 Brýtr bóg-vita
bjóðr hramm-þvita
mun-a hodd-dofa
hríngbrjótr lofa:
gladdiz flotna fjöl
við Fróða-mjöl
mjök er hilmi föl
hauk-strandar-möl.

18. Stóðz fólk eigi
fyri fjörlegi,
gall ý-bogi
at egg-togi:
verpr af bröndum
en jöfurr löndum
heldr hornklofi;
han er næstr lofi.

*álykian*

19. Jöfurr hyggi at,
hve ek yrkja fat,
gott þóttumz þat
er ek þögn of-gat:
hrærða' ek munni
af munar grunni
Oðins AEgi
á Jóru fægi.

20. Bar ek þengils lof
á þagnar rof,
kann ek mæla mjöt
of manna sjöt:
or hlátra ham
hróðr ber ek fyri gram;
svá fór þat fram,
at flestr of-nam.

— — —

Njóti bauga
sem Bragi auga,
vagna vara 2)
eðr vili tara!

---

1) *Alii*: sverð-Frey. *L. seqv. mallem* skessu' Haka.

2) vagna *aliás* vögn ɔ: *ceti genus*, vara *gen. pl. vocis* vör ɔ: *linea in mari a carina navis formata*, *qvam sectatur cetus ille*, *qvemadmodum me docuit doctissimus Hallgrimus Scheving Islandus.*

64. Eiríkr konúngr sat upprèttr meðan Egill kvað kvæðit, ok hvesti augun á hann; ok er lokit var drápunni, þá mælti konúngr: bezta er kvæðit framflutt, en nú hefir ek hugsat, Arinbjörn! um mál vâr Egils hvar koma skal: þú hefer flutt mál Egils með ákafa miklum, er þú býðr at etja vandræðum vit mik; nú skal þat gera fyri þínar sakir, sem þú hefir beðit, at Egill skal fara frá mínum fundi heill ok úsakaðr. En þú, Egill! hátta svâ ferðum þínum, at síðan er þú kemr frá mínum fundi út af þessi stûfu, þá kom þú aldregi í augsýn mèr nè sonum mínum, ok verð aldri fyri mèr nè mínu liði; en ek gef þèr nú höfut þitt at sinni, fyri þá sök er þú gekt á mitt vald, þá vil ek eigi gera níðíngsverk á þèr: en vita skaltu það til sanns, at þetta er engi sætt við mik nè sonu mína, ok enga frænðr vâra, þá er rèttar vilja reka. Þá kvað Egill:

| | |
|---|---|
| Erumk-a leitt, | hvar er sá at gat |
| þó at ljótr of-sè, | af göfug-lyndum |
| hjálma-klett | æðri gjöf |
| af hilmi at þiggja: | allvaldz syni? *) |

Arinbjörn þakkaði konúngi með fögrum orðum þá sæmd ok vináttu, er han veitti

*) *Hanc stropham ita resolvas:* erumk-a (ɔ: mèr er eigi) leitt at þiggja af hilmi hjálma-klett, þó at of-sè ljótr: hvar er sá at (ɔ: eð, er) gat æðri gjöf af göfuglyndum alvaldssyni?

honum. Þá gánga þeir Arinbjörn ok Egill heim í garð, Arinbjörn lèt búa reiðskjóta liði sínu, reið han brott með Agli ok hundrað manna alvâpnaðra með honum. Arinbjörn reið með lið þat til þess er þeir komo til Aðalsteins konúngs ok fingu þar góðar viðtökur; bauð konúngr Agli með sèr at vera, ok spurði hverneg farit hafði með þeim Eiríki konúngi. Þá qvað Egill:

Svartbrúnum lèt sjónum
sann-spár hugins vara
(hugir tjäðumz mjök mága)
magnaðr Egil fagna:
arf-stóli kná ek Ala
at-göfguðum *) hattar
fyrir ragnaðar-regni
ráða nú sem áðan.

En at skilnaði þeirra Arinbjarnar ok Egils, þá gaf Egill Arinbirni gullhrínga þá tvâ, er Aðalsteinn konúngr gaf honum, ok

*) *Sic ego pro* áttgöfguðum (ɔ: *nobili*), *sed tunc debuisset dicere* átt-göfugum, *melius igitur videtur* atgöfguðum ɔ: *verbo tenus certamine nobilitato (-um). Ita vero structuram poeticam resolvas:* Hugins-vara-sann-spár-magnaðr (ɔ: hermaðrinn, konúngrinn) lèt Egil fagna svartbrúnum sjónum, mága (ɔ: Arinbjarnar, sem hann var mægðr við) hugir tjáðu mèr mjök: ek kná ráða at-göfguðum Ala-hattar-arfstóli fyrir ragnaðar-regni nú sem áðan. *Alii aliter.*

stóð mörk hvârr. En Arinbjörn gaf Agli sverð þat er *dragvandill* hèt, þat hafði gefit Arinbirni Þórólfr Skallagrímsson, en áðr hafði Skallagrímr þegit af Þórólfi bróður sínum, en Þórólfi gaf sverðit Grímr Loðinkinni son Ketils hængs. Þat sverð hafði átt Ketill hængr, ok haft í hólmgöngum, ok var þat allra sverða bitrazt. Skilduz þeir með kærleik hinum mesta, fór Arinbjörn heim í Jórvík til Eiríks konúngs.

---

## QVÆÐI SNJÓLFS
### um bardagann á Grund 1362.
(úr latínska formálanum fyrir Resens Eddu.)

*Tilefnið til þessa bardaga var (samqvæmt Resen) óeining ámilli Þorsteins Hallssonar og Jóns biskups á Hólum. Þorsteinn kom prestunum til að falla frá biskupi, hófust þaraf deilur miklar, sem Smiðr hirdstjóri og Skálholts klerkar forgefins leituðust við að afgjöra. Tóko sumir það ráð að sigla, og leggja mál sitt á kóngs dóm, enn einn lèt Smiðr drepa, þó hann skyti málinu undir kóng. Eptir alþíng bjóst Smiðr og með honum Jón Skráveifa og fleiri Sunnlendíngar að ríða norðr, enn Norðlendíngar fengu njósn um ferð þeirra, og fóru á móti þeim; fundr þeirra varð á Grund, fjórtán menn fèllu þar alls, og þarámeðal Smiðr.*

1. Mjög egg-þunn öx
í jarða föx
sveik lýða líf
en lamdi hlíf:
dreif hrotta-hregg
um heila-vegg,
gaf ei hvildar hlið
harðfeingið 1) lið.

2. Sonr Kolbeins sitt
sverð reiddi frítt 2),
var þorsteins vigur
vel lángr og digur,
með hvörjum hann
hugar-prýði vann,
afl skorti ei
í örva-þey.

3. Frá eg stæla storm
mjög Sturlu-Orm,
þar er kysti kyrr
kyrkju dyr:
kvað hann þurfa þess
að þylja vess,
þó er bænin bezt
honum byrgði mest.

4. Jón skreiddist skjótt
skráveifa fljótt
kamars-augat út
við ærna sút:
sú ljóta leið
lèðist virðum greið,
þeim er vörðu 3) þann
þreklausan mann.

5. Smiðr varðist vel,
fèck virðum hel
hans brandrinn breiðr,
þá er barðist reiðr:
honum fylgir fast
í fleina-kast
sveit hvörgi hrædd
hríng-serkjum klædd.

6. Kylfu heyrði háng,
hjálm-gríðar ráng
vel hvöss og hrein
reif 4) hold sem bein:
með þúnga þraut
þegn falla hlaut
hernadar 5) hagr;
hèr fellr bragr.

1) *Res. habet* hardfengjad. 2) *Melius forte* titt. 3) *Hoc pro* fylgdi *substitui*. 4) *Ita mutavi* reitt. 5) *conject. mea pro:* hier neit.

Particula posterior

*exhibens*

*Specimina*

LITTERATURÆ ISLANDICÆ

*recentioris.*

## DÆMISÖGUR

*af*

*Dr. Hannesi Finnssyni biskupi* *).

(úr Qvöldvökunum.)

1. Fátækr maðr nockur fjörgamall, heilsulaus og aumr, varð að lifa á því að safna saman qvistum í skóginum og selja. Einu sinni þegar hann fór heim til kofa síns þreytir og stynjandi, datt hann undir bagganum, og fór þá að hugsa um sitt vesældar ástand, volandi og biðjandi dauðann að frelsa sig frá þessari stóru, óbæriligu og sífeldu mæðu. Dauðinn kom, og spurði hvað þessi maðr vildi sér? Ecki annað, svaraði hinn gamli, og iðraðist þá óskar sinnar — ecki annað enn eg vildi biðja yðr að lypta bagganum uppá bakið á mér!

*) *Mutavi qvidem paullulum orthographiam in seqventibus, ut ubiqve sibi qvodam modo constaret, neqve tamen qvem exprimere voluerunt autores, sonum ipsum unqvam, ut spero, depravavi.*

2. Bóndi nockur, kominn undir andlátið, átti ecki auðæfi að eptirláta börnum sínum, en vildi þó locka þau til vinnusemi, svo þau hefðu ætíð nóg fyrir sig að leggja; kallaði þau að rúmi sínu og sagði: innan stocks á eg eckert, börnin mín! eins og þið vitið sjálf, en allt hvað eg hefi getað unnið mèr inn mína lífstíð, hefi eg falið í urtagarðinum ockar, þar megið þið leita að því; skömmu síðar dó hann. Börnin, þóttust vera viss um að einhvörsstaðar í garðinum væru peníngar, grófu þess vegna og rótuðu upp moldina í mesta ákafa, og fundu þá aldrei, sem ecki var heldr von til; því þeir vóru engir, en aptr ámót bár garðrinn bezta ávöxt, af því moldin í honom varð svo vel mulin.

3. *Allr er jöfnuðrinn góðr.*

Tóan varð fyrri til að bjóða storkinum til máltíðar, og setti fram fyrir hann velling í grunnu fati. Storkrinn, sem hefir yfrið lángt og mjótt nef, gat ecki náð neinu af því, en lèt ecki á-bera hvörsu honum sveið það. Skömmu eptir bauð hann henni aptr til veizlu; hûn mundi ecki til, hvörnin hûn hafði í garð fyrir sig búið, og kom á tilsettum tíma, hafði þá storkrinn smáskorna steik í hálsmjórri flösku, tóa gat ecki komizt að, nema að sleikja um hálsinn á henni, en særðist af að sjá, storkrinn át allt einn. Þegar hann var

mettr orðinn sagði hann af spotti: láttu þèr ecki þykja miðr, tóa góð! þó eg hafi tekið mèr þitt dæmi til að breyta eptir.

4. *Betra er að bogna enn bresta.*

Sterkt eikartrè og grannr reyr komu í kappræðu hvert þeirra sterkara væri. Eikin sagði: og þú vænt' eg sè sterkr; sem beygist ofan að jörð af hvörjum vindblæ! Reyrinn svaraði, það munði sannast á sínum tíma. Nockru eptir kom á harðviðri: reyrinn beygði sig niðr að jörð, og hafði engan skaða af storminum, en eikin streittist allt af á móti, þángað til hún rauk útaf með rótum og öllu saman. Þá sagði reyrinn nú sèrðu hvað það hefir uppá sig að standa í nösunum á mektugum fjandmanni.

5. *Ecki verða allar ferðir til fjár.*

Gamall hani var á vakt uppá eldhúsi, þángað kom tóa hlaupandi og kallaði með hýrri glaðværðar-raust: galaðu, vinr! galaðu; nú kem eg með gleði-frèttir til þín: galaðu; því dýrastríðið er á enda, allir eru orðnir þreyttir á þessum óróa, svo friðr og einíng er nú í ríki voru, eg sjálf er send með þenna boðskap til þín frá öllum tóum. Komdu fljótt ofan, vinr! svo eg geti faðmað þig að mèr og gefið þèr friðar-koss! — Hvað ertu að líta í kríngum þig? Hann Strútr, Móri og Fleckr koma, hundarnir, sem þú þeckir, svaraði haninn. Tóa tók til fótanna.

Haninn spurði: hvat kemr til þú hleypr svona? Slètt eckert, bróðir minn! sagði tóa, stríðið er að sönnu úti, en eg veit ecki hvört þeir hafa frètt það.

6. *Hússbóndans auga sèr bezt.*

Hjörtr nockur komst á hlaupum undan veiðimanna hundum inní fjós, og beiddi kýrnar að lofa sèr að felast þar, en hèt heim aptr á mót að vísa þeim á bezta grasbeit, þegar þær kæmu til hans. Þær sögðu honum strax, að bezt væri, hann fengi sèr annað óhultara fylsni, samt lofuðu þær að leggja ecki til, þó hann væri þar. Hann leitaði sèr síðan að hentugasta stað til að fela sig í, og þóttist nú verá búinn að koma sèr vel fyrir.

Um qvöldið var að vanda gefið á alla bása; heimilisfólkið geck til og frá um fjósið, og sinna erinda uppí suma básana; fjósamaðrinn gegndi öllum siðvanaligum athöfnum, og sópaði upp fyrir hvörri kú; ráðsmaðrinn sjálfr kom til at líta yfir hvörnin framfæri; mjaltirnar og eptirgjöfin liðu líka, svo eckert bar á hirtinum, þóttist hann því úr öllum háska sloppinn, og fór að þacka kúnum hvörsu vel þær höfðu leynt honum. Þá svaraði ein þeirra hálfjórtrandi: enn þá fer vel, en þegar maðrinn með hundrað augun kemr, þá er eg hrædd um þig, og fyrr skaltu ecki hrósa happi þínu, enn hann er burt' aptr.

I því sama kom hússbóndinn, og fór að skoða umgánginn í fjósinu. Þarna er, sagði hann við fjósamanninn, ílla sópað upp, þarna hefir þú ecki skarað skarninu framúr básnum; taktu þarna frá henni Reyður og gefðu henni Hyrnu; hefi eg ecki einatt sagt þèr að láta ecki rekuna standa þarna? Hún Húfa hefir flækt sig í niðrbandinu; passar þu ecki betr uppá en svona? I því hann þannig var að sjá eptir öllu, varð honum litið á horn í einum básnum, þreifaði fyrir sèr, fann hvörr gestr var kominn, og lèt strax kalla á fólkið, sem banaði hirtinum, af hvörjum hússbóndinn fèck marga góða máltíð.

7. *Slægr etr slægs mat.*

Ljónið lagðist forðum í sótt, þá komu öll ferfættu dýrin að vitja þess, nema hún tóa. Ulfinum sýndist hèr væri bezta tækifæri til að fyrirkoma henni, og sagði við ljónið, að af öllum dýrunum hefði eckert foraktað þess boð, sem það hefði sendt þeim, nema hûn tóa, og væri það slæmt til eptirdæmis, ef slíkt liðist óstraffað. Rètt í sama vetfángi kom tóa að, og heyrði seinustu orðin, sem úlfrinn talaði. Þegar ljónið sá hana, espaðist það, og ætlaði að rífa hana í sundur; en henni varð ecki orðaskortr, heldr sagði að af öllum þeim dýrum, sem komið hefðu að vitja þess hátignar hefði einginn, nema hûn hugsað uppá meðal við þess sjúkdómi,

en hún hefði strax hlaupið til læknirsins að vita hvaða meðal hér ættti við, og það hefði hann sagt sèr. Ljónið skipaði henni að segja hvört þetta meðal væri. Herra! svaraði tóa, það er að yðar hátign láti flá lifandi úlf, og leggja yfir yðr glóðvolgt skinnið, það meðal sagði læknirinn aldrei brygðist í þessum sjúkdómi. Ljónið lèt strax flá úlfinn eptir ráði tóunnar. Þegar hún sá úlfrinn var nærri dauðr sagði hún við hann: mikið ljótt er að espa kóng sinn móti þegnum hans; því gott á hvörr einn að láta af sèr leiða; en aldrei íllt.

8. *Sínum augum litr hvörr á silfrið.*

Tveir fugla-fángarar vóru á ferð; sástu, sagði annar, þann dægiliga fugl, sem sat þarna á húsinu? gættirðu' að fiðrinu á honum, svo falligan lit hefi eg aldrei á æfi minni sèð, og eg held víst það hafi verið fugla-kóngrinn; því auðsèð var, hann hafði kórónu á höfðinu. Nei, svaraði hinn, ecki sá eg hann, en eg sá einhvörs slags valskan hana, sem var mikið önugliga vaxinn. Höfuðið var ofr pervisaligt, ok líkligt að lítið vit hafi í því verið. En hvað raustin var ljót, sem fylti upp loptið með ámáttligum skrækjum svo mèr er nærri íllt í eyrunum eptir enn þá! eða gættir þú að hvað viðbjóðsligir fætrnir á honum vóru?

Það var páfuglinn, hvörjum báðir þessir vóru að lýsa: annar færði til allt hvað falligt var á honum, en hinn öll lýtin. Þannig eru mannanna dómar í veröldini ýmisligir; þeir líta hvörr á sinn kantinn.

## FRÁSAGA.

(eptir sama rithöfund.)

Kaupmaðr nockur fór til Indíalanz med konu sinni, vann sèr þar inn mikla peninga, og að nockrum árum liðnum, fór skipaleið aptr til Fracklanz, hvar hann áðr átti heima. Með honum vóru kona hans og tvö börn, piltr og stúlka. Piltrinn var fjögra ára, að nafni Jóhann, en stúlkan þrèvetur, hèt María. Á miðjum vegi rötuðu þau í storma mikla, sagði stýrimaðrinn þá að mikill háski væri fyrir hendi; því skipið ræki að eyjum, hvar það mundi brotna. Þegar kaupmaðrinn heyrði það, tók hann stóra borðfjöl, batt konuna sína og börnin ramliga þará, en í því hann ætlaði að binda sjálfan sig, steytti skipið á skeri, svo það klofnaði að endilaungu, en allir sem á því vóru duttu í sjóinn. Borðið með konunni og báðum börnunum flaut ofan á, ok rak til einnar af ey-

junum, þar leysti konan böndin, og fór uppá eyjuna með báðum börnum sinum. Það fyrsta, sem henni varð fyrir, þegar hún var komin upp úr flæðarmálinu, var að hún kastaði sèr á knè, og þackaði guði fyrir þetta frelsi; samt var hún mjög sorgbitin af at hafa mist mann sinn, og líka var hún hrædd um að bæði hún og börnin mundu deyja af húngri á þessari ey, elligar að ólm dýr mundu rífa þau í hel. Nockra stund geck hún í þessum sorgarþaunkum, en þegar hún sá fjölda af eikum, sem vóru fullar með ávexti, tók hún staur og krakaði þá ofan, át af þeim sjálf, og gaf síðan börnum sinum með sèr. Eptir það fór hún lengra áfram, að vita hvört hún fyndi ecki neinn kofa eðr mannaverk, en hún komst að raun um at þetta var eyði-ey. A vegi fyrir sèr fann hún stóra eik, sem var hol innan, og í henni ásetti hún sèr at hafa nætrvist í það skiptið. Hún var þar um nóttina með börnum sinum. Daginn eptir fór hún enn leingra fram á eyjuna, svo lángt sem þau gátu geingið; fann hún þar á vegi fyrir sèr fugla-hreiður, og tók undan þeim eggin, en þegar hún varð hvörki vör við menn nè skaðlig dýr, einsetti hún sèr að undirkasta sig guðs vilja, og ala upp börnin sín sem bezt hún gæti. I vasa sínum hafði hún nýja Testamentið og bænabók, þær bækr brúkaði hún til að kenna þeim að

lesa á, og að þeckja góðan guð. Stundum sagði piltrinn við hana: móðir mín! hvar er hann faðir minn? því lèt hann ockr fara burt úr húsinu ockar á eyjuna þá arna? ætl' hann komi ecki að finna ockr? Móðirin svaraði grátandi: börnin mín! hann faðir yckar er farinn til himnaríkis en þið eigið annan föður, sem er góðr guð; hann er hèrna, þó þið sjáið hann ecki; hann er sá sem sendir yckr ávextina og eggin, og hann mun ala önn fyrir ockr, svo leingi sem við elskum hann af öllu hjarta og hlýðum honum. Þegar börnin vóru búin að læra að lesa, lásu þau aptr með ánægju það, sem var í bókunum þeirra, og töluðu um það með degi laungum; þau vóru líka góð börn og hlýðin móður sinni.

Að tveggja ára fresti lagðist móðir þeirra í sótt, en þegar hún sá, hún mundi ecki eiga lángt eptir, varð hún mjög sorgbitin vegna barna sinna, en huggaði sig samt við það, að góðr guð mundi ala önn fyrir þeim. Hún lá í holu eikinni, kallaði börnin til sín og sagði við þau: eg mun nú innan skamms deyja, mín kæru börn! svo þið verðið þá móðurlaus, en munið samt ætíð til þess, að þið aldrei eruð einsömul; því góðr guð sèr allt hvað þið gjörið. Látið þið aldrei hjálíða að biðja hann qvöld og morgna. Jóhann minn góðr! halðu ætíð umsorgun fyrir henni systur

þinni Maríu, vertu ecki hastr við hana, og berðu hana aldrei. Þú ert stærri og sterkari enn hún, þú átt þá að leita upp eggin og ávextina handa henni. — Hún ætlaði að segja eitthvað við hana Maríu, en hafði ecki tíma til þess, því hún dó. Þessi vesælings börn skildu ecki hvað móðir þeirra meinti; því þau höfðu ecki séð hvað það var að deyja, svo þegar hún var dauð, hugsuðu þau að hún svæfi, og þorðu ecki að hafa hátt um sig, svo hún vaknaði ecki. Jóhann fór að sækja ávexti, þau systkinin borðuðu um qvöldið, og sváfu hjá móður sinni um nóttina. Morguninn eptir furðuðu þau sig yfir, að móðir þeirra svæfi svo leingi, tóku í handlegginn á henni, til að vekja hana, en þegar þau sáu, að hún svaraði þeim ecki, héldu þau henni þækti eitthvað miðr, fóru að gráta, beiddu hana fyrirgefníngar, og lofuðu að vera góð börn; en hvað sem þau til-gjörðu, má nærri geta, að móðirin gat ecki svarað þeim, þar eð hún var dauð. Þau vóru þar nockra daga, þángað til líkaminn var farinn að rotna. Einn morguninn hljóðaði María uppyfir sig og sagði: æ, bróðir minn! skoðaðu maðkana, sem eru að eta hana móður ockar góða, við skulum taka þá burt; komdu að hjálpa mér til. Jóhann kom að, en ólyktin var þá svo mikil af líkamanum; að þau gátu

ei haldizt þar við, og urðu að leita sèr upp aðra eik til að liggja í.

Þessi börn hlýddu í öllu móður sinnar ráðum, og lètu aldrei hjálíða að biðja guð. Þau lásu svo opt bækr sínar, að þau kunnu þær utan bókar, Þegar þau vóru búin að lesa, geingu þau út til skemtunar, elligar sátu saman í grasinu. Einusinni sagði Jóhann við systur sína: eg man til þess, þegar eg var dálítill, þá var eg þar sem voru stór hús og fjöldi af manneskjum, eg átti fóstru og þú líka, og faðir minn hèlt mörg hjú, við vórum þá í falligum fötum. Allt í einu lèt hann faðir minn ockr í hús, sem hljóp á vatninu, og nockru þareptir batt hann ockr á fjöl, fór sjálfr ofan í sjóinn, en hefir ecki síðan komið þaðan aptr. Það er undarligt, svaraði María; en þar það hefir skeð, þá hefir guð viljað hafa það svo, því þú veizt, bróðir minn! að hann er almáttugr, og allt skeðr þeim til bezta sem elska hann.

Jóhann og María vóru ellifu ár á þessari ey. Einusinni þegar þau sátu í fjörunni, sáu þau hvar bátr kom með mörgum svörtum mönnum. Í fyrstunni varð María hrædd, og ætlaði að hlaupa burt, en Jóhann sagði við skulum vera kyrr, systir mín! veiztu ecki að hann faðir ockar góðr guð er hèrna, og hann mun vernda ockr, svo mennirnir þeir arna gjöri ockr ecki neitt íllt. Þeg-

ar svörtu mennirnir vóru komnir á land, undruðust þeir yfir að finna þar únglinga öðruvísi lita enn sjálfa sig. Þeir flyktust kríngum þau, og töluðu til þeirra en hvörugt systkinanna skildi þeirra túngumál. Jóhann leiddi þá að beinunum hennar móður sinnar, og sagði þeim hvörnin hún hefði dáið allt í einu, en þeir skildu eckert af því. Loksins sýndu þeir únglíngum þessum bátinn, og bendtu þeim að fara uppí hann. Eg þori það ecki, sagði María, eg er svo hrædd við þessa menn. Jóhann sagði henni: vertu óhrædd, systir mín! hann faðir minn hafði þènara, sem vóru eins litir og þessir menn, kannske hann sè núna kominn heim aptr, og hafi sendt eptir ockr. Þau fóru uppí bátinn, en mennirnir rèru heim til sín, að ey þar skamt frá. Allir innbyggjararnir tóku vel á móti þeim, og kóngr þeirra starði mikið á hana Maríu, og lagði höndina opt á brjóstið, til að gefa henni þar með tilkynna, að hann elskaði hana. María og Jóhann lærðu fljótt þessarar eyjar túngumál, og urðu áskynja um að innbyggjararnir og þeir sem vóru í næstu eyju höfðu strið saman, en hvörir fyrir sig ætu upp þá sem þeir tæki til fánga, að þeir tilbæðu stóran ljótan apaköttt, sem hefði marga menn sèr til þjónustu, vóru þau því mjög sorgbitin af að vera kominn til svo vondra manna.

Nú vildi kóngrinn endiliga eiga hana Maríu, hûn sagði bróður sínum, að hûn vildi heldr deyja enn vera kona hans. Þat er af því hann er svo ófriðr, að þú vilt ecki eiga hann! sagði Jóhann. Nei, bróðir minn! svaraði hûn, það er af því hann er svo vondr. Sèr þú ecki að hann þeckir ecki hann föður ockar, góðan guð, og í staðinn fyrir að biðja hann, kastar sèr á knè fyrir óhræsis apaketti; og líka þar sem bókin ockar skipar, að fyrirgefa óvinum sínum og gjöra þeim gott, þá drepr þessi vonda manneskja stríðsfángana sína, og etr þá. Mèr kemr eitt í hug, sagði Jóhann, ef við dræpum ólucku apaköttinn; þá sæu þeir, að hann er ecki sannr guð? Við getum gjört annað betra, sagði María, bókin ockar segir að guð bænheyri þá, sem biðja hann af góðu hjarta, við skulum leggjast á knè, og biðja guð sjálfan að drepa apaköttinn, þá verðr ockr ecki kent um, og við verðum þá ecki drepin í staðinn. Jóhann fèllst á þetta; þau köstuðu sèr bæði á knè, og sögðu hátt: drottin! þú getr allt hvað þú vilt, sýndu þína gæzku í því að drepa apaköttinn, svo vesælíngarnir þessir fái að vita, að þú einn átt að tilbiðjast, en ecki hann. Þau láu enn á knjám, þegar þau heyrðu mikið ýlfur, og þegar þau fóru að spyrjast eptir, hvör orsökin til þess væri, var þeim sagt, að stóri apa-

köttrinn hefði stockið ofan úr eik, og brotið í sèr lærlegginn. Þeir svörtu menn, sem þjónuðu apakettinum, og prestar hans sögðu kónginum, að María og bróðir hennar væru orsök í þessu óluckutilfelli, og landið gæti ei orðið luckuligt, fyrr enn þessar hvítu manneskjur vóru búnir að tilbiðja þess guð. Strax var úrskurðað, að offur skyldi færast apakettinum, sem var nýútvalinn til að vera goð, að hvítu systkinin skyldu vera þarvið, og María ekta kóng þeirra, en ef þau vildu ecki gjöra þetta, þá skyldi brenna þau bæði lifandi, ok bækrnar þeirra með, sem þau hefðu brúkað til galdra sinna. Þegar María heyrði þenna dóm, og að prestarnir báru uppá hana, að hún hefði drepið apaköttinn svaraði hún þeim: hafi eg látið apaköttinn yckar deyja; þá mætti eg vera mektugri en hann, og væri heimska að tilbiðja það, sem ecki er æðra enn eg. Sá verðr að lúta, sem lægri hefir dyrnar; því ætti apaköttrinn miklu heldr að tilbiðja mig, enn eg hann; samt vil eg ecki ganta yckr, því ecki hefi eg drepið hann: en minn guð ræðr yfir öllum sköpuðum skepnum, og án hans leyfis getið þið ecki tekið eitt hár af mínu höfði. Af þessu espuðust hinir svörtu, bundu Maríu og bróður hennar á borðstúfa, og ætluðu að brenna þau; en í því kom fjöldi

fjandmanna

fjandmanna á eyjuna. Innbyggjararnir hlupu til að verja sig, (en) urðu yfirunnir. Þeir aðkomandi hjuggu fjöturinn af báðum hvítu systkinunum, og fluttu þau til sinnar eyjar, hvar hann varð þræll en hún ambátt hjá kónginum. Þau þrælkuðu frá morgni til qvölds og sögðu: að elskunni til guðs eigum við að þjóna trúliga húss-bónda ockar, og halda það sé drottin, sem við þjónum; því bókin ockar skipar ockr það.

En þessir svörtu menn áttu í stríðum, og átu stríðsfánga sína, eins og þeir sem þau fyrr höfðu verið hjá. Einu sinni náðu þeir mörgum, sem þeir tóku til fánga og meðal þeirra var einn hvítr maðr, en vegna þess hann var skin-horaðr, ásettu þeir sér að ala hann fyrst, aðr enn þeir slátruðu honum. Þeir höfðu hann bundinn í einum kofa, og skipuðu Maríu að færa honum matinn. Vegna þess hún vissi, að hann var ætlaðr til slátrunar, aumkaðist hún yfir hann, leit hálfgrátandi til hans, og sagði: æ! guð minn faðir! miskuna þú þig yfir hann. Þessi hvíti maðr hafði í fyrstunni undrazt yfir að sjá þar eins lita stúlku og hann var sjálfr, en meira brá honum við, þegar hann heyrði hana tala sitt túngumál, og biðja einn sannan guð. Hvörr hefir kent þér að tala frönsku, sagði hann, og að þeckja góðan

guð? Ecki veit eg hvað túngumálið heitir, sem eg tala, sagði hún, það var málið hennar móður minnar, hún kendi mèr það; en hvað góðan guð áhrærir, þá höfum við hann bróðir minn og eg tvær bækr, sem tala um hann, og við lesum bækrnar ockar á hvörjum degi. Æ, drottin minn! sagði maðrinn, og fórnaði með höndum og augum til himins, ætli það geti verið möguligt? En, stúlka mín! getr þú sýnt mèr bækrnar, sem þú ert að tala um? Eg hefi þær ecki hjá mèr, sagði hún, en eg skal fara og finna hann bróður minn, þær eru hjá honum, hann skal sýna þèr þær. Hún fór strax burt aptr, en innan skamms kom Jóhann og hún aptr með báðar bækrnar. Þessum hvíta manni var mikið niðri fyrir, lauk þeim sem fljótast upp, og þegar hann sá á saurblaðið skrifað: þessa bók á eg Jóhann Máuritíus, kallaði hann uppyfir sig og sagði: æ! mín elskuligu börn, eg er faðir yckar, komið þið og kyssið mig, æ! getið þið sagt mèr góðar frèttir af henni móður yckar? Þegar Jóhann og María heyrðu þetta, köstuðu þau sèr í fángið á hvíta manninum, og grètu af gleði. Loksins sagði Jóhann: hugrinn minn segir mèr að þèr sèuð faðir minn, samt skil eg ecki hvörnin það getr verið; því hún móðir mín sagði mèr, að þèr hefðuð dottið ofan í sjóinn, og nú veit eg að það er ecki

möguligt að lifa niðrí sjónum eða komast þaðan. Satt var það, eg datt í sjóinn, svaraði maðrinn, þegar skipið ockar klofnaði í sundr, en eg náði fjalarbroti, og komst luckuliga til einnar af eyjunum, en hugsaði þið hefðuð drucknað. Þá sagði Jóhann honum frá öllu því, sem hann mundi til, og grèt hvíti maðrinn mjög, þegar hann frètti lát konu sinnar. María grèt hástöfum, en það var af öðru tilefni. Æ! sagði hûn, til hvörs var ockr að finna hann föður ockar aptr, úr því á að drepa hann og eta innan fárra daga? Við skulum brjóta af honum fjötrana, sagði Jóhann, og strjúka síðan öll þrjú í skóginn. Og hvað eigum við að gjöra þángað, mín vesælings börn! sagði Jóhann Máuritíus? Annaðhvört ná ockr svörtu menninir, elligar við meigum deyja af húngri. Lofið þið mèr að ráða, sagði María; eg veit það meðal, sem dugir til að frelsa yðr. Í því hûn endaði þessi orð, fór hûn burt og til kóngsins, kastaði sèr fram fyrir fætr honum og sagði: það er stór velgjörð, sem eg ætla að biðja yðr um, villð þèr lofa mèr að veita mèr þá mína bæn? Eg sver þèr það, sagði kóngrinn; því mèr líkar hvörnin þú þjónar. Hana þá! sagði María, þèr skuluð vita, að sá hvíti maðr, sem eg á að færa mat, er faðir minn og hans Jóhanns. Þèr hafið ásett að hafa hann yðr til borðs, en eg kem að

segja yðr að hann er bæði gamall og magr, svo það verðr ecki einn góðr biti af honum. Þessvegna vona ég, að þér munið heldr vilja eta mig í hans stað; því eg er úng og feit, og bið ecki utan um viku frest, svo eg geti kynzt við hann á meðan, áðr enn eg dey. Mikið góð stúlka máttu vera, svaraði kóngr, og það er lángt frá mèr, að eg vili drepa þig; lifðu, þá og hann faðir þinn líka. Eg get þar að auk sagt þèr, að á ári hvörju kemr hingat eitt skip fullt af hvítum mönnum, til hvörra við seljum ockar fánga. Innan skamms er von á þessu skipi, og þá skaltu fá leyfi til að fara með því.

María þackaði kónginum mikiliga, og í hjarta sínu þáckaði hún góðum guði, sem hefði inngefið kónginum meðaumkun með henni. Hún hljóp með þessi góðu tíðindi til föður síns; og nockrum dögum siðar kom skipið, sem kóngrinn hafði nefnt við hana; með því fór hún, faðir hennar og bróðir. Þau komu að stórri ey, sem spanskir bjuggu í, þegar höfuðsmaðrinn á eyunni heyrði þessa sögu, hugsaði hann með sjálfum sèr: þessi stúlka á ecki eitt fiskvirði, og mörg kann að vera bragðfegri, en hún er svo góð og dygðaudug, að hún gæti gjört ektamann sinn lángtum luckuligri heldr enn önnur fríð og rík. Hann hóf þessvegna bónorð sitt til hennar hjá föður hennar, sem gaf samþycki

til ráðahagsins. Höfuðsmaðrinn giptist henni Maríu, og seinna gaf hann Jóhann til ekta eina frændstúlku sína, svo þau lifðu luckuliga á þessari ey, og dáðust að guðs speki og forsjón, sem lèt Maríu verða ambátt og hrekjast frá einum mannætunum til annara, til þess hún gæti fengið tækifæri að frelsa líf föður síns.

---

## PREDIKAN

(úr postillu Jóns biskups Vídalíns).

*Guðspjallið*, Lúk. 7. Kap.

Í *þann tíma, og það skeði svo eptir það, að Jesús geck til þeirrar borgar, sem kallast Naïm, og hans lærisveinar geingu margir með honum, og mikill fjöldi annars fólks. Þá er hann tók að nálægjast borgarhliðið, sjá þú það framliðinn maðr var borinn út, einka sonr sinnar móður, og hún var eckja, og mikill fjöldi borgarmanna geck út með henni. Enn þá eð drottinn leit hana, hrærðist hann miskunar yfir henni, og sagði til hennar: grát þú eigi. Og hann geck þar að, og áhrærði kistuna, enn þeir sem báru stóðu við, og hann sagði: þú úngmenni! eg segi þèr rís þú upp. Og sá settist upp sem framliðinn var, og tók til að mæla, og hann gaf hann aptr sinni móður. Enn allir urðu óttaslegnir, lofuðu guð og sögðu: spámaðr mikill er á með-*

*al vor upprisinn, og guð hefir vitjað síns fólks. Og þessi saga barst út af honum, um allt Gyðíngaland, og um öll kríngumliggjandi hèröð.*

## *Exordíum.*

Skömmu áðr enn drottin gjörði þetta mikla kraptaverk, sem þessa dags Evangelíum hermir oss, þá flutti hann þá ágætu prèdikun fyrir lýðnum, rem rituð stendr í nærst fyrirfarandi kapítula, hver og er af Matthæo uppteiknuð í hans guðspjalla 5. kapítula. I henni standa meðal annara þessi orð: *sælir eru þeir sem harma, því þeir munu hlæja.* Matthæus segir oss það á þenna hátt: *þeir skulu huggaðir verða*, sem er allt hit sama; því *þar heyrir eingin sorg til at gjöra sig glaðan*, segir orðtækið, og einginn hlær, nema honum sè glatt í hug, og glaðr er einginn, nema hann huggaðr sè. það er addáanligt að hugleiða, hvernveg frelsarinn á dögum holdsvistar sinnar hefir vísliga hagað síns embættis útrèttíngum, margt það sem að í greindri prèdíkun stendr, það er gagnstætt holdi og blóði, hverju að *öll typtan þykir sorg og eingin gleði að vera, meðan hún áliggr (Heb. 12.)*, og gætir ecki þess að eptirá gefr hûn friðsamligan ávöxt rèttlætisins: enn til þess, að hinn góði meistari færði sönnur á mál sitt, þá gjörir hann sèr ferð úr Kapernaüm til borgarinnar Naïm, til að styrkja með þessari jarteikn hvað hann áðr talað hafði. Einginn skal meina að þetta hafi skeð af hendíngu, að drottin mætti þessari líkför, heldr fyrir því hann vissi alla hluti, þá hefir sá án efa verið tilgángrinn, sem nú hefi eg áðr sagt, og þar að auki að gefa öllum sorgbitn-

um eckjum og munaðarlausum eitt æfinligt huggunarinnar dæmi, og fullrar vonar og trúnaðartrausts um sína hjartgróna miskunsemi yfir þeim, að *hann vill vera faðir föðurlausra, og forsvar ecknanna*, og fyrir því að þetta heilaga guðspjall er næsta gleðiligt að hugleiða, fyrir alla þá sem þreyja eptir astvini sína, sem þeim í lífinu hafa til gleði og aðstoðar verið, þá vil eg af því tvent yfirvegà: 1. *hvað eckjurnar eigi að hugga sig við í sínum einstæðingskap*, 2. *hvað þeim eigi til huggunar að verða, er missa börn sín, jafnvel á únga aldri.* Enn þú, sem ert faðir yfir allt það sem börn kallast bæði á himni og jörðu, styrk þú mál mitt, og tilbú svâ hjörtu barna þinna, að þetta þitt eyrindi megi vel takast, í Jesú nafni, amen.

## *Utleggingin.*

Hèr stendr í guðspjallinu um móður þessa úngmennis, að hûn hafi eckja verið, það stand hefir jafnan haldið verið aumt og óskemtiligt, sem og að líkindum lætr. Davíd veit varla annað líkara að óska, hvert heldr sínum eðr guðs óvin, enn að börn hans skuli verða munaðarlaus og hans qvinna eckja, *Vorir ómagar eru föðurlausir, og mæður vorar svo sem eckjur*, segir Jeremías í harmagrátnum. Nú er það víst, að slíkt er reiðiteikn drottins á stundum, og straff syndanna, eins og hvert annað mótlæti, enn hvergi nærri alltið; því varla er nockurt stand í heilagri ritníngu umgetið, sem hinn almáttugi vill heldr taka í forsvar, enn eckjudóminn; því fyrir utan það, að hann vill sjálfr vera þeirra forsvar

og fæða þær, þá hefir hann sèrílagi gefit þeim verndar-brèf i sinu lögmáli á þenna hátt: *eingri eckju eðr ómyndugum skaltu þjáníng gjöra, ef þú sýnir hónum þjamíng nockra* (*því ef hann að eins kallar til mín, á vil eg bænheyra hann*); *þá skal mín reiði brenna, og eg skal slá yðr í hel með sverði; svo skulu yðar konur eckjur verða, og yðar börn föðurlaus* (Exód. 22.); og enn segir hann: *eckjunni og ómyndugum skaltu eingan skaða gjöra.* Hefir hann ecki skickað þeim sinn hlut af tíundunum (Deut. 14)? Býðr hann ecki at kalla þær framar öðrum til almenniligrar máldryckju fyrir drottni (kap. 16)? Já, hann hefir sèrílagi umboðit valdstèttinni, að þeir skuli *dæma mál hins únga manns og forsvara eckjuna* (Esa. 1.), jafnvel þótt eg ætli að varla sè nockru guðs boðorði miðr hlýdt enn þessu af summum mönnum. Oskandi væri, að ei fyndust þeir, eð sjálfir *hafa eckjurnar fyrir fè, og gjöra þær sèr að ráni*, svo sem Esaias að orði kemst (kap. 10.), hefnast á þeim og þeirra munaðarlausum börnum, ef þeir þóktust eiga föður þeirra nockrar heiptir að gjalda, enn feingu ecki stolið hefndinni frá guði á meðan hann lifði; svoddan er hin mesta löðurmenska, sem [einn] hugprúðr tyrki ei vildi verða fundinn að, og þó skammast ecki sumir kristnir menn sín að æfa þetta blygðunarlaust, svo hoppa þessir mýslíngar á einu dauðu leóni, sem þeir þó ecki þorðu að geispa á móti, á meðan það hafði munninn opinn; lítið muna þeir til hinnar skelfiligu bölvunnar, er drottin leggr yfir þá, sem umhverfa rètti eckjunnar (Deut. 27.)

27.) eðr hins, að ritníngin telr það með hinum helztu orsökum hinnar babýlonisku herleiðíngar, að þeir dæmdu ei málefni eckjunnar, (Jer. 22). Nú vil eg sleppa þessu, enn hverfa aptr til hins, er eg skildist við: þessi qvinna var eckja, líklegt er að maðr hennar hafi burtkallazt á sínum bezta aldri, hvað ſar af ráða má, að hann hafði henni eptirlátið einn einasta son, sem að enn þá var úngmenni, þetta var stór sorg, hverja hún gat ecki dulið; því sagði frelsarinn við hana: "*grát þú ecki!*" og þetta mótlæti hennar var svo mikið, að bæjar-menn sampíndust henni, því segir í textanum: *að mikill fjöldi þeirra hafi geingið út með henni.* Lærum það af þeim, að gráta með grátendum, og hafa meðaumkun með þeim er er í slíkar raunir rata, svo gjörði hann, sem bezt kann að sampínast eymdum vorum; því guðspjallið segir: *að þegar drottin leit hana, þá hrærðist hann miskunnar yfir henni*, og fáum vèr jafnan orsök þartil, því ecki líðr á stundum lángt á millum þess, að svoddan tilfellr, mörg voluð eckja á þvílíkt til brunns að bera. Enn út af þessari meðaumkun frelsarans taki eckjurnar sèr hina mestu huggun, strax sem hann sá þessa sorgandi konu, þá hrærðist hann af *innstu meðaumkun*, segir textinn, ecki gjörir hann það síðr nú, heldr enn þá hann umgeckst í voru holdi, sem nú er upphafinn til kraptarins hægri handar, hann hefir lykil lífsins og dauðans, barn mitt! hafi því dauðinn gripið hendinni inn í hús þitt, og veitt þèr eitt mikið sár, þar hann hefir tekið helmíng þíns hjarta burt, og gjört börn þín

munaðarlaus, þá vit, það er ecki skeð án hans ráðstöfunar, einga makt hefði dauðinn haft yfir þínum kæra ektamanni án hans leyfis, í hvers hendi að er öll lifandi sál; auðmýk þig þess vegna undir volduga guðs hönd, og seig með David: *eg varð mállaus, og talaði ecki, af því þú gjörðir það;* sèrdeilis þar þú hefir þó ecki tapað þínum ektamanni; meina ecki, barnið gott! að sjálfr gæzkunnar brunnr sè eins lyndr ok sumir óþockar í heiminum, þeir eð aptr taka það er þeir gáfu, heldr vil ek hèrum segja eins og Páll sagði um Onesímum við Phílemónem: *hann er um stundar sakir viðskilinn, svo þú haldir honum eilífliga;* hann er ecki dauðr, að því leiti sem viðkemr sálunni, því guð Abrahams Isaacs og Jacobs, hann er ecki guð dauðra heldr lifendra, segir frelsarinn, þarfyrir er hann ecki dauðr, heldr kallaðr frá dauðanum til lífsins, frá volæði þessa heims, til eilífrar sælu, frá selskap vondra manna til samfèlags heilagra eingla, já, hann er heldr ecki dauðr, það líkamann áhrærir, heldr sefr hann, svo sem drottin sagði um höfðíngjans dóttur. Það stendr æfinliga stöðugt, er frelsarinn sagði: *hver sem trúir á mig, það skal skè, að þótt hann deyi, þá skal hann samt lifa;* þarfyrir, þótt [að] það sè nátturligt, að syrgja ástvini sína, þá er ecki svo stór orsök þartil, því vèr höfum ecki mist þá, heldr eru þeir undan oss farnir í eilífa sælu, en líkaminn hvílist af erviði sínu inn til þess dags að drottin uppvekr hann, og gjörir hann einglunum jafnan, já samlíkan sínum dýrðligum líkama (Phil. 8). Nú er það víst, að eckert guðs barn mis-arm

sínu ekta-hjarta þvílíkrar sælu, enn það er veikleiki vor, að menn syrgja sinn eigin hag, og sinna eptirlátinna, þeinkjandi meir á hit nærveranda, enn hit eptirkomanda. Enn hugsa til þess, barn mitt! at guð hefir kannske þinn ektamann í burtu tekið til sinnar dýrðar, uppá það þú skyldir hafa allt þitt traust, alla von, alla gleði og unaðsemd í sèr einum, og fögnuð af því, að sjá og reyna sína náð á þèr; og við þig og þína, nær öll mannlig hjálp er úti. Gjör svo, þaraf hefir þú tvefalda nytsemi: þá einu, að þín sála gleðr síg í guði heilsugjafara þínum, hver fögnuðr að yfirgnæfir allan skilníng, og drepr alla sorg, allt mótlæti gjörir hánn lètt; hina aðra, að á meðan þú ert svo skapi-farin, þá er það festibrèf uppá guðs ríki, það er pantr þess, að þú munir fagna með þínum ekta-manni í himneskri sælu, eilífligana með guði og hans heilögum. Lát því sjá, að þú tileinkir þèr það sem drottin segir við Israel, (Esa. 54): *sá sem hefir skapað þig, hann er þinn maðr, drottin Zebaoth er hans heiti, og þinn lausnari, sá heilagi í Israel, hvern öll veröldin guð nefnir.* Hvarfyrir grætr þú, og því ber þitt hjarta sig svo illa? Er eg; þèr ecki betri enn tíu syner? sagði Elkana við konu sína Önnu, (1. Sam. 1.) og hvað miklu betri er þá guð himnanna, heldr enn [einn] dauðligr maðr, vili hann gánga þèr í manns stað, hvaða nauð hefir; þú þá? Hann er nógu vís til að ráðleggja þèr, nógu ríkr til að forsorga þig, nógu máttugr til að forsvara þig, nógu gæzkuríkr til að hugsvala þèr; hvers viltu framar æskja? Eckjur og munaðarlausir hafa stóran rètt í himninum, svo

sem áðr er sagt. Þegar drottin leit eckju þessa, þá hrærðist hann af innstu meðaumkun yfir henni; hûn hefir kannske ecki þeckt drottin, eðr ecki sèð hann, því sorgandi manneskjur geingu með huldu höfði hjá Gyðíngum, hûn hefir og ecki orði útkomið fyrir harmi, svo hûn gæti beðit hann, og þó gat ecki brunnr gæzkunnar haldit sèr, hans hjarta brast í honum, svo hann hlaut henni miskunsamr að vera, strax sem hann leit eymd hennar, með einu orði, einu atviki þurkaði hann öll tárin af augum hennar. Þegar Þær Rúth og Naemí voru aldeilis munaðarlausar, þá sendi guð þeim Bóas, þegar eckjan í Sarepta og hennar sonr voru aðkomin dauða í atvinnuleysu, þá bað guð Elíæ að bæta brest hennar, mun hans hönd ennú stutt vorðin? Er honum nockut aptr-farit, síðan hann er hafinn yfir alla himna? Nei, nei, útrètt er hûn ennú í dag til allra þeirra sem á hann vona, og þótt hann reyni sína á stundum, þá efist einginn um sannsögli hans, eðr ætli sig yfirgefinn, hann gat haldit manni þessarar eckju við lífið, hann gat læknað son hennar á banasænginni, enn hèr færði drottin sönnur á mál sitt, er hann skömmu áðr talað hafði, að sælir væru þeir sem harma, þvíað þeir muni huggaðir verða, því miklu meiri var fögnuðr þessi, að hann gaf henni aptr son sinn, sem dauðr var, heldr enn þótt hann hefði læknað hann dauðsjúkan. Lát þèr því til hugar koma, guðs barn! að þótt dauðinn hafi slitið það einíngarinnar band, sem hefir bundið hjarta þitt við guð, hver alleina hefir ódauðleikann, hver og hefir trúlofat þig sèr að eilífu, í náð og miskunsemi, í rèttlæti og í dómi, ef þú

elskar hann; þá er ecki að ugga hans elsku til þín; hann mun þá vera hjá þèr í neyðinni, og fèr þaðan útryckja, allar þínar andvarpanir heyra, öll þín tár reikna, og hella þeim í sinn sjóð, og síðan afþurka með eilífri gleði, og þótt [að] þú megir sjá á bak þíns kæra ektamanns um hríð, þá er það stutt hjá eilífðinni, hvar þið munuð um aldir alda samfagna, án nockurs qvíða fyrir því, að skiljast framar. Seig því ecki, eg er af öllum forlátin, meðan þú hefir ecki guð forlátið, mun hann þik aldri forláta, treyst því að fullu, að það, sem drottin segir við kristnina, hjá Esaíam (kap. 54.) það vill hann til þín sagt hafa: *svo sem eina forlátna konu og sorgbitna, þá kallar drottin þig aptr; fyrr skulu fjöllin úr stað víkja, og þessar hæðir niðrfalla, enn að mín náð víki frá þèr, eðr minn sáttmáli niðrfalli, segir drottin þinn miskunnari;* já, *hann sem er trúr, og sjálfum sèr ei kann að neita*, segir postulinn. Öll umsorgun og umhyggja búskaparins liggr nú á þèr, síðan guð tók þinn mann frá síðu þinni, hugsa til þess er Davíð segir, guð leggr oss eina byrði uppá, enn hann hjálpar oss at bera, vantreyst honum ecki, sem bar allann Israel í eyðimörkunni, *svo sem ein móðir ber sinn son*, segir Móyses, eðr hans syni, hver eð ber alla hluti með orði síns kraptar, að hann geti ecki hjálpað þèr, til að bera það hann hefir sjálfr þèr á herðar lagt, haf þína unaðsemd í honum hann hefir lofað að gefa þèr hvað þitt hjarta girnist, finnist þèr byrðin þúng, þá varpa allri þinni áhyggju uppá hann, sem því mun vel til veg-

ar koma: og er það nú svo um hit fyrra út-talað.

Hvað hinu síðara viðvíkr, þá reyna menn það optliga, að foreldrunum felst ecki minna um það, nær þeirra börnum verðr fyrir tímanlegan dauða burtu-kipt, heldr enn þó að hvert misti annars, sèrdeilis ef það eru einka börn, svo sem hèr á stóðst, *því hann var einka sonr sinnar móður*, segir í textanum; og þar að auki, ef að þvílík börn eru líklig til gæfu, og menníngar, svo þau gæti síðan guði og föðurlandinu með sæmd og æru þjónað, og ecki verðr því móti-sagt, að stór hörmúng lá á qvinnu þessari, þar dauðinn hafði rænt hana fyrst sínum hjartkæra ektamanni, og þó á hans bezta aldri, og þar að auki sínum einasta syni, einnveg í sínum æsku-blóma, hver án efa hefir verið hennar einasta yndi og aðstoð í hennar munadarleysu, enn það eykr miklu hèr á, að það var eitt brixli haldit á þeim dögum fyrir qvinnurnar, að láta ecki sæði eptir í Israel, því allar girntust að vera mæður að Messía, og ecki hefir það einasta lægíng þókt óbyrja að vera, heldr og hitt ein stór sorg, að missa börn sín, og eiga kannske ecki von til annarra: það sè eg á dæmi hinnar súnamítisku, er sagði við Elísæum, nær sonr hennar lá andvana, *beidda èg minn herra nockuð um son? sagða èg ej: pretta mig ecki?* svo sem hefði henni þókt sá kostr lèttari, aldri að hafa barn fædt, heldr enn að syni hennar hefði verið í burtu svipt, og má sá vera af járni giör, sem ecki vorkennir þeim svoddan mótgáng, sèrdeilis, þar guðs andi setr oss þetta

til dæmis um hina mestu sorg, þar hann segir, (Amos 8.) *að harmqvæli Gyðinga skuli verða eins og harmr eptir einn einasta son;* því er svoddan mjög náttúrligt og eingum að lá, þó skulu kristnir menn haga sèr í þessu svo sem guðs börn, og láta hann ráða, sem alls ráð á bæði á himni og jörðu. Hinar sömu röksemdir skal að sönnu til þess hafa, að bæta sorg sína í þessu tilfelli og hinu, er í fyrri greininni var umtalað; seig mèr, kristinn maðr! hefir þú ecki barn þitt af guði öðlazt? svo segir David, (Ps. 127) *börnin eru guðs gáfa, og lífsins ávöxtr er einn skeinkr.* Þau eru ecki svo aldeilis vor börn, að þau sèu ecki miklu framar hans, sem er faðir yfir öllu því er börn kallast bæði á himni og jörðu; því nær hann gaf oss þau, þá gaf hann þau með þeim skilmála, að honum væri frjálst að taka þau til sín nær hann vildi, eða gjörum vèr ecki svo hver við annan? þótt einn láti barn sitt til vinar síns um stund, mun það ecki standa í hans valdi, að láta það til sín aptrhverfa, nær honum líkar, ætlumst því ecki til, að guð muni hafa minni rètt yfir oss, og börnum vorum, enn vèr þykjumst yfir þeim hafa, seig því mitt í sorginni, mitt í harminum eins og Job, hvern guð svipti ecki einasta öllum börnum sínum, heldr og allri aleigu sinni í einu vetfángi: *guð gaf, og guð aftók, sè nafn drottins blessað!* Ef þú ert guðs barn (því fyrir þeim vil eg sèrílagi þetta talað hafa); ef þú ert sjálfr guðs barn, segi eg, þá veit eg, að þèr hefir umhugað verið, að fela þessa guðs gáfu honum sjálfum á hendr, að barn þitt mætti hans miskunnar ok forsjónar í öllu

njóta; enn allra helzt muntu hafa umhyggju borið fyrir þess eilífri velferð, að það mætti guði sem kærast vera, og sem mest varðveitt fyrir andskotans, heimsins og holdsins vèlum, hèr um muntu guð beðið hafa í öllum bænum þínum meir enn um lánga lífdaga; seig mèr, hefir þá guð ecki bænheyrt þig, er hann hefir tekið það burt úr þræl dómi heimsins í sælu himinsins, frá umsátrum djöfulsins til guðs barna frelsis, frá ofríki holdsins, til þíns og þess föður ríkis, hvar það mun skína svo sem sól um aldir alda. Þèr skilst þetta lítt kannske, á meðan sorgin er sem bráðust, enn lát þá svo sem Kristr segi við þig hið sama, er hann sagði við Pètur fordum, þá hann ei vildi láta drottin þvo fætr sína: *hvað eg gjöri, það veiztu ecki nú, enn þú munt það síðar þeckja.* Þèr mundi vænt um-þykja, þú mundir af hjarta glaðr verða, ef guð gæfi þèr barn þitt aptr, eins ok eckju þessari, enn eg vil svara þèr eins og hann svaraði þeim í Nazareth fordum: *margar eckjur voru á dögum Elíæ, enn til eingrar var Elías sendr, nema til eckjunnar í Sarepta í Sídons landi.* Guð veit hvað hann vill gjöra, eckert gjörir hann til ónýtis. Tilgángr drottins í þessu kraptaverki er auðsèn, fyrst er sá, að hann sýndi bæði þèr og öllum sorgbitnum, að hann bæði vili og kunni að sampínast eymdum þeirra; hinn annar, að hann auglýsti það hann guð væri, sem að hefir vald yfir dauðanum, því þessi var hinn fyrsti af hinum dauðu, er hann uppvakti á sínum hèrvistar dögum, enn síðan að hann hefir hvörttveggja þetta með mörgum rökum staðfest,

hver

hver nauðsyn ber þá til þess, að hann umbreyti sínu lögmáli? þótt þú mættir þann kost eiga, að barn þitt hvyrfir aptr í veröldina, hvílík fávizka væri það, að selja ríkdóm fyrir armóð, heilbrigði fyrir sjúkdóm, gleði fyrir sorg, og hina allra sætustu ró og hvíld fyrir allskonar andstreymi og erfiði, það væri að hata, og ecki að elska barn sitt, ef rètt er álitið, sèrdeilis þar hinir utvöldu guðs, sem í drottni dánir eru; þeir lofa guð óaflátanliga fyrir sína endrlausn í himninum, því skyldu menn þá syrgja þeirra burtför af heiminum, allra helzt þar vèr höfum eckert mist, heldr undan oss sendt, og munum finna eitt heilagt barn fyrir syndugt, ódauðligt fyrir forgeingiligt, og einglunum samjafnt fyrir það sem áðr var þó ecki nema mold og aska, leifið því börnum yðar til drottins að koma, kristnir menn! og bannið þeim það ecki, og segið eins og Baruch við hina herteknu í Babýlon, *eg hefi látið yðr burt með harmi og gráti, enn guð mun skila yðr mèr aptr með gleði og fögnuði eiliflíga.* Eg veit að mörgum er það stór harmr, að missa eitt einasta barn, sem var gæfuligt, og vel að sèr um alla hluti, enn hugleið þó kristinn madr! að guð gaf sinn eiginn og einasta son út fyrir þig, í hverjum hann alleina hefir sína velþóknan, ecki til að baða í rósum, heldr til þess, að ecki hefði hann þar hann mætti höfði sínu halla að; ecki til að láta sèr þjóna, heldr til að þjóna öðrum; ecki til að lifa í sælu nockri, jafnvel þótt hann mætti þá vel sælu hafa, heldr til að þola krossinn: þetta gjörði hann, sem þèr var um eckert skyldugr;

ójafnt hafizt þið að, þú semj ert honum skyldugr bæði um þig og barn þitt, að þú ángrast af því, að hann flutti það í eilífa sælu, sem hans sonr hefir því með sinni qvöl afrekað; hversu gjörfugligt, sem það var, það var þó aldri svo vegligt, svo sem hinn fríðasti meðal mannanna barna, ef guði og föður þókti hann ecki ofgóðr í qvalirnar, hvar fyrir skyldi, þèr þá þykja sonr þinn ofgóðr til dýrðarinnar, þú vildir hafa honum stór-fè eptirlátið í veröldinni, mun það vera betra enn hans arfahluti á landi lifandi manna? Misjafnt fer um arfana hèr í veröldinni, enn Pètur segir oss *að þessi arfr skemmist ecki*, Nógir eru erfíngjarnir, þótt einn deyi barnlaus; sèu ecki aðrir, þá er föðurlandit, þá eru guðs volaðir, gjör þeim gott meðan þú lifir, og hefir þú fèsjóð á himnum. Sonr þinn dó burt í sínu æsku-blómi, enn einginn veit æfi sína, fyrr enn öll er. Vor fyrsta móðir fagnaði nærsta mjög hinum fyrsta manni, sem í heiminn var fæddr, enn það vildi ecki svo rekjast úr fyrir honum. Elí höfuð-prestr lèt dátt að sonum sínum, þó voru þeir skálkar. Vænt þókti Davíð um Absalon; hvernveg hann launaði honum það er alkunnigt; þú þykist vita, að ei var barni þínu hætt við slíku; svo er það, hverjum af oss þykir sinn fugl fagr; enn þegar að guð hefir að fullu ráðið son þinn sèr til handa, þá hefir hann tekið þessa umsorgun af þèr, hann er þángað kominn, hvar hann ecki skal vega sinn bróður, ecki vanvirða guðs þjónustu, og ecki gjöra uppreist í móti föður sínum; þú vildir hafa sett hann til menta, að hann lærði alla heims-speki og öll túngumál; heyr mèr

guðs vinr! eingin er þvílík speki sem að deya vel, ok þar að á öll speki að lúta, annars er hûn ónýt: hann kunni ecki svo margar túngur sem þú vildir; þótt hann kunnað hefði, mundi það hafa gagnað honum til himnaríkis? þacka guði að hann er þángað kominn, *hvar túngumálunum slotar, enn kærleikrinn varir eilífliga.* Nógr vísdómr er það, að hann þeckir guð, svo sem hann er af honum þecktr, og talar einglanna túngu. Aðgreiníng túngumálanna er straff syndarinnar, enn það er náð guðs, að *túnga hinna málhöltu skal tala rètt,* (Esa. 32.). Svo veit eg og að hver útvaldra mun skilja annan, og að þetta fullkomnast í himnaríki; þar skal ecki barn mitt þola mörg högg fyrir sinn lærdóm, eðr óttast fyrir, hvert það muni vinna eðr tapa í einu þrætumáli, ecki heldr æra sig í reikníngi stjarnanna, eðr mælíngu himinsins, nær þær ero dottnar, enn hann sammanvafinn eins og annað klæði (Heb. 1.), jafnvel þótt menn verði að flækjast við þenna hègóma eptir náuðsyn spillíngarinnar háttalags. Þú meinar að guð sè þèr reiðr, af því hann leyfði þèr ecki að uppala það er hann svo vel skóp, sínum bræðrum í heiminum til nota og gagnsemdar; gef þig til friðs, barn mitt! þacka guði, að þú með hans aðstoð hefir uppalið það til himnaríkis, hann á margan góðan, lát hann sorga fyrir löndum og lýðum, sem það leingst hefir gjört. Svo hyggið nú að þessu, kristnir menn! hver í sinn stað, látið hann ráða sem ráða á, og aldri ræðr sínum börnum nema til hins bezta, og ætlizt ei til, að þèr sjáið betr fyrir yðar ráði eðr barna yðar og ástvina, heldr enn hann, til hvers

að bæði yðr og þeim er varpað alt í frá móðurlífi. Enn þú eilífi faðir! sem ecki einasta talið hefir alla daga vora heldr og öll vor höfuðhár, kenn þú bæði foreldrum og börnum, að hugsa það vèr hljótum að deya, svo vèr forsjálir verðum, ok að aldri lifum vèr svo sem ættum vèr í þessu volæði æfinliga að lifa; heldr gef þú oss, sem ert guð lífsins og dauðans, að hvert vèr lifum eða deyum, þá sèum vèr drottins. Bænheyr það, drottinn minn! fyrir Jesú pínu og dauða, og gef oss þar til styrk heilags anda! amen, í Jesú nafni amen.

---

## Prèdíkan

af

## Sra. ÁRNA HELGASÝNI,

*núverandi Dómkyrkjupresti í Reykjavík, haldin þ. 20. sunnúdag eptir Tr.*

1814.

Vèr höfum nýliga útendað sumar blítt og æskiligt, vèr höfum á því meðtekið margan vott þinnar grunnlausu gæzku, himneski faðir! þú þeckir bezt með hvörjum tilfinníngum vèr minnumst þeirra hvör og einn af oss, hvaða verkun þær hafa á vor hjörtu. Vèr horfum fram á þann nýbyrjaða vetur og væntum þinnar gæzku ogsvo á honum, því öll þín breytni við oss er náð og gæzka; gef oss þá, himneski faðir! að

taka svo öllu sem oss mætir. Vèr felum Þèr vor kjör, en biðjum Þig styrkja oss til Þess að gæta dyggiliga allra Þeirra skylduverka, sem tíminn og kringumstæður leggja oss á herðar, og vor unaðsemd sè í Því innifalin að gera Þinn vilja og halda oss til Þín. (*Guðspjallið*).

"*Allir hlutir hafa sinn tíma, og allt áform undir himninum hefr sína stund*" Þannig kemst sá vísi konúngr Salomon að orði, og Þó hèr sè ei annað sagt, enn Það sem hvör aðgætinn maðr veit, og svosem Þreifar á dagliga, var honum ei óverðugt að láta eptir sig uppteiknuð Þessi sannmæli. Allir hlutir hafa sinn tíma, segir hann; ef vèr lítum til náttúrunnar ríkis svo verðum vèr Þess strax áskynja, að allir hlutir í henni hafa sinn tíma, alt er bundið við vissa reglu, og Þessi regla hagar sèr eptir tímanna umskiptum. Á vorin er tími til Þess að sá náttúrunnar kraptr, sem prýðir vora jörð með allsslags grösum, og lætr hana verða færa um móðurliga að ala sín mörgu börn allar lifandi skepnur, losni, Þar sem hann var áðr bundinn frostsins hörðu járnviðjum, losni og svo sem með endrnýjuðu fjöri gegni sinni köllun, og framqvæmi hins góðgjarna skapara náðarríka vilja. Þessi gróðrartími líðr, Því hvör hlutr hefir sinn tíma; sumarið tekr við, jurtirnar Þroskast nú og ávextirnir magnast, og verða framundir haustið að gjöra sig hæfiligri enn áðr vóru til uppskeru og nautnar. Eptir að sumartíminn er á enda kljáðr, er úti bæði gróðrar og Þroskunar tími; jörðin afhendir Þá mönnum og skepnum, Því sem hún hefir af sèr fædt og leidt til fullkomins Þroska, og Þá er tími til að safna að sèr náttúrunnar gæðum

skaparans gjöfum; því ei er þá strax fyrir hendi vor-tími, er á ný framleiði úr jarðarinnar skauti fæðslu fyrir menn og fènað, heldr vetur, náttúrunnar hvíldartími, tími sá sem til þess er ætlaðr, að menn á honum skyldu hvílast af sinni mæðu, og njóta yndælis þess að gleðjast við ávöxt sins erfiðis.

Þannig þreifum vèr á því að hvör hlutr hefir sinn tíma í náttúrunnni, og eg gæti bendt til margra þeirra hluta, sem bundnir eru við vissa tíma, ef mèr þætti þess þörf; en eg vil heldr víkja á hitt, að eins og hvör hlutr, hefir sinn tíma, svo *"hefir og hvört áform undir himninum sína stund."* Þessi sannmæli eru eins þreifanlig og hin, að hvör hlutr hafi sinn tíma; enn þau sýnast enn eptirtakanligri, og gagnligra að þeirra sè gætt, að vel sè eptir þeim tekið og lifað þeim samqvæmt. Hvört áform undir himninum hefir sína stund, þ. e. forsjónin hefir ætlað vissan tíma til hvörs áforms. Að þessu sè þannig varið er eins bersýniligt eins og hitt, að hvör hlutr hafi sinn tíma; ej gagnar það áform á vorlímanum að vilja safna í forðabúr ávöxtum og gróða jarðarinnar, ecki um sumartímann að taka hvíld eptir vor-yrkjuna eða á vetrartímanum að rækta jörðina, eða leita sèr atvinnu. Allt áform undir himninum hefir sinn vissa tíma og stund. Ecki er æsku-tími manneskjunnar sá tími, að hûn á hönum megi lifa yðjulaus, heldr er hann ætlaðr til þess að nema það, sem getr orðið henni nytsamligt fyrir hennar tímanligu og himnesku köllun. Ecki er fullorðins aldurinn ætlaðr til hvíldar heldr til erfiðis, svo manneskjunnar ellí, sè það forsjónarinnar vili, sem er allra ósk,

að hûn bíði ellinnar, verði bærilig. Og gagnstætt er það forsjónarinnar vilja, að ellin skuli verða erfiðis og qvalatími manneskjunnar, ellin, sem átti að verða hennar hvíldartími og undirbúníngstími undir flutnínginn frá þessu tímanliga til hins eylífa. Hvör sá, sem á elliárunum ætlar sèr fyrst að læra það, er hann hafði forsómaðýngri, hann verðr illa tældr, því hann gleymdi því að allt áform hefir sína stund. Líkt hendir þann, sem á fullorðinsaldrinum vill svo sem taka út ellinnar unaðsemdir, áðr enn hennar anmarkar koma.

Þèr sjáið af þessum fáu bendíngum, hvað á því ríðr, að hver og einn hugsi til þess, að allt áform undir himninum hefir sinn tíma, hugsi til þess, og taki fyrir sig þau áform, sem best eiga við hvörn tíma bæði æfinnar og ársins. Og þar eð þessi helgi er hin fyrsta á þeim nýbyrjaða vetri, svo vilda èg væri vort guðræknisefni í dag, að íhuga hvað það áform væri, sem bezt ætti við veturinn. Eg veit svo, hvört sem er, að á þessum dögum munu þesshattar þánkar hvarfla mörgum í hug, sem láta sèr nockuð umhugað, að þeirra breytni sè skynsamlig, og muna til þess, að *hvör tími hefir sitt áform.*

Vort gjörvalla lif skiptist í erfiði og hvíld, skemtun og guðrækni, allt þetta getr og á að verða samfara hjá manneskjunni á öllum hennar öldum, á öllum ársins tímum. Lángsamligt erfiði eyðir lífsins kröptum, veikir sál og líkama, nema hvíld gefist með, hûn á að veita manneskjunni aptr þá hressíngu, er viðrètti hennar veikta krapt, og geri hæfiliga til að gegna sínu kalli, og þola lífsins þrautir; þó eru vissir partar

lífsins öðrum framar ætlaðir til erfiðis, aðrir til hvíldar. Dagrinn er sú stund, hverrar eiginliga áform er vinna, eins og nóttin er oss gefin til hvíldar og það bæði sumar og vetur. Enn í samanburði við sumarið, má veturinn og að miklu leiti heita manneskjunnar hvíldartími; að minsta kosti eru flestir í voru landi mikinn part vetrar, og í öðrum löndum allir þeir, sem lifa af því, að rækta jörðina, fríaðir frá stritvinnu allri. Veturinn er náttúrunnar hvíldartími, hann getr og verið manna hvíldartími, og hlýtr að vera það, að svo miklu leiti sem veðrátta leyfir ei þá vinnu, sem erfiðismest er. Veturinn getr verið manna hvíldartími, hafi þeir vor, sumar og haust, sem undan-vetrinum geck, munað til þess, að allt áform undir himninum hefir sína stund, hafi þeir stundað um vortímann það, sem þá var þörf á að stunda, með rækt jarðarinnar styrkt þann krapt, er henni er gefinn af skaparanum til að blómgast, og geta af sèr uppheldi skepna og manna, hafi þeir brúkað sumar og haust til að safna sèr vetrarforða, og hirða um, og koma fyrir, svo ej skemmist, þeim faungum er aflazt hafa.

Sè þessa gætt vandliga, svò getr veturinn orðið hvíldartími, og undir eins gleðitími; því þá getr hvör og einn hússfaðir notið með sínu hyski ávaxtanna af sínu vor- sumar- og hausterfiði: enn hafi verið forsómun á þeim eiginliga vinnutíma, að leita sèr næringar í sveita síns andlitis, æ! þá er veturinn víst einginn gleðitími; þúngt er einkum á honum að þarfnast þess, er náttúran meðþarf, nægiligt viðværi, fata- og húsa-skjól og hægindi, og seint er fyrst

þegar

þegar hann er komin, að fara að leita þessara sinna nauðsynja, þá leyfir ei veðrátta þá vinnu, er veitt geti til hlítar það, sem útvegast átti á hinum ársins tímum. Að fara þá fyrst að sorga fyrir þessu virðist mèr áþeckt' því, að geyma til elliáranna, að nema það, sem í æskunni átti að læra, eður hitt, sem á fullorðins aldrinum bar að stunda, því veturinn er ársins elli. Þúngt veitir að bera skort í ellinni, eðr þá að leggja fyrir sig þúngt erfiði; þúngt auk ellinnar þýngsla að bera þessa lífsins mæðu; þúngt er þá að sjá sína lifa í volæði vegna egin forsómunar: enn það er ecki miklu lèttara, að bera vetrarins þrautir, og horfa á volæði sinna, og finna svo með sèr, að þetta volæði kemr af því, að þau áform, sem tilheyrðu vori, sumri og hausti voru forsómuð. Enn svo þúng sem þessi raun er, svo er þó affaraverra, að verða að þola þetta, vera sjálfr skuld í því, enn finna það ei, að skuldin sè hjá sèr, kènna nízku náttúrunnar um það er maðr er sjálfr valdr að, eða guði þeim algóða, sem gædt hefir vora jörð með krapti til að fóðra allar þær skepnur sem á henni lifa, og með rèttvísi til að endr-gjalda hvörjum einum hans erfiði, eptir því, sem það var unnið með greind og fylgi, eðr greindar- og fylgis-laust, með alúð og hirtni eða alúðar- og umhirðu-laust: Því sá, sem ei þeckir sína yfirsjón, sá getr ei lagfærzt, heldr fer hinu sama fram ár eptir ár, og hlýtr því ár eptir ár að gjalda sinnar fásinnu, og kenna á illum afleiðíngum sinna yfirsjóna. AE! að þeir væru eingir í þessum söfnuði er sjálfir væru sekir í því, ef þessi byrjaði vetur, verðr þeim í

staðinn fyrir hvíldar- og gleði- og hressíngartíma volæðis- og sorgar-tími; og ef þeir væru nockrir, æ að þá hendti aldrei optar sú fásinna, að gleyma því að hvört áform undir himninum hefir sinn tíma, ó að þessi vetur yrði þeirra síðasti volæðis og rauna vetur, ó að þeir yrðu þá hèreptir forsjálli, byggjust við þeim vetri, sem í hönd fer, strax með vorsins byrjun, og gleymdu honum aldrei allt til þess hann kemr; svo hann eptir skaparans tilætlun gæti orðið þeirra hvíldar- skèmtunar- og gleðitími, að svo miklu leiti, sem í þeirra valdi stendr! Enn þó vetrartími sè í samanburði við sumarið hvíldartími fyrir manneskjurnar, svo er hann þó leingri enn svo, að hann geti verið eintóm hvíld, bæði daga og nætr, eins og það væri heldr laung erfiðisskorpa að vinna liðlángt sumarið. Líf vort, er sambland erfiðis og hvíldar; èg kalla ei veturinn hvíldartími í þeirri meiníngu að eckert egi eða megi á honum sýsla heldr vegna þess, að þá verðr hlè á þeirri vinnu, sem kostar mesta áreynslu. Á vetrinum frambýðr sig það einkum til dægrastyttíngar undireins og gagns, sem ei gefst tími til þegar vorar, eðr á sumartímanum og haustum vegna þess annríkis, er þá má ei afrækja. Vort ástand er þessháttar, að vèr verðum á sèrhvörjum tíma ársins og ælinnar að sorga fyrir þeim, sem í hönd fer, egi vel að fara; ecki að qvíða því ókomna, og óttast það, heldr vera viðbúnir að mæta því og afbera, sè það þúngbært: eins og vèr því vor, sumar og haust eigum, að búa oss undir veturinn, so er veturinn hentugr til þess að búa sig undir það vor og sumar, sem á eptir kemr, svo ei þurfi að brúka þann tíma

til annars enn þess, sem, eginliga er hans áform. Þannig breytir hvör forsjáll bóndi: á vetrum býr hann til öll þau verkfæri og áhöld, sem seint er að sorga fyrir, þegar brúkast skulu; enn sem þó er þörf á, egi voryrkjur og sumarerfiði það leysast vel af hendi, og aungva hindrún fá, enn auk þessara umsvifa, sem undir eins eru til skemtunar og gagns, getr maðr, eg tala um almenning, helzt á vetrum, sè honum um það hugað, lært mart það viðvíkjandi biárgræðisútveg sínum, sem á sínum tíma já vorin og sumrin léttir erfiðið og hjálpar honum á haustin til að hagnýta sèr þær guðs gáfur, er hann meðtók af hans örlætis hendi fyrir sit erfiði á þeim regluliga erfiðistíma. Veturinn er hentugr tími til þessa, já hann er sá tími, af hverjum maðrinn getr helzt mist töluverðan part, til át fræðast ei alleina um það sem viðvíkur hans bjargræðis útveg, heldr mart hvað, sem getr gert hvörs eins líf yndælla og lagar og prýðir hvörs eins sál, hefir blessúnarríka verkun á hans tilfinningar, hugarfar og breytni. Veturinn er ei einasta hentr til þess, að hvör og einn brúki hann sèr sjálfum til framfara í þeckingu; heldr er þá kostr á að meðdeila börnum og hjúum gagnliga uppfræðingu um þeirra jarðnesku og himnesku köllun, þá er tími til að laga hjörtu þeirra, innræta þeim ráðvandar hugrenningar og áform, lifandi tilfinningar fyrir öllu falligu, laungun til alls, sem gott er og stórt, viðbjóð á öllu sem er ljótt, og andstygð á öllu sem er illt, ránglátt, skammarligt. Að sönnu er allra foreldra og hússbænda heilög skylda, að missa aldrei sjónar á þessari miklu skyldu við börn sín, mun-

aðarlausa únglínga, og jafnvel öll sín hjú; að hugsa til þessa eins vor, sumar og haust sem vetur er skylda hvörs foreldris og hússbónda, enn af því þessi ársins tími gefr helzt tómstundir til þessháttar sýslana, svo eru þær þaug áform, sem heyra til vetrarins. Alt áform undir himninum hefir sína stund, og nær vilduð þèr, sem leitið yðr sjálfum atvinnu með yðar erfiði, sem eigið auk þess að sorga fyrir börnum og heimilum, nær vilið þèr taka yðr tíma til að upfræða börn yðar, og menta þau í öllu því er þau meðþurfa til þess að geta orðið farsælar manneskjur hèr og annars heims, ef þèr forsómið það þennan tíma, þá yðar annríki er ei töluvert, já þá margr hvör hefir ecki neitt að sýsla. Er betra að gera eckert, og qveljast svo af leiðindum? eða getið þèr ei fyrir það feingið tómstund til saklausra skemtana? eða er ei áreynsluhæg vinna og blíðlig uppfræðíng eigin barna eða munaðarleysíngja undir eins skemtan, og hûn er manni sjálfum gagnlig, og mikill partr af foreldra og hússbænda skyldu? Sè þessi skylda forsómuð nú, meðan veturinn er, mun hennar þá hægra að gæta þegar vorar, og annað nauðsynligt annríki kemr fyrir? sè hun forsómuð meðan börnin eru úng, og hæfiligust til að nema, mun yðr þá veita hægra þegar þau eldast og uppalast í öllu reiðileysi, að bæta það sem var forsómað áðr, þegar sá tími var að líða, hvörjum þetta áform eginliga tilheyrði? Nei, hvört áform undir himninum hefir sína stund, og það áform, sem á sínum rètta tíma er forsómað, getr aldrei síðan eins vel heppnazt, eins og hefði það verið fyrirtekið á sínum tíma. Eg þarf ei að benda

til þess, sem af því leiðir, sè þessi skylda við únglínga afrækt, að menta þá og laga til góðs ámeðan þeir eru únglíngar. Þèr vitið sjálfir allt of mörg sorglig dæmi þess, hvörsu vesælt líf þeirra barna verðr alloptast, sem uppalast í reiðileysi, læra eckert að gera, og af yðjuleysi venjast til allra klækja, fá aunga þeckíngu á skyldu sinni, enn heyra dagliga ill ord, baktal og qvis um aðra, klám viðrstyggiligt, og formælíngar ógnarligar, sjá ill verk fyrir sèr höfð máske af sjálfum foreldrunum, enn likliga af mörgum þeim, sem foreldrar láta umgángast böru sín. Þèr vitið sjálfir hvörsu vesælt og aumkunarvert líf þeirra verðr, sem þannig uppalast. Hvílík raun fyrir alla, sem elska manneskjur, að vita þess dæmi, og hvílík skelfíng fyrir foreldra að verða slíku ollandi! Þessi dæmi þau eru kröptugari hugvekja fyrir alla foreldra, að gæta sín og sinnar foreldris skyldu, og gæta hennar meðan tími er til, enn nockur orð jafnvel hins mesta mælskumanns geta meðdeilt.

Hèrmeð læt eg úttalað um þaug eiginligu verk, eða áform, sem vetrinum tilheyra, enn eg hafði ætlað mèr og að víkja nockuð á hans skemtanir, sem og má reikna með þeim áformum er vetrinum tilheyra. Eins og hvör tími hefir sitt áform, svo hefr og hvör tími sína skemtun. Sú skemtan, sem hver og einn hefir af vinnu sinni, má raunar heita hin sama á öllum tímum, nema hvað önnur verk er að vinna þegar vorar, önnur meðan veturinn yfirstendr: enn auk þessarar almenniligu skemtunar frambýðr sèrhvör ársins tími nýa og nýa skemtun: Á vorin, hvör finnr þá ei til þeirra unaðsemda, sem náttúrunnar blómgun *flytr*

að öllum skilníngarvitum manna? Á sumrin og haustin, hvílíkt gaman má þá ei hafa af náttúrunnar dásemdum og þeirri blessun, er hún er svo auðug af? Enn á veturnar getum vèr ei haft yndi af náttúrunnar blómgun nè hennar blessun og ríkdómi; enn vèr getum þó einnegin þá sèð hennar dásemdir, og af þeirra íhugun notið margrar unaðsemdar, enn samt er vetrarins helztu skemtunar að leita í sínu egin húsi, í sambúð ástúðligs maka, í hóp heilbrigðra og glaðværra, kátra barna með ánægðum, siðsömum, trúum hjúum. Í þessum hríng ætla ég hvör og einn geti fundið hvað mesta skemtun, hollasta og saklausasta, fundið og meðdeilt sínu húsi; hèr getr hússfaðirinn með lestri fróðligra, falligra bóka skemt sèr og öðrum, og undir eins lagazt sjálfr til góðs, og lagað sitt heimili. Þessi skemtun tilheyrir einkum vetrinum, og hún getur bætt oss missir náttúrunnar unaðsemda á þessum hennar hvíldartíma. Skemtilig og siðsamlig samtöl við kunníngja þessámilli, já jafnvel leikr og spil með hófi og siðsemi er hentugt til hressíngar og gleðiauka, og hrósvert, þegar skynsamliga er brúkað, og ei látið vera einka iðja eðr einka skemtan. Þegar vèr höfum þá þessar skemtanir um vetrartímann, so getum vèr gjarnan verið án þeirra sem oss vanta, vèr þurfum ei að öfunda þá, sem finna unaðsemd í svalli og óhófligri nautn náttúrunnar gæða; vèr værum blindir ef vèr vildum skipta við þá, sem hafa gaman af því, sem er undir eins ósiðsamligt og skaðligt bæði fyrir sál og líkama, og kjósa heldr þeirra skemtun enn vora. Látum oss aldrei henda þá fíflsku. Skemtun sú, er fæst í glaumi og solli, hún

rènar fljótt, henni fylgir opt tregi og yðran, eðr þá annað lakara: enn sú unaðsemd er mæðr fær í umgeingni sinna og af iðju sinni, hún er dýrmæt og holl og varanlig, og hennar nýtr hvör einn leingst allt fram að grafarbarminum, ef hann hefir í tíma tamið sèr að leita hennar. — Enn til er lika enn ein unaðsemd, er kryddar svo sem alla aðra unaðsemd lífsins vetur, sumar, vor og haust, það er sú unaðsemd, er vèr lærum því miðr ei svo fljótt að þeckja, sem skyldi, sem vèr gleymum að njóta í lífsins önnum og solli, og stundum í velgeingni meðan fjör og veraldar lán dillar oss, enn sem verðr flestra einka athvarf í sorgar og elli-dögunum og heyrir því til vetrarins unaðsemda framar enn hinna ársins tíma: eg meina guðrækni nina skynsamliga guðrækni, ecki þánkalausan lestur vissra andligra bæna, ecki tilfinníngarlausan sálmasaung, heldr iðugliga umhugsan guðs boðorða, ígrundan guds dásemdarverka og velgjörninga, sem þèr sjáið, sem þèr njótið og hafið notið; eg meina umgeingni við þá heilögu, góðu, miklu veru, í hvörri vèr lifum, erum og hrærumst. Þegar hið dagliga verðr oss heldr leiðinligt, hættir að fullnægja þörfum vors anda, svo lyptum huga vorum upp, hefjum hann til skaparans og hans dásemda, og gleymum um stund því jarðneska, sem er allt of lágt og lítið til að geta verið vor eina umhugsun!. Þegar vèr lyptum vorum augum til himinsins miklu víðáttu, og sjáum hana alsetta ljómandi sólum, ótöluligum, ómæliligum, og ímindum oss hverja þessa sól umkríngda af mörgum veröldum, enn allar þessar sólir með sínum heimum svo sem bendlaðar við eina höf-

uðsól, frá hvörri að komi birta og ylr sá, er þessi ótöluligi sólargrúi meðdeilir sínum enn fleiri veröldum. Þegar vèr gjörum þetta, segi eg, og hvör skyldi ei gera það, sem kost á hvert heiðskírt vetrarqvöld, að sjá þessa miklu sjón himininn, hvílíkt flug tekr þá ei vor andi? hvörsu lítilmótligt verðr þá allt það, er venjuliga er svo mikið í vorum augum, sosem peníngar, titlar, stáz og annar hègómi? Þegar vèr síðan álítum allt þetta verk veru þeirrar, sem ogsvo er vor skapari og vor faðir, í hvörs höndum að eru líka vor kjör hèr og síðar, sem hefir afmælt vort skeið, eins og hann afmældi skeið öllum þessum sólum og veröldum, er vèr sjáum í þessum takmarkalausa geym, hvílíka unaðsemd finnum vèr þá streyma um oss alla? og hvað þeckjum vèr svo dýrmætt, að vèr vildum hafa skipti á því fyrir þessa háu, manni verðugu, guðligu unan? Þannig er það mart í guðs dásemdarverkum, mart í vorri trú á guði, og von ódauðligleikans, sem veitir hiartanu æðri unaðsemd, enn allt jarðneskt, undir eins og það tignar vora sál, og lagar eptir mind þess, sem hana gaf; því sagði og skáldið fordum: *Það er mín gleði, að eg held mig til guðs.*

Látum oss þá skipta þessum vetrartíma, er mildi guðs unnir oss enn að byrja milli hvíldar af sumarsins erfiði, þeirra sýslana sem eiga við tímann, og saklaussra glaðværða hvör í sínu húsi og í innbyrðis umgeingni: enn það sè vor höfuð-unaðsemd, hvert sem oss geingr vel eðr illa, hvert sem oss mætir blítt eða strítt; að vèr höldum oss til guðs!

AUÐUN

(Hrólfur)



# AUDUN LÖGRÈTTUMAÐR.

## *Gleðispil*

af Sigurði Pèturssyni sýslumanni, *leikið í Reykjavík 1814.* ×

*Þeir sem spila eru þessar persónur.*

Auðun bóndi og lögrèttumaðr.
Sigríðr kona hans.
Una dóttir hans.
Margrèt vinnukona.
Hrólfr ferðamaðr að norðan.
Gissur ráðsettr bóndi frá öðrum bæ.
Andrès sonr hans.
Jón bóndi frá Heiðarkoti.
Jón Grímsson ) stefnuvottar.
Björn Hallsson )
Eiríkr á Aumalæk fátækr bóndi.

### I. AKT.

#### 1. *atriði.*

Margrèt. *(kemr inn með ljós í hendi)* Þetta er einn blessaðr röckursvefn; húsbændrnir eru enn þá ei vaknaðir. Væri ecki sofið í röckrinu þá væri vinnufólki illa farið; því það er sá einasti tími, sem það getr gjört sèr lítinn hagnað og skèmtun þess á milli, þegar það er frí frá argi og ánauðum. Væn eru jólin, og satt er það, vegna kertisins, enn röckrið er



Leikinn í Aurnar skóla 5/12-1796.

mín hátíð Þá forsómar hún Mánga litla sig ecki, og eitt skickanligt og frátt vinnuhjú eins og èg er (*fær hósta*) getr Þá geingið sín egin eyrindi án húsbændanna vitundar og skaða (*fær aptr hósta*). Eg gat Þá núna brugðið mèr úti hjáleiguna til hans Jóns míns, og gladt hann dálítið með mínum röckurs handafla. Mèr Þykir eckert að honum, nema hann er of-einfaldr og deigr; ènn vorkun er á Því hann hefir ecki verið á stórstöðunum eins og èg. Enn èg skal skjótt koma honum í tána, og Þegar við erum komin saman, Þá skal eg---(*heyrist barið*).

## 2. atriði.

(*Maðr sprángar inn í nýum mussufötum, sockaböndmeð laungum dinglandi skúfum hefr hann um fætr. Upp úr vasanum hángir lángt talnaband úr pýngju hanns eins og úrkeðja*).

Hrólfr. Með-leyfi Þeirra sem með-eiga, sælar verið Þèr heillin goð! allatíma blessaðar og sælar!

Margrèt. Sælir verið Þèr! hvers' heitir maðrinn!

Hrólfr. Hrólfr heitir hann Asgrímsson að norðan. Eg vildi koma mèr fyrir hèr syðra til útróðra. Eg hefi farið hèr suðr á hverjum vetri, eg hefi verið formaðr á öllum veiðistöðum hèr syðra, bæði undir Eyjafjöllum, í Grindavík, á Bátsendum, í Keflavík, í Njarðvík, undir Stapa, í Garði, á Ströndum og víðar, og víðar!

Margrèt. Þetta kalla èg almenniligan mann!

Hrólfr. Já, ecki hefr hann húsbóndi minn stórum vænni mann við sjóinn; enn þegar eg kem heim er eg smiðr hjá hönum, og núna áðr enn eg fór á stað smíðaði ég nálarnar þær arna sem snöggvast *(sýnir Margrètu).*

Margrèt. Já, það sè eg, þær eru almenniliga nettar. Hann Tómas ockar gjörir þær ecki hálft svo vel; hèr eru nú silfur-upphlutsmilnur, sem hann hefr smíðað *(sýnir Hrólfi, sem vandliga hyggr að).*

Hólfr. Já já! það er íslenzkt víravirki, og á að vera filagran uppá há-dönsku! og svona fer eg að því: fyrst slæ èg plötuna spegilfagra, síðan tek eg gull- eða silfur-vír, og set umkríng á plötuna rètt eins og svöluhreiður, og festi svo alla endana saman með smá-þornum, þúsundssinnum smærri enn sandr, læt svo alt fyrir aflinn, og læt sjóða saman.

Margrèt. Eg ætlaði það mundi eiga að lóðast.

Hrólfr *(lítr undan).* Já, lóðast! lóðast vildi èg sagt hafa. *(afsíðis)* Þar hefði èg nærri farið á mig með lóðið. *(hátt)* Milnurnar þær arna sóma ecki svo falligri stúlku, enn upphlutssniðið er falligt.

Margrèt. Æ! hann er ofrvíðr. Er maðrinn ógiptr?

Hrólfr. Já! enn gjörið svo vel og gefið mèr nockuð að drecka.

Margrèt. Hèr er ecki gestum gefið annað enn vatn að drecka, og við vinnuhjúin fáum ecki annað heldr, enn vegna minna handyrða get eg stundum útvegað mèr hitt og þetta. *(Lýkr upp kistli sínum, og tekr upp Brennuvínspela.)* Hèr er nú dálitið á einum júng-

frúrpela, súptu á, og forláttu þó èg þúi þig, èg held við mundum fljótt verða kunnug, ef við værum leingi saman á bæ, enn hèr ætla ègei leingi að binda skóþveingi mína, því fólkið er nízkt og auðtrúa, og sá hefr bezt úr býtum, sem bezt getr slaðrað fyrir því og borið fréttirnar.

Hrólfr. Þá þecki èg sjúkdóminn, og get líka læknað hann.

Margrèt. Æ! ertu líka læknir, heillin mín?

Hrólfr. Það orð fèck eg fyrir norðan, að eg væri nógu góðr blóðtökumaðr.

Margrèt. Flest er þèr til lista lagt; enn nú heyri èg til fótanna á húsbændunum, vertu nú málugr og mjög frèttafróðr, fátt satt, enn flest lýgi, èg skal kenna þèr.

### 3. *atriði.*

*(Auðun, Sigríðr og Una koma inn).*

Hrólfr. Sælir og blessaðir, Auðun minn! Sælar og blessáðar, heillin góð! Sælar og blessaðar, Una mín! prestrinn óskaði yckr öllum góðs.

Auðun. *(lágt)* Hvör er þessi maðr?

Margrèt. *(hálflágt)* Hann kom núna rètt strax á þessu augnabliki; hann hefr verið formaðr í öllum veiðistöðum; hann er heppnismaðr; hann er fiskilús!

Auðun. Hvaðan kom hann?

Margrèt. Hann er ráðsmaðr fyrir norðan. Hann stendr þar fyrir öllum verkum á heimilinu, hann er forstjóri og búsýslumaðr bezti.

Auðun. Hvað heitir hann?

Margrèt. Hann er dverghagr, bezti gullsmiðr, gjörir silfur, og lóðar filagran.

Auðun. Eg spyr hva's hann heiti.

Margrèt. Hann er allra bezti blóðtökumaðr, og ógiptr!

Auðun. *(bistr)* Þegi þú, Mánga! hvers' heitir maðrinn?

Hrólfr. Hrólfr heitir hann Asgrímsson að norðan *(o. s. fr. eins og fyrr)*.

Auðun. Hvör var prestrinn, sem. þèr heilsið mèr frá?

Hrólfr. *(óviss)* Prestrinn, Sra . . ., já prestrinn, Sra. Önundr Grímsson á Breiðabólstað. Hann qvaðst hafa gist hjá yðr um nætrsakir, og beigið hjá yðr sèrligar góðgjörðir. Hann sagði þèr væruð einn hinn mesti á Suðurlandi, og mun rómr yðar floginn víða um landið fyrir vitsmuni og rausnarmensku.

Auðun. Ecki kannast eg við Sra. Önund.

Hrólfr. Það er slíkra höfðingja von og vísa, sem þèr eruð, ecki að látast muna til sinna stóru velgjörnínga.

Auðun. Menn gjöra ofmikið af mínum góðgjörðum: *(til konu sinnar)* getr þú ecki gefið manninum hressingu, heillin mín!

Margrèt. *(út af fyrir sig)* Grunaði mig ecki? á! svei því!

Auðun. Hvar varstu í nótt, Hrólfr minn?

Hrólfr. Eg var hèrna á Heiðarkoti hjá hönum Jóni mínum, karlinum, og gjörði hann mèr vel til eins og margir aðrir.

Sigríðr. *(sem fyrr var útgeingin kemr inn aptr í þessu, og færir Hrólfi lítinn pela)* Hvað fèck maðrinn að borða?

Hrólfr. Eg fèck heitt, gott og feitt slátur því um daginn hafði hann slátrað fimm vetra gömlum sauð.

Sigríðr. Hvörnig var hann litr?

Hrólfr. Hann var hvítr, hniflóttr, með svörtum blett á bakinu, stór, feitr, og í hönum voru 23 merkr.

Sigríðr. Var hann ecki lagðaðr, svo þú sægir?

Hrólfr. Hann var skrúðaðr á vinstra eyra.

Sigríðr. Sástu ecki markið? mig grunar mart.

Hrólfr. A, já, já, nú skil eg; ecki svo èg sægi það glöggt; því mèr sýndist farið leyniliga með höfuðið, enn þó sýndist mèr ecki betr en það væri hvatt, bæði eyru.

Auðun. Var ecki biti aptan vinstra, svo þú sægir?

Hrólfr. Vísast er, það hafi verið, þó èg gætti eigi svo grant að því. Það merkti eg að eingum var um að eg færi með höfuðið. Heima-skríllinn þótti mèr ogsvo allr ískyggiligr, og var eg því var um mig um nóttina. Ránkar menn ogsvo til fólks, sem lifað hefir í afdölum, og búið til fjalla.

Frá afdalsbúum, frá afdalsbúum
æ sèr Hrólfr snýr;
úlfr er við sauði,
við ýta hèrinn blauði:
þokunni undir, þokunni undir
það er mart sem býr!

Margrèt. *(kát)* Hrólfr er ogsvo það bezta skáld, hefr þau beztu og liðugustu hljóð: eja værum vèr þar!

Hrólfr. Með leyfi verð eg að gánga út og líta til hestsins míns *(geingr út).*

4. *atriði.*

Auðun. Þetta er efniligr maðr.

Margrèt. Já, það er satt!

Auðun. Ungr, frískr, skír og vel að sèr.

Margrèt. Já það er meir enn satt!

Auðun. Fiskimaðr góðr; alkunnr formaðr og bezti smiðr.

Margrèt Já það er hvörju orði sannara.

Auðun. Bezti bústjórnarmaðr, og lítr út til að vera hinn ráðvandasti.

Margrèt. Það er svo satt sem dagrinn er lángr.

Auðun. Það væri efni í góðan mann fyrir skickanliga stúlku.

Margrèt. Það er, það sannasta orð sem þèr hafið sagt í dag, húsbóndi góðr! og er ógiptr!

Auðun. Mèr dettr í hug, enn hún Una litla!

Margrèt. *(svo sem hvumsa)* Eg held hann giptist ecki hèr syðra, honum munu fáar þykja sitt jafnræði, soddan listamaðr og norðlenzkr til!

Sigriðr.[1] Hvað er að heyra? þó hann sè norðlenzkr, þá er hún samt sunnlenzk og lögrèttumanns dóttir, og kann vel fyrir sèr, þó mèr sè skylt málið, því einginn hefir sagt henni til nema èg. Enn hitt þykir mèr nú meiri nauðsyn að hugsa um hvíta sauðinn, 5 vetra, með 23 mörkum, sem þú veizt ockr vantar.

Auðun. Það var nú það, sem eg var að hugsa, glöggt sagði Hrólfr frá, lýsti lit og

markí, hæð og hornum, og fólkið varnaði hönum að skoða höfuðið.

Margrèt. Og leit allt þjófsliga út, sagði hann.

Auðun. Leingi hef' eg háft Jón grunsaman og misjafnt orð hefr af honum geingið.

Sigríðr. Ecki veit eg það, enn bita aptan undir vinstra vantaði á ockar mark.

Margrèt. Nei, nei! hann sagði bitinn hefði vísast verið þar, enn það sem er vísast, það er sjálfsagt, og er því afgjört að svo hefr verið.

Auðun. Það er rètt sem þú segir, Mánga!

Sigríðr. Ecki tók eg eptir því að hann fullyrdti það, enn þó væri eigi af vegi að grenslast betr eptir þessu. Misgrip kunna að hafa skeð.

Margrèt. Já, já! Allr þjófnaðr er misgrip, enn svo leingi lleft ég þjónað yckr með trú og dygð, og vaktað yckar kindr, að mèr fellr illa að aðrir steli þeim: hann hafði blett á hryggnum, lagðaðr í vinstra eyra: ég þori að gjöra minn sáluhjálpar eið.

Auðun. Ojá! það er vafalaust, stolinn er hann.

Sigríðr. Ecki er það víst að öllu enn. Enn viltu ecki skrifa honum Jóni seðil, og spyrja hann . . .

Auðun. *(hissugr)*. . hvert hann vili ecki láta heingja sig? ójú! sæktu strax skriffærin mín, Una litla!

Una. Eg skal strax, faðir minn góðr! enn verið þèr nú eigi hissugr *(geingr út)*.

Sigríðr

Sigríðr. Það sama vilda èg sagt hafa, heillin mín! framhleypni er sjaldan góð, einginn veit hvörjum trúa má. Hrólfr segist vera norðlenzkr; enn hvör þeckir til hans?

Auðun. -- annað enn gott? Hann er ráðsmaðr hjá Sra. Önundi á Breiðabólstað.

Sigríðr. Þeir geta nú sumir skrökvað, sem eru hjá prestunum. Enn vertu ecki of berorðr, heillin mín! við Jón. Mundu mig um það.

Auðun. Eg skal passa uppá það.

Una. *(kemr inn með skriffæri og pappír og setr á borðið).* Hèr er nú, faðir minn! enn eg er hrædd! *(Auðun fer nú að skrifa, enn Una sezt við vinnu sína, allir þegja, enn Una sýngr þá fyri munni sèr lágt og lagliga.)*

Oftrúgjarn skyldi einginn vera,
ángur leingst af síðan fylgja má:
líka kann svo tíðum til að bera,
að tál ókunnum vörum renni frá.
Hyggi hvör að því,
sem hjalað er, :|:
enn maðr máli af, enn maðr máli af
bezt manninn sèr. :|:

*(Þetta ítrekast svo leingi sem Auðun er að skrifa seðilinn, enn þegar hann er búinn sýnir hann konu sinni).*

Auðun. Viltu ecki lesa, heillin mín!

Sigríðr. *(tekr við og les með sèr)* Neí, nei! hættu nú, þú segir hann hafi stolið sauðnum fortakslaust, hann sè sauðaþjófr, og skuli gjalda ferfalt aptr, ef þú eigi gjörir hann ærulausan.

Auðun. Já! siti hann með það, eg ætla að lacka það og senda strax.

Margrèt. Eg skal uppátímann hlaupa með það, èg er ecki bángin.

Sigríðr. Nei! fyrir hamíngju skuld, þetta er allt of gróft, þú kannt að komast í mestu vandræði fyrir þetta.

Auðun. Eg veit hvað lögin segja, og þar fyrir var eg konstitúeraðr lögrèttumaðr, hefi setið í lögrèttu, og dæmt yfir mörgum sýslumannsdómi. Brèfið skal Jón hafa, hann er sannr að sök, eins og Hrólfr segir. Taktu við, Mánga! og flýttu þèr nú *(fær henni brèfið)*.

Margrèt. Ojá! húsbóndi góðr! sjaldan er eg vön að vera svo leingi að því sem eg á að gjöra *(hleypr á burt)*.

### 5. atriði.

*(Hrólfr kemr inn aptr).*

Hrólfr. Sæl verið þið öll! Gott veðrið, túnglskin og spakviðri!

Auðun. Hvað er að frètta að norðan?

Hrólfr. Hart er þar, enn harðir menn taka á móti, sem ecki gefa sig að smákriti.

Auðun. Hvörnig líðr sýslumanni yðar?

Hrólfr. Ecki held eg hann lifi á bráðum, eins og hrafninn, eg hef ecki sèð hann nýliga, og óska aldrei að sjá hann.

Auðun. Takið þèr þá eingan sýslupassa?

Hrólfr. Hèr eru mínir sýslupassar, þeir gánga yfir allt land og gilda yfir alla veröldina *(hann bendir á iljarnar, og slær á skósólana)*.

Sigríðr. Hefir maðrinn eckert með sèr að selja að norðan?

Hrólfr. Eg trúi èg hafi fáeina klúta í vasanum og hitt og þetta *(Rífr upp á borðið og sýnir, enn allir fara að skoða).*

Una. Þarna er falligr klútr, móðir mín!

Sigríðr. Það er karlmannsklútr.

Una. Hann er falligr samt, er hann dýr?

Hrólfr. Ríksdal og slèttan, og er hið besta kaup!

Auðun. Ojá, já, ja! Það skaltu fá.

Una. Vill ecki maðrinn selja hálsnálarnar sínar?

Hrólfr. Þær verða nú dýrar, því eg hefi smíðað þær sjálfr.

Auðun. Þú skyldir heldr, Una litla! spyrja hann, hvört hann vildi ecki fara til ockar eitt ár eða tvö; gátuð þið þá komið yckr saman um smíðið; og yrði hann þá máske ecki dýr við þig að leikslokunum, eða hvað segið þèr, Hrólfr minn!

Hrólfr. Vísast er það, enn fá skal hún nálarnar með beztu verði, þær skulu ecki kosta meira enn 8 mark.

Una. Nógu dýrt held eg það sè fyrir litlar og brúkaðar nálar, og sè eg það á öllu, að varla munum við koma ockr saman um seinni kaupin.

Auðun. Eg skal borga það fyrir þig, kindin mín! *(tekr upp einn bánkoseðil og nockra skildínga).*

Hrólfr. *(telr eptir)* Hèr vantar uppá 18 sk. spesíe.

Auðun. Máske! Við skulum sækja þá, heillin mín! lýstu ockr, Una litla! með öðru ljósinu *(þau gánga öll út).*

### 6. *atriði.*

Hrólfr. *(einsamall)* Hèr ber vel til veiðar! fólkið er heimskara enn þorskar; mitt færi skal eg úti hafa, og þegar eg hefi þenna heimsku-hákall undir borðið; þá skal eg skella hann rètt almenniliga. Eg ætla að bera mig að narra útúr honum reiðhestinn sinn, það er eingin synd, því feitr uxi hefr fulla sök; enn hvörnig eg á að því að fara, veit eg ecki svo glöggt, enn ráð munu koma með tíma. Auðun skal gleyma a eta og drecka, enn muna til Hrólfs litla að norðan.

### 7. *atriði.*

*(Auðun, Sigríðr og Una koma inn aptr).*

Auðun. Hèrna eru 18 skild: hafa ecki betri klútar verið að fá hjá kaupmanninum fyrir norðan í sumar?

Hrólfr. O ecki! Enn nú hafa menn feingið kaupin á Eyrarbacka með því þar nýkomna skipi.

Sigríðr. Er þar nýkomið skip núna um hávetrartímann?

Auðun. Það er nockuð sèrligt! hvaða vörur eru þar, og með hvaða prís eru þær seldar?

Hrólfr. Til dæmis: brennuvínspottrin er á 12 sk., tóbakspundið 15 sk., korntunnan 2 ríksd., 60 fiskaklæði fyrir 35 fiska, flugjels borðar og ekta gullgalónur með bezta verði; timbur ósegjanliga gott, járnið qvað verá mestan part stál og kostar hálfan ríksdal lísipundið og allt eptir þessu.

Una. Er mjöðrinn dýr?

Hrólfr. Mjöðrinn er á 9 sk. pottrinn, sýrópið á 10 sk., sykurpund á 23 sk. og svo framvegis.

Auðun. Þángað væri vert að vera kominn. Nú vantar mig illa hesta mína, því eg er búinn að koma öllum fyrir, nema reiðhestinum, og tími èg eigi að brúka hann undir áburð.

Hrólfr. Það er og mesta synd; að leigja hesta er kostnaðarsamt, og til kaups fást þeir ecki. Eg hefi púlshest, sem eg ríð, enn hann læt eg ecki fyrir nockurn mun; það er sá traustasti gripr sem til er, hann brestr aldrei á útigángi, enn einginn veit hvaða kraptar í honum eru. I sumar lagði èg á hann tvær kornunnur og var einsamall.

Una. Gátuð þèr vel komið þeim til klacks?

Hrólfr. Ohætt var því, ef eg hefði haft nockurn til að standa undir, enn klárinn lá, læddist eg svo að hönum og smeygði silunum uppá; síðan tók eg heilt brennuvínsánker fyrir framan mig, og settist svo ofan á milli. Enn þá hnyckti hann sèr upp, svo hart að flest móttök slitnuðu, hljóp á stað, setti undir sig höfuðið, frísaði, steðjaði yfir holt og klúngur, vætukeldur, og allt hvað fyrir-varð; stöðvaðist hann ei fyrr enn hann stóð á hlaðinu heima. Enn það var hálfönnur þíngmannaleið; og var eg þá orðinn svo vínglaðr í höfðinu að eg stackst af baki.

Una. *(lágt)* Líkliga hefir bennuvínsánkerið verið nockur skuld þarí.

Auðun. Fæ èg hann ecki hjá yðr?

Hrólfr. Einn fríhöndlarinn fyrir norðan bauð mèr fyrir hann 35 spesíur gamlar!

Auðun. Ojá! rètt er þat, þetta höfum vèr heyrt, og þetta er sannleikr.

Hrólfr. Þó èg nú þægi yðr, þá stend eg hestlaus eptir.

Auðun. Þèr skuluð fá minn reiðhest í staðinn; hann er úngr, vakur hefir verið gefið í þrjá vetur *(til konu sinnar)*. Gefðu honum Hrólfi hressingu, heillin mín.

Sigríðr. *(færir hönum í staupinu)* Viltu eigi sjá hestinn fyrst, Auðun minn!

Auðun. Eg leit snöggliga til hans áðan, eg trúi Hrólfi í öllu! Er hann gamall?

Hrólfr. Níu vetra, enn holdskarpr er hann undan ferðinni, enn þó bar hann óhætt baggana sína.

Auðun. Við skulum að svo mæltu og svikalaust hafa hestakaup að fullu, og skal eg þessa minnast einhverntíma.

Hrólfr. Það verðr þá svo að vera, af því yðr liggr svo mikið á, og þèr eruð alkendr ærumaðr; munuð þèr og vísast verða til að gjöra bón mína einhvörntíma, ef eg ræðst til að fara híngað að ári. Enn af því það er nú svo gott veður, ætla ég að komast í qvöld yfir hálsinn,

Auðun. Eg skal þá hjálpa yðr að leggja á, og svo kveðja með kossi og handabandi í seinasta sinni hann Rauð minn. (*þeir gánga báðir út*).

## 8. *atriði.*

Sigríðr. Mikið er það hvað hann Auðun minn er fljótr til at trúa öllu, opt hefr

hann ratað þarmeð í baga og vandræði, sem mátti þó kenna honum að ecki er allt sem sýnist, og ecki er allt satt sem skrafað er. Eg hefi svo opt sem hárin eru á höfðinu á mèr mörgum sinnum leidt honum það fyrir sjónir, enn það er að bera vatn á klettinn.

Una. Falslaus maðr trúir öllu; hans hjarta er sem gull, sem ecki tekr á móti nockru ryði.

Sigríðr. Viss er eg um það, að Hrólfr hefr narrað hann á hestakaupunum, því ótrúliga sagði hann af styrk hans og gæðum.

Una. Ykjur og málæði mun flagg lýginnar, enn hanzka vetlíngarnir og skrock snúníngrinn er höggorma æði: hef eg heyrt einhvörntíma sagt; enn allt þótti mèr þetta svipr hjá Hrólfi.

Sigríðr. Ecki hef eg stórt auga á Hrólfi þessum, og heldr þótti mèr hann uppvöðslusamr. Hávaðamenn eru að sönnu norðlenzkir margir, enn þó geck þessi framúr, og dámaði mèr það ecki.

Una. Vel væri að eckert íllt hlytist af honum, enn mig slær eitthvað. Enn má eg ecki, móðir mín! ega sjálf ráð yfir klútnum og nálunum; ef eg má segja yðr, móðir mín! Eg ætla að gefa honum Andreasi það --- því það er afmælisdagrinn hans, hann hefr þá þrjá um tvítugt?

Sigríðr. Veit eg það, að yckr er í pocka saman; enn faðir þinn segir hann sè fátækr.

Una. Er þá fátæktin glæpr? Er hann ecki af skickanligum kominn í báðar ættir? og hvör hefir reynzt ockr betr í raun og rèttum sanni, enn faðir hans Gissur?

Sigríðr. Satt er það, Gissur er bezti maðr í öllum hlutum.

Una. Enn sjaldan fellr eplið lángt frá eikinni.

9. *atriði.*

*(Auðun og Hrólfr koma inn.)*

Hrólfr. Nú er eckert eptir, nema að fara á bak.

Auðun. Jú að drecka hestaskálina!

Hrólfr. Gjörum við það þá!

*(Auðun skeinkir á tvö staup, tekr annað, enn fær Hrólfi hitt og segir).*

Auðun. Hèrna, elskuvin! og ákjósanligasti teingdason!

Una. Herrann varðveiti mig!

Hrólfr. Eg segi gratias, enn látum oss byrja.

Þá grannar vorir hittast hèr,
hvör þá öðrum bjóða fer
hestakaup og hrossa, hestakaup og hrossa,
þessi þeirra ein er art,
ecki hrjóta ámeðan spart.
kjassmælin og kossar. kjassmælin og kossar.

*(Nú qveðr hann Auðun og Sigríði, enn þegar hann kyssir Unu segir hann).*

Farið þèr alla tíma vel, elskuliga júngfrú! heilsið þèr kærliga frá mèr þeim sem þèr ætlið að gefa silfurnálarnar að hann hafi þær ecki í harðbráki, ef stöckt kynni að vera í þeim: farvel allir samman! *(geingr út).*

---

II. AKT.

## II. AKT.

### 1. *atriði.*

*Gissur og Andrèas koma inn, við þeim er vinsamliga tekið; allir heilsast.*

Sigríðr. Gjörið þið svó vel og setið þið yckr niðr! (*Auðun tekr stól handa Gissuri, enn Una handa Andrèasi*).

Auðun. Hvaðan komið þið núna, feðgar?

Gissur. Eg brá mèr suðr í kaupstað að kaupa fáeinar nauðsynjar, svosem: mjöl, trjávið, járn og þessháttar. Eg gjöri annars minnst kaup eg get: því þegar eg yfirvega þá dýru prísa, og hvörnig þeir þar ámót hefla ockar beztu vörur, þá álykta èg þann bezt farinn, sem búið getr að sinu; og þegar eg sè að eg fæ ecki jafnvægi einkum í mat, þá les eg minn borðsálm á íslenzku, og borða mèr fisk og kjöt í herrans nafni, og læt útlenzkt vera útlenzkt, og sama ræð eg þèr, að gjöra, Auðun minn! þessi kornkaup fyrir 6 ríksd. tunnan eru allra mesti útdráttr í einu heimili. Hafið ráð mín í þessu.

Auðun. Ha, ha, ha! èg fæ hana fyrir tvo ríksd. ecki gef eg meira, ha, ha, ha!

Gissur. Lángt frá!

Auðun. Og Brennuvínspottinn fyrir 12 sk.

Gissur. Svej því!

Auðun. Og tóbakspundið fyrir 15 sk.

Gissur. Svej! svej!

Auðun. Sextigi fiska klæði fyrir 35 fiska.

Gissur. Ecki!

Auðun. Eitt Lísipund af járni fyrir hálfan ríksdal.

Gissur. Ecki vel!

Auðun. Og mjaðarpottinn fyrir 9 sk.

Gissur. Ecki glatt!

Auðun. Og sýrop fyrir 10 sk.

Gissur. Hættu nú!

Auðun. Og flugjelsborða, og gullgalónur rètt fyrir ecki neitt!

Gissur. Þegi þú nú fyrst!

Auðun. Og viðinn hinn bezta með giafverði.

Gissur. Ertu orðinn galinn? og hvar er alt þetta.

Auðun. Fleiri vita nockuð enn Gissur í Grindavík; enn biddu nú við, èg skal segja þér, það er nýkomið skip á Eyrarbacka, sem hefir alt þetta.

Gissur. Nú held eg þú vaðir, með tukt að segja, rassinn upp í ána; skip núna um hávetrartímann, komið undir jól! lendt á Eyrarbacka! Nej, nej!

Auðun. Já, minn bróðir! Hrólfr nýkominn að norðan, Asgrímsson sagði ockr það, hann er skynsamr maðr og ráðvandr.

Gissur. Nýkominn að norðan! Segir skip komið fyrir sunnan á Eyrarbacka, með óheyrða prísa! Hrólfr Asgrímsson skynsamr og ráðvandr maðr! — Ef eg rètt man útflæmdr fyrir skálka-pör úr Norðurlanði; alt kèmr nockurnveginn fyrir eins, því at alt mun eins satt og eins lýgi.

Auðun. Hann er sá greiðviknasti maðr, hann lèt mig fyrir hann Rauð minn fá þriggjamèltunna-hest níu yetra gamlan.

Gissur. Væntanliga þrjár mjöltunnur hvörjumegin og er það þá sex-mjöltunna-hestr.

Auðun. Eg fèck hjá honum fyrir nær því eckert klútinn þann arna og silfurnálar þessar: klútinn fyrir 1 riksd. og slèttan, og nálarnar ecki nema fyrir átta mark *(sýnir honum).*

Gissur. *(skoðar)* já, já! 5-marks-klútr, metallsnálar tíu skildíngsvirði í það mesta; enn alt vel, láttu mig sjá gæðínginn Hrólfs-naut!

Auðun. Já hann bætir um! og þó eg hafi borgað hitt vel, svo sè eg vegna hans ecki eptir því; kom þú þá út með mèr. *(þeir gánga báðir út).*

## 2. atriði.

Sigríðr. Lagðist það ecki á mig, og optar enn nú hefr Gissur minn komið vitinu fyrir ockr.

Una. Hann er maðr ráðsettr og aðgætinn, enn slær sèr ecki vítt út, og mikið vel bar nú til funda. Er ecki afmælisdagrinn þinn á morgun? Andrèas minn!

Andrèas. Nú hef eg þrjá um tvítugt, og ætlar faðir minn að vori að byggja mèr dálítið af jörðunni.

Una. Því ræðr hann þèr ecki heldr að taka einhvörja jörð einsamall? því einginn lofar einbýlið sem vert er! segja menn.

Andrèas. Hann segist vilja sjá framqvæmd mína og ráðstöfun, vill sjá til með mèr, og leiðrètta það sem honum sýnist ei um, bezt sè að byrja með litlu, og, ef hagnast, færa sig heldr einum reiti fram enn aptr; verðr maðr

þá síðr að athlátri manna, hann segist hafa þeckt marga, sem í fyrstunni rètt hafi ætlað að gleypa himin og jörð, enn fyrsti bitinn hafi staðið í þeim og orðið þeirra bani.

Sigríðr. I flestu er Gissur ólíkr öðrum mönnum, og ei sízt í bústjórn sinni, hefr hann ogsvo ætíð verið veitandi, enn ei þiggjandi, hvörnig sem ætíð hefr (áhorfzt).

3. *atriði.*

*(Gissur og Auðun koma inn aptr).*

Gissur. Klárinn er tannlaus, kominn yfir tvítugt, skin-horaðr og meiddr. Háin er tveggja ríksd. virði, og þá er búið! I hvaða sýslu fyrir nor an er þessi góði Hrólfr?

Auðun. Hann hefr eingan passa nema fætrnar á sèr, sem hann sagði.

Gissur. Hann er þá landhlaupari.

Auðun. Enn hann er vinnumaðr Sra. Önundar Grímssonar á Breiðabólstað, og til hans skal eg halda mèr um öll þessi kaup.

Gissur. Lýgi yfir lýgi, svik yfir svik! það er einginn Sra. Önundr til!

Auðun. *(tekr til að skjálfa)* Æ! ó, ó! hamíngjan hjálpi mèr! svo hefr þá þessi svikari svikið mig fyrir meira enn tíu ríksd.

Gissur. Vel það, fram undir tuttugu!

Auðun. Eg trúði honum, þeim svikara; nú trúi ég þèr, eg skyldi trúa allri veröldinni, ef hún ei sviki mig. Nú trúi èg eingum lifandi manni meir, og eingum skal eg trúa, allir eru prackarar, enn hvör pokurinn vísar þeim á mig, það veit eg ecki. Narri þeir

alla aðra, já á himni og jörðu og undirdjúpunum; enn láti mig vera! O! svíki þeir seinast sálina útúr kroppnum á sèr! 20 ríksd. missir hreint út! Rauðr minn farinn, sem eg trúði á, æ! ég skal aldrej trúa meir, kasta allri trú, ó! rádtu mèr nú ráð, Gissur minn! ef nockurt ráð er til, ó, ó!

Gissur. Vertu ecki svo trúgjarn!

Auðun. *(hrín)* Aldrej skal eg trúa, trúin gjörir mig hreint óluckuligan; svej mèr, ef eg skal trúa meir; mínir 20 ríksd.! er það ecki grátligt? í einu augnabliki allt til skollans, og reiðhestrinn með.

Gissur. Vertu hægr, Auðun!

Auðun. Eg skal aldrei vera hægr, trúa ætlaði èg að segja, trúa, trúa!

## 4. atriði.

Margrèt. *(kemr inn másandi og blásandi)* Sælir húsbóndi góðr! Ecki var eg leingi, eg hljóp svo eg *(másar)* ætlaði að velta út-af og missa öndina.

Auðun. Minna er það enn 20 ríksd., sem eg hef mist; enn hvað sagði bannsettr sauða jófrinn, hann Jón? kemr hann? borgar hann? eða æruna! geldsauðar æru fyrir 20 r:d., vildi eg segja. Nei! geldsauð og 20 ríksd. allt í einu. Nú kemr þjófrinn, spyr eg! ertu klumsa? ó!

Margrèt. Já! hann kèmr með - - -

Auðun. Með 5 gamla sauði! sýnist honum það, fantinum þessum!

Margrèt, Með tvo menn.

Auðun. Með tvo menn að reka 5 kindr? Eg var vitlaus, að eg setti ecki meira uppá við þrælinn (*grundar litit*) hvörsu mikið er fjórum sinnum 15 mark, Gissur minn!

Gissur. Það eru 60 mörk, 10 ríkisdalir.

Auðun. Æ, æ! ecki meira? Hann skal þá láta útí átta sauði, þá hef eg mína 20 r:d. enn það kemr vel á vondan!

Gissur. A hvern? hvað er þetta? hvör er sauðaþjófr?

Auðun. Það er hann Jón Jónsson á Heiðarkoti!

Gissur. (*undrandi*) Hann Jón Jónsson á Heiðarkoti! Nábúi minn! gamall maðr! hefr til þessa haft bezta orð á sèr! Fyrir 7 árum kom eg honum þángað sem þeim ráðvandasta manni, því mèr þókti mest á því ríða, að frómustu menn byggju til afdala, og í grend við afrètti manna. Fèck eg (því) fyrri ábúanda þaðan að kurr var í folki um hann, þó eckert utan skickanligt yrði um hann sannað, og ecki heldr annað síðan, svo líkligast er að það hafi verið tómt álas manna, sem öfunduðu hann af því hann blómgaðist vel; samt. rèði èg honum í vinsemi, að segja sig frá annara manna grunsömum hnjóð, og fara af jörðunni, sem hann og strax gjörði með góðu. Eg var þá og úngr hreppstjóri, og lèt gánga vel undan mèr. Ecki! ecki kannast eg við það, að hann Jón sè þjófr, og vel vandar hann sitt vinnufólk, hann er granni minn!

Auðun. Sá sem hyllir með þjófnum, hann er verri enn þjófrinn! Skilr þú mig?

Sigríðr. Gáðu að, hvað þú segir, heillin mín!

Gissur. *(litið úfinn í skapi)* Ecki kann hann að meina mig.

Auðun. þú sagðir eg skyldi eingum trúa, hana nú! það er aptr rángt.

Gissur. Enn af hvörju trúir þú að Jón sè þjófr, Auðun minn?

Auðun. það er nú það einasta sem eg trúi; þú veizt mig vantaði hvítan sauð í rèttinum í haust, í gær slátraði Jón sauð með sama alldri, sama lit, og sama marki, og fór leyniliga með höfuðið. Hvað segir þú nú, minn góði Gissur!

Gissur. Sè þetta allt víst, þá er von þú grenslist eptir, enn lík eru mörk yckar Jóns, enn hefr þú óræk vitni?

Auðun. Já, ójá! meir enn einum þjóf nægir.

## 5. atriði.

*(Nú er barið snöggliga, og geingið inn síðan qvedjulaust og heldr snúðugliga. Er þar Jón og tveir aðrir bændr).*

Jón. Hèr er eg kominn eptir brèfi þínu, Monsjör Auðun lögrèttumaðr!

Auðun. *(ofr reiðr)* Borga þú mèr strax, þjófrinn þinn! 8 sauði gamla; mèr nægir nú ecki leingr með fjóra.

Jón. *(alvarligr)* Eg bið yðr alla að minnast, menn og konur! *(verðr Gissurar var)* Sælir verið þèr, Gissur góðr, ég þacka yðr fyrir seinast!

Gissur. *(þurrligr)* Sæll vertu, Jón.

Auðun. Hvar er sauðrinn, sem eg skal hafa?

Jón. Eg er ecki þinn þjófr, Auðun! og einkis hef eg það verið, og einginn hefir mig þjóf lýst fyrr enn þú, og býð eg þèr nú fyrst sætt, ef þú vilt til fátækra gefa 10 riksd. fyrir þjófsnafnið, enn vottanliga aptrkalla æruleysis orð þín, og vitna èg þetta undir þig, Gissur! og aðra góða menn.

Auðun. Eg hefi vitni uppá þinn þjófnað!

Jón. Eg hefi vitni uppá að þetta er lýgi.

Auðun. Sýndu strax gæruna og höfuðið, ef eg skal ecki strax gjöra þig ærulausan, þjófrinn þinn!

Jón. Eg bið að minnast; hvörttveggja hef eg mèr og í sinni, enn nú ej; muntu fyrst verða að bevísa illmæli þitt, og þar þú ei vilt sættum taka: þá stefni èg þèr hèr munnligri stefnu, Auðun bóndi Illugason! að mæta að 14 dögum hèr frá liðnum á venjuligum þingstað og þínu varnarþingi Ottarstöðum, til að hlýða framsögn sakar minnar ákærur allar þèr ámóti, að ú mig illmælum lostið hefr, og mig þjóf nefndan. Tel eg þig þarum sekan, og ærulausan og minni mann hèðan í frá, að rèttum lagadómi, sem þá áqvarðar fullt sektafè mèr til handa, samt frekan málskostnað að rèttum framburði máls þessa. Mættu árdegis, og bið þú svo leingi sem rèttr tilsegir. Lýsi èg stefnuvætti þessu til þín, Jón bóndi Grímsson! og til þín, Björn bóndi Hallsson!

Auðun. Þessa stefnu ónýti èg strax; því allr dagr skal til stefnu, enn sól skal ráða á

sumar,

sumar, enn dagr á vetrum. Skilr þú það, þjófrinn þinn! lög kann eg við þig.

Gissur. Hèr er í vandræði komið. Segi hvör fram fyrir sig sína sök óttalaust, og lát mig heyra.

Jón. Það vil eg gjöra fyrir þín orð. Hèr er brèf Auðuns með egin hendi; lesið þèr, Gissur gó r! hátt. *(fær honum brèfið).*

Gissur. *(tekr og les).*

"Fyrrverandi Heiðursmann!

Þar þú sannr ert orðinn um að hafa stolið sauð mínum hvíta 5 vetra gömlum, drepið hann og etið; skaltu strax í stað borga mèr 5 aptr fyrir þjófnað; því lögin segja að einn sem stelr skuli gjalda ferfalt aptr; enn gjörir þú ei það, þá læt eg setja þig í járn og færa Sýslumanni, gjöri bú þitt upptækt enn þig ærulausan. Hèrtil er eg reiðubúinn.

Túngu þ. -- 1796. Auðun Illugason."

Lýstr ertu hèr nöckrum sinnum þjófr, bæði hart og hásugliga. Seg þú þá fram, Auðun minn! sök þína.

Auðun. Jón er sauðaþjófr.

Gissur. Það höfum við nú heyrt, enn hvar eru rök fyrir.

Auðun. Slátraðir þú ecki sauð í gær, Jón!

Jón. Jú!

Auðun. Var hann ecki hvítr, stór, og merkr í honum?

Jón. Jú!

Auðun. Var hann ecki hníflóttr?

Jón. Ojú!

Auðun. Nú er þjófrinn merktr, segi eg, Gissur minn! Hafði hann ecki blett á bakinu?

Jón. Ojú! borið hafði èg tjöru í lagðinn.

Auðun. Var ecki hvatt bæði, og biti aptan undir vinstra?

Jón. Ojú enn einginn biti, hvörki hægra nè vinstra.

Auðun. það lýgr þú! var hann ei fimm vetra?

Jón. Ecki! Hann var þriggja vetra!

Auðun. þetta lýgr þú aptr, og það sver eg, að þetta er bannsett lýgi.

Gissur. Hægt, hægt, viltu nú ej, Jón minn! sýna ockr gæruna og höfuðið?

Jón. Júju! gjarnan fyrir yðar orð, Gissur!

Gissur. Komum við þá allir. Sjón geingr förir sök hvörri. (*þeir gánga allir út nema Andrèas.*)

### 6. atriði.

Sigríðr. Laungum grunaði mig, að af þessu brèfi mundi illt hljótast, og rèði èg þó frá því sem eg gat, enn þess var ecki kostr.

Una. Ætli Hrólfr sè ecki sök í öllu þessu?

Margrèt. Já! nei, nej! Mèr leizt vel á Hrólf, og hefr hann víst ecki farið að ljúga það.

Andrèas. Sínum augum lítr hvör á silfrið, enn sè Hrólfr að norðan sögumaðrinn; þá er hann alræmdr prackari, og rekinn þaðan fyrir óknytti.

Margrèt. það er óvíst hvört þeir eru betri sem lasta hann; sletta og sumir íllu sem græðiplástrum yfir sínar egin meingjörðir og hrecki.

**Andrèas.** Sèrhvað elskar sèr líkt, Margrèt mín! og sleppum við því; enn uppkomasvik umsiðir, þó í fyrstu kyrrt fari.

**Sigríðr.** Nú ætlum við hèrna mæðgurnar, að biðja þig, Andrèas minn! að eiga góðan þátt í þessum málefnum.

**Una.** Eg þarf ei að biðja, eg veit að þú gjörir það, þú gètr, fyrir mína skuld, Andrèas minn!

## 7. *atriði.*

*(Gissur og hinir allir koma inn aptr. Gissur setr sig niðr og blæs þúngan).*

**Jón.** Nú veit eg víst að þèr berið mig undan þessu illmæli, Gissur góðr.

**Gissur.** Alt reynist satt sem þú segir, Jón minn! eins og mín tilgáta var um sakleysi þitt, enn þó má eg segja þèr, að eg þagnaði nockuð við, og hugsaði: einu sinni verðr alt fyrst.

**Auðun.** Líkligast þykir mèr þó enn, að þú sèrt þjófr, Jón! Hrólfr geingr fyrir tvö vitni í sökinni, því hann er geistligr vinnumaðr; það er að segja að hans hússbóndi Sra. Önundr er geistligr, enn geistligheit forplantast í ættir og familiur, það er á íslenzku hústólk, eins og göfugheit, aðall, góð hljóð, heiður, lán og gjörfi, líkamskraptr etc. Verið óhræddir! lögrèttumaðr er eg, og lög veit eg.

**Gissur.** Þetta kíf gagnar eckert, enn seg þú nú fyrir samvizku þinni, Auðun! og svo sem þú þorðir uppá að sverja með sáluhjálpar

eiði: heldr þú að það sè þinn sauðr, sem þú hefr nú sèð af gæruna og höfuðið?

Auðun. (*þeinkir sig um*) Ecki er það minn sauðr; enn mig vantar sauðinn, og Hrólfr - - -

Gissur. Hrólfr er, sem þú veizt, orðinn hèr uppvís um þá órímiligustu lýgi. Nýliga hefr þú grátið yfir honum fyrir svik og falskleika við sjálfan þig, þar hann á dryck-lángri stundu hefr narrað þig um 20 ríksd. Illmæli hans við sýslumann sinn að saklausu sagðir þú mèr áðan úti. Dæmdr er hann áðr fyrir óknytti, rekinn úr Norðurlandi, sýslu- og prestspassalaus. flackar hann um alt land; er hann rèttr tukthússpiltr að mínu áliti, og þetta eru öll þín vitni, Auðun minn! Ecki munu finnast lakari.

Auðun. Já það er satt; enn eg trúði Hrólfi þá; enn eg skal aldrei trúa honum hèðan af eða öðrum, og held eg Jón sè nú saklaus.

Jón. Saklaus er eg, Gissur góðr! það veit hamingjan. Enn vilir þú, Auðun! við mig sættast, þá gefr þú mèr 10 ríksd. til fatækra; annars fer eg fram stefnu minni. Ecki vil eg á þèr ábatast, enn heldr kenna þèr eptirleiðis ecki að trúa öllu slaðri, eðr ljósta aðra menn æruleysis orðum.

Auðun. Aldrei einn hálfan skildíng! 20 ríksd. hefir Hrólfr svikið af mèr, og þú vilt hafa 10 ríksd. fyrir eitt orð, sem eg talaði í grandleysi; þetta ero 30 ríksd. á einu qvöldi. Á eg þá að verða óluckuligr, með konu og forstöðulausri dóttur. Enn stefnuna hef eg ónýtt.

Jón. Borgir þú mèr ecki, gjöri èg þig ærulausan; því skrifað stendr æru fyrir æru og tönn fyrir tönn.

*(Andrèas geingr að föður sínum, hvíslar að honum jafnt og þètt, stendr alltaf hjá honum; enn Sigríðr og Una vísa sig staðlausar fyrir útfallinu.)*

Gissur. Villð þið, eg gjöri um málið með yckr?

Jón. Já feginn!

Auðun. Jájá! enn dæmdu þá einusinni rètt, Gissur!

Gissur. *(þegir lítið og hugsar sig um)* Jón er saklaus að illmælinu, og á ecki að þola æruleysisorð fyrir eckert, óbilliga sáttargjörð hefir Jón ei boðið, og 10 riksd. eru ej ofmiklir að kaupa fyrir æru sína. Þá æru, sem einn hefr eitt sinn mist hjá sínum meðborgurum, fær hann ei svo lètt aptr. Satt er það að kóngr gefr hana stundum, enn hún kemr mèr fyrir eins og gylling. Auðun er ecki heldr einsamall orsök til illmælisins,

Auðun. *(sem altaf er titrandi af hræðslu talar frammí)* það veit drottin minn! það var orð og að sönnu.

Gissur. Heldr er Hrólfr með, ega þeir þá báðir eptir verðskuldan að svara þeim 10 ríksdölum.

Auðun. *(titrandi)* Hrólfr öllu, öllu.

Gissur. Nú veldr sá miklu sem upphafinu veldr, enn það er Hrólfr.

Auðun. *(titrandi)* ójá, ójá!

Gissur. Enn þó getr eigi Auðun strafflaust afkomizt;

Auðun. *(titrandi)* æ! æ! æ!

Gissur. Heldr sökum þess, hann hlýddi raustu Hrólfs, og lýsti Jón þjóf saklausan; þá skal hann til sveitarinnar og í hendr Jóni gefa þá rauðskjöldóttu qvígu, sem hann á, og nýliga feingið hefr.

Auðun. Ohó, æ, æ! ó! Herrann hjálpi mèr! nej, nej! aldrej.

Gissur. Og sèu hèr nú sáttir, sem aldrei hefði í-skoriz', og búið er nú!

Auðun. Eg appellera til yfirrèttarins, og deponera*) 9 mark i rèttinum, og begeri útskrift af öktum.

Jón. Eg þacka yðr, Gissur minn! góða gjörð og náttúrliga, èg sæki qvíguna seinast í þessari viku; því appellið er vitlaust, þar eð Auðun hefr vold-gefið sökina. I qvöld strax fer eg til hans Eiríks á Aumalæk, og gleð hann með því að hann hafi feingið sèr qvígu til lítillar bjargar. Verið sæl, öll saman! lifið þèr alla tíma sælir, Gissur góðr! (*geingr burt með tveimr sínum mönnum*).

8. atriði.

(*Andrèas. Sigríðr og Una þacka Gissuri sætt þessa með kossi og handabandi; enn Auðun geingr sem ærr um gólf, og rífr sig með báðum höndum í höfuðið*).

Auðun. Eruð þið vitlaus að þacka fyrir mína skömm og skaða? 20 ríksd. sviknir frá mèr, stolinn minn bezti sauðr, og ofan í kaupið mist qvíguna, bezta kýrefnið úr fjósinu.

*) *Al.* depûrgera.

Gissur. Manstu ecki í hvörja sekt þú tókst qvíguna þá, og af hvörjum?

Auðun. Þú vilt segja að illr feingr illa forgeingr. Nú man eg alt, og læt það svo vera. Því ecki var qvígan í fyrstunni mèr svo dýrt keypt; enn hjálpaðu mèr nú, Gissur! að ná minu aptr frá Hrólfi svikara!

Gissur. Annað mál er það! þar hefr þú rètt að mæla, Auðun! enn hvar ætlaði Hrólfr að gista í nótt?

Sigríðr. Hann reið að hálsi.

Andrèas. Það er hægt, faðir minn! að ná honum, ef maðr hefði árángur á því; enn Hrólfr er viðsjálsgripr, og svo leingi ælir maðr prettina til þess þeir verða að handverki.

Gissur. Ecki svíkr hann úr manni vit og rænu, þó maðr sjái hann sem snöggvast, og skal eg að vísu fara.

Margrèt. *(kastar orði frammí)* Hrólfr er svo vitur að hann er ecki yckar meðfæri, sterkr er hann að ecki þurfið þið að fara í hendrnar á hönum, fær hann og fljótt hüfðíngja í fylgi með sèr.

Andrèas. Já böðulinn, máske!

Margrèt. Kaupin eru fullgjörð og kunna ecki að rjúfast.

Gissur. Ef eigi eru með svikum gjörð, enn þegi þú nú, Margrèt, mín, og vertu sem trúust hússbændum þínum, og hugsaðu ætíð eptir því, að ódygð slær sinn eginn herra um hálsinn fyrr eða seinna; heyrðu það! Nú tek eg hest Hrólfs og ríð að halsi strax, og reyni hvörneg ockr tilskipast. Opt missa skelmirar dugnað, þegar til þeirra er tekið. Enn far þú nú heim til mín, Andrèas! á meðan

með það sem við höfum meðferðis; kom þú svo híngað aptr, og sè eg þá ei hèr, svo finndu mig strax að hálsi. Stattu eigi við, og mundu mig um það. *(Nú reisir Gissur sig til ferðar, enn þá er barið)*

9. *atriði.*

*(Eiríkr á Aumalæk kemr inn fátækliga enn þó hreinliga klæddr. Hann heilsar öllum með handabandi. Auðun nýr hendrnar, og rífr lítið í hár sèr.)*

Eiríkr. Takið eigi illa upp, èg gat ei stillt mig um að koma híngað strax, þegar Jón sagði mèr yckar góðgjörðir ímóti mèr og mínum.

Auðun. *(bistr)* hvaða góðgjörðir?

Eiríkr. Qvíguna, sem þèr af höfðíngskap gáfuð mèr, eg get það aldrei verðugliga þackað; mitt hjartans þel get eg auðsýnt, og það er það einasta sem einn fátæklíngr getr borgað með. Hún Olöf mín ól barn í gær, og nú getr það feingið lítinn dropa og hin börnin 3 innan skams, því kýrin mín fer senn að bera. Eptir það hún Olöf mín var orðin lettari, var var hún altaf stúrandi, og grèt þess á milli, því það er optast fátækra hæli: enn nú er hún glöð, börnin fóru að leika sèr, og eg rèði mèr ecki heima. Jón sagði að varla hefði Gissur verið búinn að nefna mitt auma ástand, fyrr enn Monsjör Auðun hefði sagt, að hann skyldi gefa mèr qvígu, enn hún Sigríðr mín hali strax viljað láta leysa hana út og færa mèr.

Herrann

Herrann launi yckr öllum bezt *(hálft kjökrandi)* međ klöckvu hjarta! skal eg ætíđ minnast yđar höfđingskapar, Monsjör Auđun! og ecki hefir kona mín fyrr á fætr farit, enn hûn hleypr hingađ og þackar fyrir barnûngans líf, og ađ yđar stóri höfđíngskapr frelsađi oss öll frá sveitinni og ađ betla, já máske ađ stela. Guđ varđveiti mig! — Eg þori ei ađ vera leingi burtu; því mèr heyrast börnin vera ađ kalla, og konuna vanti eitthvađ *(qveđr alla međ handabandi, sem fyrr, og auđmjúkt, enn allir taka undir).*

## 10. atriđi.

Auđun. *(kallar eptir honum þegar hann fer)* Eg skal láta flytja qvíguna til þín á morgun, áđr enn hûn er mjólkuđ, Eiríkr minn!

Gissur. *(stendr upp og kyssir Auđun)* Hafđu þöck! nú hefr þú bæđi heiđur og ánægju af öllu þessu; svo skammarliga sem áhorfđist fyrir þèr, og mikiđ værin er Jón á Heiđarkoti, og þetta bragđ skal eg muna honum.

Auđun. Eg iđrast nú aldrei eptir þađ, Gissur minn! Það fór vel. Enn nú skulum viđ öll hjálpa yckr á stađ, þèr til Hrólfs, enn þèr, Andrèas minn! heim međ farángur yckar, og svo kemr þú híngađ aptr.

Andrèas. Eg er orđinn helmíngi lèttari á mèr enn eg var áđr; nú fýk eg eins og fiđrildi.

Það er svo sætt ađ gjöra gott,
gleđja sig svo af annars kæti;

fátækan eltir auðgra spott,
aumíngjann stoltra rembilæti.
Hjartað í brjósti hermir mèr:
hraustum að styðja veikan ber;
yndæli þvílikt eg aldrei fann
eins og að styrkja náúngann,
yndæli þvílikt eg aldrei fann
eins og að gleðja fátækan.

*(I því þeir gánga út, og sumir eru útkomnir, grípr Margrèt klútinn Hrólfs og nálarnar, hleypr aptr og hrópar).*

Margrèt. Hússbóndi góðr! hússbóndi góðr! bezt er að leggja klútinn og nálarnar þær arna út í skemmu; altíð er Mánga yðar eins trú og samheldin *(fer eptir út)*.

---

## III. AKT.

### 1. *atriði.*

*(Margrèt kemr skyndiliga inn með böggul nockurn undir hendinni, tekr kistils lykla sína, leggr bögguIskautann vandliga ofan á. Hún heyrir í því sama hússbændurnar koma, skellir því aptr kistlinum; enn verðr svo naumt fyrir, að hún gleymir lyklinum í skránni, og stendr hann ólæstr, enn hún setr sig að verki sínu og segir).*

Margrèt. Eg skyldi hafa hjálpað yckr í fjósinu, því fyrir laungu er eg búin að láta

upp með honum Andrèasi, èg gat eigi leingr staðið yfir hans slóri, heldr fór eg strax til vinnu minnar, því hússbændanna gagn stunda èg umfram alt. Nú undi èg mèr ecki af því þið voruð svo lángan tíma burtu, ætlaði því að fara ofan í garð til yckar; enn þorði það ecki fyrir myrkfælni, því húndarnir voru að ólmast og gelta; það voru ecki almennilig læti; èg þori að segja þar hafi eitthvað óhreint verið á ferð, annaðhvört draugr eðr aptrgánga: sumir settu upp spángól, sumir urruðu, sumir geltu, sumir hljóðuðu, sumir rifu upp jörðina, sumir flugust á, sumir - - -

Sigríðr. Hættu þessu bulli!

Auðun. Eitthvað hefir það mátt vera, og ecki er Mánga vön að skrökva, og trúi èg víst, það hafi verið eitthvað óhreint, eins og hún segir, elligar fyrirburðr einhvör.

Sigríðr. Oskandi væri að eckert ílt hefði iskorizt með þeim Gissuri og Hrólfi, mèr líðr ecki Hrólfr úr minni svo fljótt.

Auðun. Það skyldi ecki vera að það væri fylgjan hans Andrèasar; því aldrei hefi èg sèð hann eins kátan og vingjarnligan, hann var svo lèttr í spori, þegar hann átti að fara á stað, hann hoppaði og saung rètt eins og feigð kallaði að honum.

Una. Einga vonda fylgju held eg hann hafi; enn hann sagðist mundu bidja yðr bónar, þegar hann kæmi aptr í qvöld, og gat hann um það við móður mína, og máske litið við mig, enn móðir mín gaf honum svo sem heldr vilyrði.

Auðun. *(svo sem spozkr)* Enn hvað sagði Júngfrú. Una litla.

Una. *(klappar honum á höndina)* Eg sagði, þèr skylduð öllu ráða, faðir minn góðr!

Auðun. Ojá! barn mitt! og skal það nú alt vera undir því komið hvörnig hann (Gissur) útrèttir mitt eyrindi við Hrólf, og talar þar mínu máli.

Margrèt. Eg hafði nærri gleymt að segja yckr, að mèr heyrðist eins og hestatramp í kríng um allan bæinn, og svo sem mest í kríngum skemmuna, enn hundarnir ætluðu að ærast, þeir stóðu uppá aptrfótunum, þeir ýlfruðu, þeir vældu, þeir skræktu, þeir geingu aptr á bak, þeir - - -

Sigríðr. Þegi þú! èg vil ei heyra slíkt; þeir hafa verið að gelta, af því hann Andrèas fór úr hlaðinu með svo marga hesta.

Auðun. Nej, nej! trúi èg þessu, sem Margrèt segir, hún er aðgætin og greind; eitthvað er þetta, og mun það síðar uppkoma, enn einginn skal einn útgánga í qvöld. Varsemi skaðar aldrei, mörg eru dæmin. Maustu ecki eptir púkanum í salerninu í Kristindómssögunni, farið þið ecki einsömul útaf dyrunum. *(Enn heyrist hundagelt og svo sem dunur undan hestum eða mönnum, eins og einhvör komi).*

Sigríðr. Einhvör ríðr þar í hlaðið, viltu, Margrèt! vita hvör það er? annaðhvört Andrèas eða Gissur.

Margrèt. Nej! fyrr enn mig að drepa, èg þori það ecki.

Auðun. Eg er óhræddr, èg skal fara, og það útá hlað og í kríng um allan bæinn enn fylgdu mèr með ljósi, Una litla! út í bæjardyrnar *(gánga bæði út).*

Sigríðr. Vertu ecki að því arna, heillin mín! það er ei heldr draugr enn eg er.

2. *atriði.*

Margrèt. Ecki skuluð þèr segja það, móðir góð! margt hefi èg sèð, sem eg nú ei nefni.

Sigríðr. þegi þú einhvörntíma, Margrèt! mèr er opt illa við þinn þvætting, èg veit ei hvörju það gegnir; enn það lízt mèr sem þú ætið hvetir heldr upp til óróa, enn semir til friðsemi. Eg vildi þú værir í burt, því þú hvetr upp til alls ills; opt hefi èg beðið þig að láta það vera, enn --- *(heyrast hljóð Auðunar heldr ljót, sem nálgast meir og meir til hann kemr inn, og lætr sem mèst æðiliga).*

3. *atriði.*

Auðun. þjófnaðr, innbrot, rán, óbótamál, heingíngarsök, eylíft tukthús, Brimarhólmr, járn og steglur!

Sigríðr. *(hrædd)* Hvað er á ferðum?

Auðun. Brotin upp skemman mín, stolið! stolið! allt stolið, brotið upp, kistur, skrínur, skápar, meir enn fyrir 20 ríksd.

Sigríðr. Hvörju er þá stolið?

Auðun. Öllu, öllu! nýi klútrinn og silfurnálarnar! og meir! æ, æ!

Sigríðr. Hver hefr stolið?

Auðun. Allir, allir! *(bendir út í hópinn sem við er)* þú, þú, þú! hefir stolið?

Sigríðr. Vertu hægr, heillin mín! Er ei meir þá stolið enn klútrinn og nálarnar?

Auðun. Ecki sá eg annað; ójú! alt er stolið og brotið, og dyrnar upp á gátt, óh óh!

Sigríðr. Sè ei meira stolið enn þetta tvent, þá látum ockr hægt, Auðun minn!

Auðun. Hvör sem það hefir gjört; þá skal eg láta færa mig úr skyrtunni, að hann verði heingdr.

Margrèt. Hèr hefir einginn lifandi maðr verið, svo eg viti, nema hann Andrèas.

Una. Saklaus er hann!

Auðun. Vísast er það, enn hans draugagángr alt qvöldið! Nej, þar kunna þó aðrir að vera, því allir vilja nú eyðileggja mig alt í einu.

Margrèt. Leingi slóraði Andrèas hèr.

Sigríðr. Það er það sama, hann er saklaus.

Auðun. Trú þú eingu, sagði Gissur, það skal og vera, svo sem eg lifi *(nú er barið á dyr)*.

*(Una og Margrèt gánga og ljúka upp; enn á meðan segir Sigríðr)*.

Vertu nú stiltr, Auðun minn! á meðan, svo ecki beri neitt á neinu.

Auðun. Eg skal gjöra það, èg set mig hèrna. *(Setr sig á stól með hönd undir kinn)*.

## 4. *atriði.*

*(Una og Margrèt koma inn með Andrèas, hann heilsar, enn Auðun þegir)*.

Sigríðr. Fanstu eingan á vegi þínum, Andrèas?

Andrèas. Nei! *(svo frískr og kátr).*

Sigríðr. Einhvör hefir brotizt inn í skemmuna ockar Auðuns míns, og stolið klút og nálum það, sem keypt var af Hrólfi.

Andrèas. Ecki kann hann að hafa gjört það, því hann var á hálsi. *(Margrèt geingr til Auðuns og hvíslar að honum eitthvað, og bendir á vasa Andrèasar, upp úr hvörjum að hángir klútr).*

Auðun. *(Starir til Andrèasar nockuð; stöckr upp og grípr í brjóst honum segjandi).* Vinr! hvað, er þetta? *(dregr upp klútinn, sem er rètt eins og Hrólfs klútr)* hvar hefr þú stolið honum?

Andrèas. *(hálf-skelkaðr)* Eg keypti hann áðr enn eg fór, hèrna hjá honum Jóni litla í hjáleigunni fyrir 5 mark og 2 skild. því hann hafði ecki gefið nema 5 mark fyrir hann sjálfr.

Auðun. Veit nockur til þess að hann egi svoddan klút.

Margrèt. Eg þori að segja: að hann hefr aldrei átt.

Auðun. Vel, við skulum sjá eptir nálunum *(rífr óþyrmiliga frá hálsinum og finnr þær)* ó, ó! hèr er sá rètti Júdas. Hèr er einn þjófr, á bolta og járn með þig. Reipi; Margrèt!

Margrèt. Já strax, hússbóndi góðr! *(fer).*

Auðun. *(sem altaf hefr Andrèas fastan)* þú skalt heingjast, þó 100 Gissurar væru þínir feðr. *(til Sigríðar)* Er hann ei þjófr?

Sigríðr. *(hlessa)* Eg skil nú eckert.

Una. Hann er öldúngis saklaus.

Auðun. Já saklaus skal hann verða af þèr hèðan í frá og að eilífu, amen!

Margrèt. *(kemr inn með reipabagga)* Hèrna held eg sè nóg á hann til morguns.

Auðun. Olarreipi um hálsinn; kaðalreipi um hendrnar, hárreipi um báðar fætrnar, þrjú reipi! taktu þaug, Mánga! og það þau nýustu.

*(Margrèt fer til með mestu handfimi).*

Una. *(geingr til móður sinnar)*, Æ móðir mín góð!

Sigríðr. Ecki skaltu, heillin mín! leggja á hann bönd fyrst, fyrr enn Gissur kemr, enn látum hann vera hèrna inni í baðstofuhúsinu á meðan, hann er þar eins vís og þó hann væri vafinn í vaðmálum.

Margrèt. Enn út um gluggann!

Sigríðr. Haltu á þèr munninum, dubbari þín!

Auðun. Eptir lögunum skal einn þjófr fjötrast, og kostirnir bindast á hans bak, og svo skal vera.

Sigríðr. Láttu nú einu sinni eptir mèr, heillin mín. *(Hún og Una gánga til hans og blíðka hann).*

Auðun. Farið þið þá með hann inn í hús; enn ef þið látið hann sleppa, já, já! - -

Una. Eg ætla að setja ljós hjá honum.

Andrèas. Eg er hreinn og saklaus, því hvörttveggja hef eg keypt þar sem eg sagði, áðr enn eg fór í kaupstaðinn. *(Mæðgurnar leiða hann með sèr burt).*

### 5. atriði.

Margrèt. Nú er auðsèð hestatrampið, sem úti var, og hundageltið í qvöld; hefði èg

ei

eiⁱ verið svo hrædd, skyli hann eigi fyrr hafa brotist inn í skèmmuna, enn hann væri búinn að hafa mig undir og troða ofan á lífið á mèr; trú er eg yðr og skal vera.

Auðun. Eg veit það. Mánga litla! þú hefr ætíð verið mèr trú og einlæg, èg skal einhvörntíma sjá það við þig, veslíngr!

6. *atriði.*

*(Mæðgurnar koma inn).*

Sigríðr. Hlýddu nú einu sinni ráðum mínum og sendu ofan í hjáleiguna eptir honum Jóni; og spurðu hann að, áðr enn Gissur kemr, svo alt sè vafalaust og á reiðum höndum.

Auðun. Ojù, nóguvel! því fleiri bevis þess vissari þjófr, fleinging, heingíng, brennimark, eða hvað það kann að vera. Farðu strax, Mánga litla! biddu hann Jón að finna mig.

Margrèt. Ojá, strax! skjaldan stend eg við leingi, þegar mèr er skipað; ecki ætla eg samt að láta hann vita eyrindið, er ecki rètt?

Auðun. Ojú! rètt ypparligt! *(hún fer).*

7. *atriði.*

Sigríðr. Otrúligt ykir mèr nú það, að Andrèas skuli hafa brotizt inn í skemmuna og stolið þar, og það í qvöld, þegar hann hafði ásett sèr að bidja hennar Unu, hafði feingið föður sinn með sèr í fylgi, var búinn

að nefna það við mig og afgjöra það með henni, svo á aungvum stóð, nema þèr.

Auðun. Þú getr ecki rekið sjálfu þig úr vitni þarum; klúturinn er dreginn upp úr vasa hans, og nálarnar rífnar af hálsinum á honum.

Sigríðr. Já það var nú það! Hèr var heldr eingiun annar, og væri eigi Mánga svo kjöptug og kindug, sem altið hefi èg grun um; svo væri hennar vitnisburðr nockuð óhaganligr fyrir Andrèas; en aldrei hefr neitt orð leikið á hönum og ráðvandasti maðr er Gissur.

Auðun. Ecki er leingi að að koma og einu sinni verðr alt fyrst. Fjandinn er ecki iðjulaus; hans pílur eru öldúngis óþrjótandi einginn sèr við þeim eins og honum Ivari skýttu. Til dæmis: Ivar læðist, Ivar siktar, Ivar skýtr, hæfir tóa fær skotið, teygir sig niðr á jörðina, deyr, verðr tekin, gripin og flegin. Skollinn læðist siktar, skýtr; Andrèas fær skotið teygir sig inn um skèmmugluggann, stelr, verðr gripinn af Böðlinum, og flegin af honum húðin á einu augnabliki. Skilr þú mig nú heillin mín!

## 8. atriði.

*(Heyrist lítið þrusk, lokið upp, Gissur kemr dragandi Margrètu undir hendinni, sem ei getr staðið. Hann heilsar, Auðun tekr þurrliga undir enn Mæðgurnar vel.*

Gissur. Nú þóttist eg heppnastr maðr, að eg gat hjálpað þessum aumingja; Hún lá á svellinu fyrir neðan skemmuna; hefr dottið og gat eigi reist sig, því hún hefir lestiliga

meitt sig í lærinu. Hún hefði þar dáið, ef ég hefði eigi komið. það er og nær því samvizku verk að senda qvennfólk út í náttmyrkri í soddan dauðans hálku.

Auðun. Eg spyr að samvizkunni hans Hrólfs (*þurt*).

Gissur. Bezt er að gæta að hvað að henni geingr, hún getr ecki geingið.

(*Margét hljóðar stundum og veinar sèr*).

Auðun. Hvernig geíngr Hrólfi? spyr ég!

Gissur. Nú, nú, nú, nú! hana þá! Eg er kominn aptr á honum Rauð þínum og þar eru 2 riksd. sem þú gafst ofmikið fyrir klútinn og nálarnar (*fær honum*).

Auðun. (*feginn*) Blessaðr vertu fyrir! enn (*hugsar sig um*) síðan þú fórst er brotinn upp skemman min, klutnum og nálunum stolið, èg náði þjófnum, dró upp klútinn, leysti úr nálarnar og vildi binda hann til morguns.

Gissur. það var rètt; lýmska, þjófnaðr og lýgi eru þeir lestir, hvarí manneskjan yfirgeingr skynlausar skepnur.

Auðun. Hèr eru kostirnir (*sýnir klút og nálar*) þeckir þú eigi aptr klútinn og nálarnar?

Gissur. Ojú! ecki sè eg betr (*skoðar klútinn*) ójú! sami held eg það sè. (*Skoðar nálarnar*) þær eru af silfri sè eg; enn það var eins og mer sýndist þær af metalli, enn það er vísast eg hafi litið skackt til, enn sama er módellid.

Una. (*bragdfljót*) Hrólfr sagði og að stöckt væri á nálunum.

Auðun. þegi þú! Hefi èg nú rángt gjört að arrestera þjófinn, hvörra manna sem hann er?

Gissur. þó það væri minn egin sonr, þá kann èg það ecki að lasta; enn á flet sýslumanns áttu strax a morgun að flytja hann.

Auðun. Má eg ei láta sækja hann? svo þú spyrir hann sjálfur.

Gissur. Ecki skipti èg mèr af því, enn þó máttu ráða.

Auðun. Sigríðr mín! gètr þú ecki sókt hann.

*(Hún játar, fer út; Una er órólig, enn Auðun gèingr um gólf).*

9. *atriði.*

*(Andrèas kemr inn og heilsar föður sínum enn Sigríður kemr á eptir)*

Andrèas. Hèr er èg orðinn fyrir þjófnadarsök, faðir minn! enn er saklaus.

Gissur. Hefr þú stolið þeim klút og nálum, eða eru þær þèr áhángandi?

Andrèas. Já hverttveggja á èg.

Gissur. þorir þú að ljúga að honum föður þínum, þinn! - - þinn! *(tekr að skjálfa af reiði).*

Andrèas. Ecki er èg þjófr og aldrei veit èg mèr hafa verið kent það fyrr.

*(Gissur svo sem æðir upp og vill berja Andrèas; þær mæðgur vilja stilla hann, enn hann hrindir þeim frá sèr; hrasar þá Sigríðr um kistillinn Margrètar sem byltist um og útúr honum veltur sá fyrnefndi böggull. þennan grípr Una, finnr þar klútinn og nálarnar, og hljóðar upp yfir sig og segir).*

Una. Hèrna faðir minn! *(Gissur er þá tekinn til að dusta Andrèas, enn gætir þó loksins að, og segir).*

Gissur. *(tekr á móti)* Hvað er þetta?

Una. Ur kistlinum hennar Margrètar.

Gissur. *(skoðar og grundar)* þetta er það rètta! segðu mèr nú, Margrèt! allan sannleik, eða èg skal - - -

Margrèt. *(hrædd)* Eg skal - - èg skal - - fyrirgefið mèr! Eg fann skèmmudyrnar opnar og stal èg þessu; ætlaði èg að gefa það honum Jóni mínum i hjáleigunni; ætlaði èg nú seinast að hlaupa til hans; og láta hann vita hvað hann skyldi segja; enn èg datt á svellinu fyrir utan skemmudyrnar, èg held èg hafi brotið í mèr læríð; ætlaði èg að koma öllu uppá Andrèas, því eg vissi að Gissur mundi hafa einhvör ráð til að frelsa hann. Hèr er alt.

*(Una er glöð, enn Sigríðr undrunarfull, Auðun nuddar hnefum saman, enn Gissur stillir sig).*

Gissur. *(til Margrètar)* þú er bæðði stórþjófr, dróttins svikari og forráðamaðr saklauss úngmennis.

Margrèt. Eg tilstendí allt, og lá undir yðar dómi, enn í þrjú ár sem èg hèr; verið hefi, hefi èg einginn laun feingið, hefi èg því orðið að pracka mèr til, það èg hefi getað til fata og annars. Komazt hefi èg viljað hèðan fyrir laungu; enn af því èg hefi ecki feingið laun mín, hefi èg orðið að bíða, þó ætladi èg nú að vori burt, þó aldrei hefði èg feingið einn skildíng, því við Jón litli í hjáleigunni ætluðum að taka saman, þrátt fyrir Auðuns þack.

Auðun. *(bistr)* Fyrst skal èg nú gipta þig því heila hákonúngliga tukthúsi.

Gissur. Rètt held èg, hún sè þartil kjörinn; enn þó má èg segja þèr, Auðun mín! ad sá sem ei lætr vinnufólk fá í rèttan tíma það sem það á að hafa, kennir því að stela og fleiri óknytti ef til vill. — En annað var mitt eyrindi! það er stutt! viltu ecki gefa honum Andrèasi hana Unu dóttur þína, Móður hennar er það eckert á mót, og stúlkan sjálf því ecki fjarlæg.

Auðun. *(þeinkir sig lítið um)* þá er alt þegar þrennt er, og hèrna er mín hönd Gissur!

Gissur. Höfum við þá öll handsalað þeim kaupum *(öll handsala í einum hnappi)*. Hèr mun þá ei þurfa vitna við; enda er hèr einginn vandalaus síðan Margrèt datt úr sögunni.

Margrèt. Eg gèt þó verið yðr gott vitni, Gissur góðr! ef þèr forlíkið mína yfirsjón við húsbóndana, og fyrirgèfið mèr sjálfir það èg missbrotið hefi við Yðr og son yðar og fríið mig svo frá tukthúsinu. Enn í minníng þess að hann Andrèas og hún Una mín trúlofuðust á þessu qvöldi sem mèr stendr til að verða það luckuligasta og honum Jóní mínum, þá veit èg víst að þau leggja sína bón fyrir mig, og þá er èg frelsuð. Eg skal eptirleiðis. - - -

Andrèas og Una. *(bæði í einu)* Ojá! faðir minn! æ! móðir góð! forlátið henni Margrètu *(þaug klappa, kyssa og faðma sem vingjarnligast til skiptis Auðun, Gissur og Sigríði)*.

Auðun. Nú! hana þá! ójá, það skal vera; enn skafaðu strax burt af þessu heimili.

Margrèt. Ojá! *(grípr kestilinn og queðr með mesta hasti).*

Andrèas og Una. *(taka þann stolna klút og nálar og gefa henni að skilnaði)* Eigðu það sem þú hefr aflað Margrèt! og sè þèr það ætíð hugvekja, að iðrast brota þinna, halda þèr af þeim, betra þinn lifnað, og hugsa jafnan á það, að þú fyrir annarra með algaungu bjargadist, frá skipbroti á æru þinni.

*(Hún haltrar út, enn hinir fara litlu seinna).*

*Endir.*

---

LITTERAE

*a puella Islandica, nomine* Sigridr *(diminut.* Sigga) *ad coguatum in Dania degentem aliquot abhinc annis scriptæ, qvas benigne mecum communicavit clarissimus, eruditissimus, mihiqve amicissimus Finnus Magnæus Professor, &c.*

*Stödd á Vatnarnesi.*

Godi Frændi!

Þegar èg vissi ad flestir þínir vinir og skyldfólk fór ad skrifa þèr til, þókti mèr so mikid fyrir ad verda einn eptir af öllum, og reyna ecki ad pára þèr einhvörja vitleysu að gamni minu; enn hvört brêfrefnid á að vera veit èg ekki. Þú skrifadir lika þeim flestöllum til, enn þótt þú gætir ecki farid ad hafa ómak fyrir ad skrifa mèr til furdar mig ecki, þessvegna ad èg var eingin madr ad launa þad. Hèdan er

ecki mikid ad frètta, enn ef nockud væri, þá færdu þad ad vita frá þeim, sem betr geta komid því í stylinn enn èg. Þórdr er kominn aptr med sætum sigri, og mátti seggia þarvid: betra var seint enn aldrei. Eg heyri sagt þu hafir farid ad Odda, og litizt þar vel á med allt slag. Gódr gud gefi þèr gángi ætíd vel. Eg hefi verid sköck í fæti leingi í sumar, er soleidis orsakadist: èg fór inn ad Kollaleirn ad sækja ljá handa mèr til ad slá med, enn var eins og vant er: eg hafdi ecki nema einfalda Þófa-dyrn à hestinum, lèt eg so ljáinn í brekáns brotid, og so fór eg ástad, enn þegar eg kom út fyrir túngardin, datt eg af baki, og lendti so ljárinn í utan fótar öcklanum á vinstra fæti, skarst so ædin í sundr, sem ecki vard fyrr en vist eptir 6 tíma stemd. Þetta skedi rètt eptir ad bródir minn var kominn heim. Hann kom þegar 16 vikur voru af sumri, hef èg so eckert getad gjört sídan, utan èg hefi sókt híngad aflann med Gudnýu ockar. Þad er sagt hûn furi ad Leigurgerdi í vor, í von um ad Björn Jónsson vildi hullast ad henni. Eg ósku henni til lucka, ó verdi þad! Eg er nú ecki ad þessu bulli leingr; enn uppá allan ockar forna kunningskap gjördu so vel, og forláttu þettad klór; enn hrædiliga verd èg vonarlig, þegar brèfin fara ad koma fra þèr í vetur. Vertu alla tíma blessaðr og sæll, þess óskar þín einlæg, enn lítils orkandi

Siggu-tetur.

# PARADÍSUR-MISSIR

Sra Jóns Þorlákssonar.

(úr fjórdu bók.)

*Adam og Eva tala saman í Paradís, en Satan hlustar til.*

Hefr hann sig ofan
af hán trè,
þa í ferfættra
flocka leíki,
og brá yfir sig
ýmsra dýra
húdar hömum
hins og þessa.
Eptir sem mat hann
myndir þeírra
nytsamastar sèr
til at nálægiast
girnztu herfángi;
sva gæti þeckt
sjálfr óþecktr
og sjón dulinn
kosti þess og kjör
af kendu tali
edr ödru því
er ad hefdist.
Nú í ljóns líki
fer hann leikandi
augum eldligum
þau umhverfis;
nú sem tígrisdýr,
þat er tveímr á
hefir hornauga
lindar kálfum,
hoppandi í skógi
vid skin sólar,
leggst ýmist nidr
eda uppgægist.
Myndar þat sig til
margvísliga,
og leitar lags
sem listkænn madr,
úns í færi kemst
fullrar vissu
at skjótast at þeim
med skyndíngu,
og géta grimmum klóm
gripit báda.
So lá Satan nú
svikum þrúnginn
og vard allr þá
í eyrunum,
er hann fyrsta mann
vid fyrstù qvinnu
heyrdi svo nýju
hreifa máli.
"O þú einasta,
sem átt í þessi

hlutdeild medr mèr
miklu sælu:
ert sjálf einn partr
minnar ánægju,
og ein ástkærust
af öllu mèr!
Eflaust er sú makt,
sem ockr skóp,
og vída veröld
til vorra nota,
audug af gæzku
óendanliga:
eigi minnr ör
til at útbýta
alls góds audlegd,
enn óendanlig;
þar hún daudu lèt
af dupti vakin,
og í sælu gnótt
setti þessa
ockr sem einkis
höfdum unnit til,
og ei gátum gert
henni gagn minnsta.
AEskir og eigi
sá er ockr skóp
neinnar þjónustu
nema þessar,
at þat it eina
so áudveld bod
geymùm grandvarla,
sem gaf hann ockr:
at af allri mergd
eika þeirra,
sem í Paradís
sína rètta
ockr ávexti
ypparligustu
einnar einasta
óábergdan
skulum skirrast,
sem er skilníngs-très.
Er þat ítran næst
vid ask lífsins
hans enum högu
af höndum sett:
hèr er hvort ödru
harla nærri
látit liggja svo
líf og daudi.
Hvad sem daudinn er,
hlýtr vera
eflaust eitthvad hann,
sem er ógnarligt:
gjörla heyrdir þú
þad Gud sagdi;
ef at neyttum vid
nockru sinni
af trè hèr hermdu
hèt hann dauda.
Krafdist hann þessa
svo sem kenniteikns
eins einasta
um ockar hlýdni,
medal svo margra
maktarteikna
ok herravalds
sem hann gaf ockr
yfir lands, lagar
og lopts dýrum

Látum ockr ei
audvelds hlutar
svo lètta synjun
sára þykja:
þann eins einasta,
sem er svo hægt,
hverjum heimilt er.
hvad eitt annat,
og sem egum frjálst
um at velja
medal munadar
svo margvísligs,
hvad sem ljúfast lízt
til lysti semdar
og sætrar sælu
sem á himni.
Heldr viljum vid
vegsamandi
gódgirni hans
ockar gjörvalt lif
hönùm til hlýdnis
helgat láta,
er vid yndælli
í ockar köllun
drýgjum dags idjur
dyggiliga:
bar-plantna bjargir
og blómstra rækt,
þótt í sjálfu sèr
þat súrt væri,
yrdi þat yndælt
þegar ertu med.
Frúmmódir qvad:
ó þú, fyrir hvern
og af hvers efni
èg em sköpud,
hold hagla samit
af holdi þínu:
þú, án hvers eg
til einkis væri,
þú minn handleidir,
þú höfud mitt!
Satt er og rèttvíst
þat er sagdir þú:
dag hvern erum vid
drottni skyldug
um þöck og lofgjörd
enn þó mest eg,
hvörrar hlutdeild
er hálfu betri,
í því, Adam minn!
at á eg þig,
sem so miklum mun
ert mèr ædri:
og ber vissan vott
þíns verdugleiks
alls þinn jafningi
er á jörd eingi.
Mjög er mèr sá opt
í minni dagr,
er eg vid mig vard
vör í fyrstú,
vöknud af svefni
og vissa eckert fyrr
enn á blómsturbeck
blídum hvíldi:
Undradist eg
hvadan at-kæmi
hver helzt eg væri
og med hvílíkum

hîngat hefdi èg
hætti borizt.
Vall af jardhola
vatn þar nærri
og breiddist sjálfkrafa
um bera sléttu:
eigi var nú á því
ýfing minnsta,
lygut og tært leid þat
sem lopt himins,
þá sèr helzt hrósar
heidblámi þess.
Ovön hvívetna
med úngum hug
hvarf eg þángat þá
og á þröm græna
lagdist nidr
vid lög skæran:
í hann horfandi
þar himin mèr
eins fagur sýndist
annar vera.
Sem eg beygdi mig
og í bif sæi
beygdi móti mèr
sig mynd nockur
í fjöru tár-hreinni
og til mín laut,
sem hûn gjörla mig
girntist skoda.
Hvarf eg henni frá
og hûn frá mèr,
enn kom eg aptr,
er yndælt þótti,
hûn kom aptr eins
og mèr yndælu,
sem med sam-ycki
sá í augu.
Þeim er eg ennú
ófrávendtum
stædi starandi
á stundu þessi:
þar af þarflausri
þreyingu qvalin,
nema raust ein
hefdi rædt þannig:
"Þat ertu sjálf
í þessa bifi,
fagra skepna!
sem fyri þig ber:
med þer kemr þat
og med þèr hverfr:
fylg þú mèr eptir!
mun eg færa þig
þángat sem einn er,
enn eingi skuggi,
sem fá vill fund þinn
og at fadma þig.
Ertu af mèr gerd
eptir hönum,
þessi skal þín eign
og þú skalt hans
má yckr milli
mangi skilja.
hönum mikla mergd
eptir mynd þinui
muntu fædda fá,
og frúm-módir
œtid ein nefnast
allra manna."

Hve mátti ég annat,
enn eptir skunda,
er eg leiddunst so
enn leit eingan:
uns eg vard þín vör
þar vænn sýnum
svo röskligr
og svo rèttvaxinn
sazt og breidblada
vid björn studdist.
Þó þókti mèr
svo sem þú værir
ei svo hýr hjarnar
nè hug-fángandi,
eigi eins blídr
og ástúdligr
sem líkan þat,
er í legi sá.
Eg hvarf undán,
þá eptir rannst
æstandi: "vid snú,
Eva fagra!
Eva! snú aptr
undan hverjum
ferdu flýjandi,
þú fordast þann,
frá hveim í fyrstu
ertu fram-komin,
hold og bein hans,
af holdi og beini.
I tè lèt eg
svo þú til værir
líf veruligt
af veru minni
sídu þessarar

hit sama lif
og sem næst numit
neggi qviku,
svo at sí felt þú
sídu minni
fylgin sèrt
þínum fjörstofni
óslitanligrar
til unad semdar
þú ert megindeild
minnar sálar
önnur helft
af mèr sjálfum
til þín, munar mig
eg míns æski, -
kom! adhyllst Eva!
þinn adalstofn."
Mund þú mjúklátri
medan þannig
taladir, þinni
leingdir mína;
enn eg unnin stód
og æ sídan
fundit hefi
hversu fegurd vífs
verðr vers alúd,
og vísdómi,
sem einu er frídr
af at sigrast.
Medan módir vor
mælti þannig,
full af hreinustu
hjúskapar ást
broshýr á brún
og blídu fángin,

halladist hún
medr hæglæti
til hálfs fadmandi
upp vid födur vorn.
Mætti hann til hálfs
hennar brjóstum
berum, mjög miklum
og mjallhvitum,
þau í gull-öldum
glæstra locka
haptlaust hrynjenda
halin flutu.
Hann af fegurd fljóds
frá sèr un minu
og af yndisleiks
ofrmegni
brosir vid brúdi
med blídu vers.
Eins og Júpíter
vid Júnó hlær,
gjórandi ský þau
skúrum þúngat,
sem mætum mála fold
maiblómstrum,
þrycktust víss varir
ad vers munni.
Sárnadi Satan
at sjá þetta:
hann sèr af öfund
undan sneri
og af heiptar hug
hornauga gaut

út á hlid
til úngra hjóna.
Uns vid sjálfan sig
af svellu brjósti
tók at tauta
tölur þessar:
Hvílik haturs sjón
og hugarqvöl!
þessi tvö
skulu þannig leika
hèr í Paradís
hvert vid annat,
föst í fadmlögum
sem fyri þau
eru hin*) Eden
yndisligri.
þán megu njóta
nógrar sælu
heill á heill ofan
skal hossa þeim:
enn eg hart haldinn
í Helvíti
fálma fast spenntr
af fordæmingu.
Já í Helvíti
þar hvorki finnst
yndis nè ástar
hit allra minnstu
heldr stríd laungum
og sternar þrár,
og fysn forgefins
þess er fæst aldrei,

---

*) *Fortasse* eru hinnu.

vist eigi vægust
vorra písla!
Þó er eitt þat,
sem af þeim eg nam
og mèr má eigi
úr mími falla:
eru eim ecki
(svo eg eptir-tók)
yfir öllu hèr
umrád gefin.
Skadvænt skógar trè
vid skillníng kent,
er þeim fastliga
fyrirbodit:
þykir mèr kynligt
þeckíng bönnud,
varnat vitsmuna
elr vondan grun.
Mun nockut misûnnt
fyri meinsemi
hafa þessa þeim
þeirra Drottin:
mun þá manni synd
at meira viti?
mùn þat manns daudi,
eda mun þeim ein
feingin fáviska
til fjörgeymslu?
Mun hûn megin-hnoss
manna sælu
teikn þeira hlydni
og trúskapar
ágætt undir lag
fyrir áform mitt!
Þeirra skal eg fall
á þwí byggja.
Eg vil uppqveikja
þeim innan brjósts
megna munarlyst
meira at þeckja,
svo birtu bodi
láti burtkastad
einúngis gefún
af afundarhûg:
til at þrínga þau
þrældóms böndum
og méd ófrelsi
at undirþryckja
sem hafizt hefdu
fyrir huggindi
og gjórzt Gudi lík
fyrir gnægd vizku.
Mun þeim táltafn þat
at tjóni verda
eta munu þau
og eflaust deya:
víst mùn slikt vænligt
og vel stofnat.

## ULFARSRIMUR.

*(Ur fyrstu rímu.)*

44 Sat í fride fylkir lands,
fram svá stundir lída,
einge þordi Ullr brands
á hans ríki strída.
45 Brædur geingu á födur síns fund,
fá svá hegdat rædu:
oss lystir um laxa-grund
at leita vargi fædû.
46 Halr er margr heims um sal
hraustr í fjúki skjalda
fáit oss skip ok skatna tal,
vér skulum í hernat halda.
47 Ydr skal látid ótt i té
ansa kóngr mundi,
làngskip tólf med lid ok fé,
er liggja á Arnarsundi.
48 Nóg skal gull á fleijin fært,
ok faung sem bezt till verda.
Brædur þacka kóngi kært,
ok qvöddu sik til ferda.
49 Hann lét velja hervopn gód,
Hundíngs vod ok skildi;
brædra för svà búinn stód,
í bezta heimsens gildi.
50 Ulfar mælti: morgni ad
munum vér segl uppdraga
Öllum þókti er hann qvad
ägæt-ligast haga.

51 Dagrinn kom, enn dimman leid,
drengir ordlof tóku;
sídann ad bjartre báru heid
brautar-vögnum óku.

52 Hugr var þyrstr geirs í göll,
geyst því margir fóru;
barmar koma ad birtíngs höll,
þar bryggjur fyrir vóru.

53 Hestar allir Hafla-blóds,
hrósudu dýrum treflum
röltu á lægi fílar flóds,
fögrum undir reflum.

54 Glóudu veglig grettis-ból,
greypt um stafna fríða.
A' fáka Hlés hin fagra sól
fleygdi géislum vída.

55 Brædur stigu á dælu dýr,
dúka byrjar þöndu;
vargr trés í vodirnar snýr,
ok varpadi þúngri öndu.

56 Glymja segl enn rymr raung,
rackar ok stýrin gélta,
Strengir emja straums um gaung
þá stormar skipin elta.

57 Ylgjur Ránar flýttu för,
flydru-báss um strindi,
eins sem flýgr eldíng ör
undan hvössum vindi.

58 Bermi skipti báls um géd
byrinn nærsta þægr,
víkínga á votum bed
vardi fjögur dægur.

59 Þá nam jötun hvæsa hátt,
ok hvoptana belgja storma;

laungum drifr gjalfrit grátt
geyst um siglu-orma.

60 Vedrit hvast úr hóli géck,
svá höldum nærsta ægdi;
átta-daga um upsa-beck
aldri stormínn lægdi.

61 Blacka gradis brimlamey
ad bádum sídum kreysti;
biladi stjórn, enn fylti fley,
flotann sundr leysti.

62 Grams launsynir allir á
einu skipi fóru,
humlúng þenna hrakti frá,
ok hin þrjú nærst hánum vóru.

63 Báru fjóra byrni þá
bylgjur vída elltu,
eins þeim líka aldan blá
á ýmsar sídur velltu.

64 Hví mun vilja hamíngjan hér
hvecki slíka sýna?
elligar skal hún ætla sér
Ulfars lífi týna?

65 O! þér Gudir straums ok storms!
stillit reidi bráda;
látid drottna öldu orms
önd ok sinni ráda.

66 Aldri vaxa af því mun
ydar frægd né veldi
þó Ulfar hitti æfi hrun,
ok allar frægdir seldi.

67 Sízt má hafa hamíngju vid
hrecki slíka ad sinni,
æ stód hún á adra hlid,
enn þótt lítet vinne.

68 Eingu rádit audnan féck
fyrir ólmu vinda flagdi,
æpandi til Gudanna géck
gæfann, ok þetta sagdi:

69 Örner vedra ygldr fer
uppá vini mína,
Herrann Ránar hánum lér
hjálp ok adstod sína.

70 Þér, sem elskit örlög sterk
ædstu hreystimanna
látid AEgis illsku verk
ydar guddóm banna!

71 Ef virdar ad fölum verda ná
val mun rjódan smæcka,
lid einherja ydr hjá
ætla ek muni fæcka.

72 Gud örlaga gætte ad því
hvad gæfann þrúngin ræddi,
soddann fregn hans eyrum í
ákafliga blæddi.

73 Fann hann Skrýmis fóstru-korn,
ok féck svá ordum venda:
arkadu á fætr, öldrut norn!
i Alfheima skal þik senda.

74 Sizt þú vera, svanninn! mátt
sein í eyrinda störfum,
qvedju vora ber þú brátt
bádum Fornjóts örfum.

75 Inn þeim bjódi Austra lid,
íllsku bindast verka,
ok svá líka vegja vid
vin sinn Ulfar sterka.

76 Ellin gamla AEgi fann:
alla mýk þú brædi!

þursa storma reidin rann,
ok Ránar filum mædi.

77 AEgir stóru strauma söfn
stödugt sundr-greiddi
Bródir elds á hæga höfn
hlunna-fáka leiddi.

78 Hrannar tóku hestar þá
hvíld á lægi vænu,
þar var fagurt land vid lá
laufgat blómstri grænu.

79 Sjós af volki dróttin dæst
drafnar-snáka festi,
værdir tóku, vill því næst,
virda múgurinn flesti.

80 Mik frá Kjalars-krúsar-ál
kallar svefn ok gríma:
ein er druckin Ódins skál,
endast fyrsta ríma.

## UTFARAR-SALMR.

1 Allt eins og Blómstrid eina
uppvex á slèttri grund,
fagurt med frjófgun hreina
fyrst umm dags morgunstund
á snöggu augabragdi
afskorid verdr fljótt,
lit og blöd nidur lagdi
lif mannlegt endar skjótt.

2 So hleypur Aeskann únga
óvissa daudanns leid,
sem aldur og ellinn þúnga

allt rennr sama skeid;
innsigli aungvir feingu
uppá lifs-stunda-bid,
enn þann kost undirgeingu
allir, ad skiljast vid.

3 Daudinn má so med sanni,
samlikjast, þykir mèr,
slíngum þeim sláttumanni,
sem slær allt hvad fyrir er;
grösinn og jurtir grænar,
glóandi blómstrid frídt
reyr, stör, sem rósir vænar
reiknar hann jafn fánýtt.

4 Lífid manns hradt frammhleypur,
hefr þad aungva bid
i daudanns grimmar greypur
gröfin tekr þar vid;
allrar veralldar vegr,
vikr ad sama punct,
fetar þad fús sem tregr
hvört fellr lètt eda þúngt.

5 Hverki fyrir Hefd nè valldi
hopar daudinn eitt strik,
fast sízt med fögru gjalldi
frestr umm Augnablik;
allt hann ad einu gildir
þótt illa líki edur vel,
bón ej nè brædi mildir,
hans beiska heiptar þel.

6 Menn vada í villu og svíma,
veit einginn neitt um þad
hvörninn, á hvörjum tíma,
eda hvar hann kemr ad;
einn vegr öllum greidir
inngáng í heimsins rann,

margbreyttar lítst mèr leidir
liggi þó út þadann.

7 Aſſ daudanns eins nam kreinkja
alla í veröld hèr;
skal eg þá þurfa ad þeinkja
hann þyrmi einum mèr?
Adams er edli runnid
i mitt náttúrlegt holld,
èg hef þar og til unnid
aptur ad verda ad molld.

8 Hverki med hefd nè ráni
hèr þetta líf eg fann,
sálinn er sosem ad láni
samteingd vid líkamann,
í Herrans höndum stendr
ad heimta sitt af mèr,
daudinn má segjast sendr
ad sækja hvad Skaparans er.

9 Nú vel í Herrans Nafni
fyrst naudsyn ber til slík,
jeg er ej þeirra jafni
sem jördin geymir nú lík
hvönær sem kallid kemr
kaupir sig einginn frí,
þar læt eg nótt sem nemr
neitt skal ej qvída því.

10 Jeg veit minn ljúfr lifir
lausnarinn himnum à,
hann rædr öllu yfir,
einn heitir JESÚS sá
sigrarinn daudams sanni
sjálfr á krossi dó,
og mèr so aumum manni
eilíft líf víst tilbjó.

11 Med sínum Dauda hann deyddi
daudann og sigur vann
magt hans og afli eyddi,
eckert mig skada kann
þó leggist lík í jördu
lifir min sála frí;
hún m. tir alldrej hördu
himneskri sælu í.

12 JESUS er mèr í minni,
mig á hanns vald eg gef,
hvört eg er úti eda inni,
eins þá eg vaki og sef.
Hann er mín hjálp og hreysti,
Hann er mitt rètta líf,
Hönum af hjarta eg treysti,
Hann mýkir daudanns kíf.

13 Jeg lifi í JESU-Nafni,
í JESU nafni eg dey,
þó heilsa og líf mèr hafni
hrædist eg daudann ej;
daudi! eg óttast eigi
afl þitt og valdid gildt
í Kristi krafi eg segi
kom þú sæll, þegar þú villt!

## DÆMISÖGUR.

1 *Um hanann sem fann gimsteininn.*

Haninn rótar haugi í,
og hittir perlu í sorpi því;

byggkorn, segir hann, betra' er mèr
enn birtan sú, sem stendr af þèr.
Heimskum luckan hnossid opt
í hendr ber.

## 9. *Um hundinn og kjötstyckid.*

Hundrinn krás í kjapti ber,
kominn ad á sinn skugga sèr;
þann hyggst ræna, og þrífa á lopt:
þaut burt kjöt, er glennti hann hvopt.
Þá hugrinn mikid, höndin lítid
hefir opt.

## 10. *Um magann og limina.*

Limirnir segja: letjunst vèr,
latr magi! ad þjóna þèr;
þegar neita þörfum hans
þverrudu burdir líkamans.
Osamþyckid audnuleysi
ollir manns.

## 11. *Um apynjurnar.*

Apynjurnar dansa dátt,
dúdadar upp med silkid smátt;
þær neita skarti og synja seim,
nær sýnd voru fögur epli þeim.
Þó náttúran sè lamin med lurk,
hún leitar heim.

ULFR

## ULFR OG TOA.

Tóa og úlfr tóku
tal saman á grund,
eina aptanstund
med sèr málbragd jóku.
"Lángt er, sagdi hûn, sídan
sá eg frændi þig
teingdan mjög vid mig,
á eg ættúng frídan!
Villdu' ei, karl minn Kæri!
kaupa ost af mèr?
undra-stór hann er
og ódýr vilda' eg, hann væri."
Úlfrinn ógna-feginn
audginntr þá fèr:
þeckt er þetta mèr,
vísa þú mèr veginn!
"Er hann i einum brunni,
ansar tóa slæg,
ei er eg svo fræg
ad upp honum koma kunni."
Tóa teygdi rædu,
tunglid uppkom þá,
úlfrinn sem þád sá
mælti hátt med mædu:
"Ef svo stóran ætti
ost ad gamni mèr
og skjöldrinn sem þú sèr
víst mèr vænt um þætti."
"Máske hann verdi ei minni,
mælti tóa þá
eg skal svo til sjá;
þvíat eg þèr unni.

Hyggdu nú ad, herra!
hèr er osturinn,
reyndu ramleik þinn,
ei lát orku þverra."
"Fardu fyrst, mín kæra!
ládu ostinn mèr,
skal eg, sem skyldugt er
þackir þýdar færa!"
"Ei svo ordum haga!
utan eg njóti þin
eigi megdan mín
orkar hann ein ad draga.
Fardu, frændi! nidr,
fljótt upp ostinn tak,
undir ber þitt bak,
eg skal hjálpa ydr.
Eg mun ydar bída
uppá backanum,
hana! hvad er um?
kastadu öllum qvída!
Sem þig svo upphalar,
settu gómbein þitt
skjótt í skottid mitt,
drag þig svo án dvalar."
Ulfrinn ær því trúdi
ofan í brunninn stöck
sídan nidursöck,
leirinn mjög hann lúdi.
Tóa tekr ad brosa,
tildrar augum vitt:
"ferst þèr, frændi! lítt
þig úr leir ad losa."
Ulfrinn kallar aptr:
"æ þú tóa mín!
legg nú lidsemd þín,
er nún eyddr kraptr.

Svo ef mætti segja,
sveistu mig í trú,
rád mèr nockud nú,
eg má annars deyja."
"Hyggdu' ad heimsku þinni,
hreckvís tóa qvad,
þackadu henni þad,
meir enn ódygd minni.
Eg skal yfir þèr sýngja,
yrkja líka vers,
ef þú óskar þess,
eg sè ydr-þýngja.
Sómir ecki ad sinni
soddan kjaptamas
umbrot ; au nè þras
lokid er lífstund þinni."
Refrinn trygda traudr
tölti sídan heim,
skildi þar med þeim,
úlfrinn er þá daudr.
Soddan sýnir þetta
sá einfaldr vid
klókan semr sid,
sig mun sjálfan pretta.

---

Dicta quædam Pauli Vidalini Nomophylacis, ex tempore prolata.

*Til Gudrúnar Benediktsdóttur þá hún undradi hvörnin hann gæti qvedid so fljótt.*

Lærdu ad yrkja, lauka-hlíd!
lyst er skáld ad vera,

hægt mun vera, hríngþöll blíd!
haglig ordin gera.
Ótal smída erindin má
eins og lystir meingi,
segja skal eg þèr satt í frá,
sona er eg ad því leingi!

---

*Quedid á ferd, þá fylgdarmadrinn vildi hvílast.*

Látum rása reidar-dýr,
og reynum hesta;
þeir skulu mása, málma-týr!
þá melar bresta.

---

*slæmri ferd, þá fylgdarmadrinn ratadi ecki.*

Hreinliga ratar hjörva-grèr,
þó hrídur streymi bylgja;
Einar glatar ei nema sèr
og öllum þeim honum fylgja,

---

*Um hleypidóma almúgans.*

Ef nockur ætlar ad segja þeim satt,
svara þeir á annan veg:
hann fadir minn sæli, og sè honum glatt!
sá hafdu þad eins og èg.

---

## ÞJÓFA-BRAGR.

*Sra. Steffans á Vallanesi.*

1 Þórdr og Björn þeir þreyttu stríd,
Þad var sudr í Fljótsins-hlíd,
komu þar ad qvöldi síd,
qveiktu upp eld og báru á skíd —
í leyni.

2. Sigrad höfdu eina á,
og voru búnir hana ad flá,
kolagröf var hladin há
vid hana vildu steikja þá — í leyni.

3. Bädum þókti um þýfid vænt;
þá bar nótt yfir haudrid grænt,
töldu fram vid funann kænt,
hvor fleirum hefdi saudum rænt — í leyni.

4. Hóf svo tal med hreinan sann,
og hèlt sig vera meiri mann;
Björn þar uppá fyrri fann,
fullvel kunni reikning þann — í leyni.

5. "Vid níu hefi eg rollur rjád,
og reynt vid þær à slèttri lád,
eingin var svo ógna brád,
at ei gæti eg áfæti nád — í leyni.

6. Halrinn frá eg hætti þar,
og hèlt af sèr, sem líkligt var;
ecki þókti þetta par
þórdi, er gaf honum aptr svar — í leyni,

7. "Atján hefi'g med unda skód.
ærnar fært á Heljar slód;
nitjándi, sem nú er á glód,
vid nádum bádir vekja blód — í leyni."

8. "þar ad auki, þórdr minn!
(þá nam ansa Björn um sinn)
lamba-rusl og skorpin skinn
skrifast ecki í reikningin — í leyni."

9. þessa vondsligu þjófa skrá
þegnar mega heyra og sjá;
því óluckan sú yfir þeim lá,
ad einhvörr stód og hlýddi á.
í leyni.

## HORATII lib. II. Oda X.

*Rectius vives &c.*

*ùtlögd af sama.*

1. Hvert sinn á haf blá
halda madr ej má;
eda af ótta þá
öldum sneida svo hjá
ad hann leggi í lá
landinu svo skamt frá
ad skip megi á grunngá.

2. Hverr sem med ged hægt
hóf elskar gullvægt,
hans fær ei hug lægt
hreysid fullt af órækt;
eda ad sèr krækt
öfundina vid-flækt
kóngs-halla hoffrækt.

3. Opt vindar eik þjá
ef ad hûn er mjög há;
stórir turnar föll fá
frekar enn hús smá;
tindar fjöllum uppá
er í loptid hæzt ná
af skruggum skell fá.

4. Sá vid mentad brjóst bjó
bidr eptir hugfró,
þá amar neyd og óró
enn ef luckan mót hló
qvídir fyrir flat-sjó;
færir vetur og snjó
gud á og af þó!

5. Þó ádr þjádi og enn lýd
ördug motgángs hríd
kemr þæg og þýd
þess linun um síd
hórpu vekr hljód blíd;
hendir ei bogann í stríd
allvalldr altíd!

6. Hugprúdum halt þér
ef hjartad þitt böl sker,
enn ef luckan lèr
lán, byr og nóg kjör
of drambid af-sker,
og segl, hátt er,
síga láttu sem ber!

---

## TRUARJATNING.

*Sigurdar Pèturssonar Syslumanns.*

1. Þrennt eg trúi, treysti-á;
má því madr ei neinn
mig um gudleysi saka,

födur blídum Bacchus hjá
bidst eg fyrir og þegjandi qvaka;
hann ei hratt í burtu mèr,
þá eg kom, þreyttr af
þúnga syndanna verki:
kom, hann sagdi, set þig hèr,
sè eg gjörla þín idrunarmerki,
vert hughraustr son minn senn,
syndir fyrirgef eg þèr ann,
kært þig staupi nú, ef er
nockud íllt fyrir hjartann þèr!

2 Mey ein, mjúk og gæzkurík,
hreinlíf og hvít á kinn
hún er önnur persóna,
vörum hennar hönd eg strýk,
henni allri med lotníng eg þjóna;
loekar leika herdum á
af þeim skín allt umkríng,
eins og ljómar af sunnu
augun hreín og himinblá
hýrum elskunar loga þau brunnu
hennar fadmi frídum í
frjáls vid sorg eg gladr bý,
himnesk hèr er paradís
hèr ad lifa og deyja mèr kýs.

3 Andan pípu prísa èg
mínum í munni hann
meir enn hunáng er sætr
lífgun ljúfa þaraf dreg,
lækníng ern þær blessudu rætr:
heidblár hríngar reykr sig
lopti í laungum sjást
líka falligar rósir;
eingil vera ætla eg mig
um þá gefa mig skýstólpar ljósir.

Tregi þegar trublar sinn
tek eg Móguls lækníng inn,
gledi-varg eg bræli bezt,
brád því er honum reykrinn pest.

## EVANS-MESSA.

þess sama.

1 Æ nú er gaman og gledi ný, hell á!
því Evan stólinn vill stíga í, hell á!
kórdjáknar hans skulu hradir byrja,
med helgri gloría-röddu hyrja,
(*stefid:*) dreck út, skeink aptr!
tæm staupid, skeink aptr! dreck út!

2 Hans stóll er klárum af krystalli, hell á!
og hans er gaman ad gudspjalli, hell á!
"hvörn sem hèr þyrstir, hann dropann drecki,
djurft komi til mín, hann kostar ecki."
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

3 Og Exordíum var ærid gott, hell á!
hann synda taladi um trúan þvott, hell á!
"Mín sól upprennr eins yfir alla,
audga, fátæka sem börn og karla."
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

4 Utleggíng þótti mèr einna bezt, hell á!
ad henni gaum skulum gefa mest, hell á!
hann öllum kærleikann kendi bera,
og qvad hann bodorda fylling vera.
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

5 Hann og eg katekísera þá, hell á!
í hvörju atridi lærdómr lá, hell á!

Hann

Hann mælti: "vinr af vín dregid."
Eg veit ad þèr allir amen segid
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

6. Enn djáknar sátu á breidum beck, hell á!
útgaungu sálmrinn gladast geck, hell á!
þeir barkann smyrja, og brent vín súpa,
á báda hnjákollą nidrkrjúpa
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

7. Og heidrum Evan á hæsta trón, hell á!
hann skapar gaman og skerpir sjón, hell á!
í krapti látum oss andans alla,
þann ædsta gledirnar födur ákalla,
Dreck út, skeink aptr! *o. s. fr.*

8 Enn vèr sem erum hans sóknar hjú, hell á!
og höfum Evani heitid trú, hell á!
gjörvallir skulum vèr greitt úthringja
og glösum skúmandi samanklíngja.
Dreck út, skeink aptr!
tæm staupid, skeink aptr! Dreck út!

## SKIPAFREGN.

1 Vorid lángt
vedr opt dónunum,
heldr strángt,
hardnar í sveitunum,
sigléngunni seinkar
mjög,
sigr ad byrgdum,
gledskapr um ládog lög
liggr í kyrdum,
brennuvín
burt er af glösum,
tóbaksskrín
tóm eru í vösum,
eykr pín
eckert í nösum.
Sammankoma þeir þar
og þar
:|: kallast á, og qvedja
svo:
komdu blessadr! :|:

2. Ansar hinn:
á eg ad heilsa þèr,
gódr minn!
gefdu í nefid mèr;

í heilan mánud hef'eg
ei séd
hót af tóbaki,
brúkad hefi eg modid med
mygludu hraki.
á er þad!
er þú til svona?
hinn þá qvad,
hvörs viltu vona?
tóbaksblad
band mèr ein kona;
enn eg bruka ei uppí mig
:|: því er nú varid og þad
er nú svo;
þèr satt eg greini :|:

3. Ecki hefda èg
átt vid ad neita því;
bágt er mjög
blad ad fá münninn í:
mykju-skán og mótorfid
og mart annad fleira,
brukad hefi'g brodbergid
og bættu vid meira.
Svei mér þá
ef satt er ei þetta,
mæda og þrá
mörg vil ádetta,
aungvir ná
til útlenzkra frètta.
Hart er um seitilinn,
hvad segir þú?
:|: þad má kalla, þordr
minn!
og þegjum vid bádir! :|:

4. Dýrt er nú
drottin minn! brennvín!
ætlar þú
eg mætti leita þín,
ef mèr lægi á einni skál?
Ansar hinn: svei, svei!
þó þad kosti þína sál,
og þig sjálfan, nei, nei!
Hættum vid,
hvörr rídr þarna?
höfum bid
hvörr er hann svarna?
líttu' á hlid,
ljótt er ad tarna!
sýnist mèr hann svínk-
adr,
:|: Vid skulum spyrja
hann spjörunum úr
spjátrúnginn þenna :|:

5. Sælir nú,
sæll vertu, Bjarni minn!
hvad segir þú,
hvört eru skip komin?
Heyrt hefi eg ad Hólms-
skipid
og Höfdarinn líka
lægt hafi segl vid le-
gumid
med lestina ríka!
Skil eg þad,
skal fridr núna?
Mælt er ad
mögl sè um trúna;
segja þeir stad

sockinn Lundúna!
Hvada látum, hvört
er þad svo,
:|: allir hafa þedr útkomizt
í haust? O jaja! :|:

6. Lifnar hold,
lánliga mart tilber,
hýrnar fold,
hreykja sèr dónarner,
skipakoman gledr ged,
gleyma þeir hrygdum,
hesta sækja í haglendid,
og heimreka ad bygdum.
Ætlid þèr
ad reisa, bródír?
I sinni er mèr
ad sjá danskar þjódir;
klararnir
qvikir, ómódir
eru, tefjum ecki vid,
:|: vær skulum allir halda hóp
hvad sem ádynr :|:

7. Allt er til,
á leggja reidínginn
flest í vil
fer þá um búnínginn
prjónlesid í pokaendann
packa þeir nidr,
kemr á móti kútholan,
sem kannizt þèr vidr,
sneipast inn
snöggvast ad eta,
stígreipin
stirdir ífeta,
ecki um sinn
upp stanlad geta.
Hálfa eykt þeir hánga þar
:|: bæiar vegg fyrir bakþúfa
þeir brúka' um sídir :|:

8. þá á leid
þenja þeir klárana,
hleypa á skeid
um holtin og móana;
greinir ei um ferda flas
fyrr enn þeir líta
kaupstadarfólk med verfluvas
varníngi býta.
Af baki þá
brölta med ædi,
hestar fá
hriglu af mædi,
kaupmann sjá
kreika um svædi:
Er hann þad sjálfr,
sagdu mèr!
:|: áttu vid hann sem hèrna var
med hattinn gráklæddr :|:

9. Sýnist mèr
svipgódr dreingr,
heilsum vèr!
Hann fyrr inngeingr.
Bugta sig og beygja mjög
med ber höfud gánga,

strjúka nidr stuttvaxid
striid í vánga.
"Herra minn!"
hvörr þeirra mælir
vid kaupmanninn:
'komid þèr sælir!"
Ansar hinn,
og andlitid skælir:
*"Gud välsigne ham, gode Ven!* *)
:|: *alt i Boden J skulle faa*
*hvad Eder behager.* :|:

10. Svo med hrad
sækja þeir varninginn
grenslast ad
hvórt gisinn sè kútrinn.
"Hèrna er nú, herra minn!
hapurtask ockar;
litid pûlsband, lambskinnin
og ljósgráir sockar.
*"Hvad er det,*
*som J vil begjere?"*
Tobaked
til máske beri,
þèr fáid med
fjórdúng af smèri,
ef þad er ecki ordid kramt,
:|: af því eg reiddi þad undir mèr
innan í síu :|:

11. Tóbakspund
taka þeir vegid út,
á samri stund
setja á bordid kút,
bitanum einum bergja þeir á,
og brydja upp alin;
herra minn gódr, hana nú þá
hálfan ríksdalinn!
Bad eg um
brennuvín ydr,
af áttúngnum
allt hripar nidr,
í þrautunum
þad er plagsidr,
ná úngann ad núa í krít;
:|: kaupmanninum þacka þá
og þýdliga mæla :|:

12. Hvad eg er,
herra minn! skyldugur,
greinid mèr,
göfugi kaupmadur?
*"Sex og en halv Fisk*
*haver du, end*
*hos mig til gode."*
Skorta tekr skilníngenn

*) Mercator, qvippe Danus, danica lingva utitur, aliqvantum tamen ad modum Islandicum detorta.

Þeir skrafa í hlódi:
Hvad segir hann?
hálfa vætt fiska?
Einginn kann
á þad ad gizka
hvad brögdóttan
brestr opt vizka.
Ecki eru þeir utan tólf,
:|: þrenna socka þér skulud fá,
og þá stendr heima!" :|:

13. "A' vasaglas
vilda èg fá nú med"
qviknar mas,
kaup=madr ansa rèd.
*"Du bör, at have en Brændvinspott saa blive vi klare."*
Hinn þad meinar hád og spott,
og hikar í svari;
ílátid
ad honum rèttir,
hopar á snid,
í hryggnum sig fettir,
hýrnar vid,
og hvar mana brettir,
flaskan medan fyllt er hans,
:|: qvedja sídan kaupmannin
med kossi' og blídmælum, :|:

14. "Hrósa skal
herramanns gjöfunnm,
hefi eg tal
haft ei fyrr af hönum,
gudsmadrinn gaf mèr þó
gildan vínpottinn,
hvar hann fer um saltan sjó
signi hann drottinn."
Stöckva á bak
strax burtu ríða,
heyrist brak
um heims bygdir vida,
af keyrum blak
klararnir lída,
á hlidarnar ýmsar kallast þeir
:|: vínid heldr verdr megnt
eg vekr óróa :|:

15. Fljúgast á
fángbrögdin reyna þeir,
dreingir þá
drecka ei saman meir,
vitid fer á víd og dreif,
valla er þeim gaman,
glíman verdr sköck og skeif,
þeir skemmast í framan.
Eingi dags
láta þad fara,
höggin strax
hvörugir spara,
vantar sax

til vonar og vara,
ef þeir hætta ecki fyrr;
:|: vitlausa allir ætla þá
er nú áhorfa :|:

16. Sidan heim
svinkadir rída þá,
fagnar þeim
fólkid sembezt þad má,
eru sidan afklæddir,
upp í rúm lagdir,
úr vatni og hlandi vaskadir
vitlausir sagdir.
Tilfeinginn
tapadr audr
kúturinn
kominn er snaudr,
tómr ad mesta og tappalaus;
:|: vakna ad morgni rotinu úr
í vádleysu og svima :|:

17. Dvínar prakt,
druckinn upp kútrinn
rirnar makt
reisan er afstadin
kæti er burt' enn komid í stans
kaupstadar vasid
ydran dettr á til sanns
fyrir ólucku flasid.
Dónarnir
dvelja í nádum,
ferdlúnir
fúkurum þjádum,
hjúkrad er
med hagnadar dádum
fátt er betra enn fara vel
:|: Sèr höfum ei sidan heyrt um þad
hvörnin þeim vegnar :|:

18. Braginn á
bindum vèr enda hnút,
styttist skrá,
staupid er sopid út,
einginn ránga meining mun
med rèttu smída
madr eda gera á grun,
sem girnist ad hlýda.
*Valete!*
virdid til góda
skáldmæle,
skemtanir þjóda,
eckert spè
ætlum ad bjóda,
heldr gaman græckulaust.
:|: Viljum skjalad skuli mál
skipafregn heita. :|:

*Hocce carmen egregium debetur discipulis Scholæ qvondam, Scalholtianæ præsertim tamen, ut traditur, D:o Gunnlaugo Snorronis et Arnoni Bödvari filio.*

# Inntak.

## *Corrigenda.*

| *pag.* | | *lin.* | | |
|---|---|---|---|---|
| *pag.* 7. | *lin.* | 7. | *lege* | mèr 13. hûn 18. búit 23. Sídan |
| — 7. | — | 5. | — | Þórir 13. Þóttust |
| — 19. | — | 16. | — | ok fór (enn) svo |
| — 86. | — | 16. | — | höll |
| — 92. | — | 2. | — | Eikr-eyjum |
| — 108. | — | 26. | — | hernumin |
| — 109. | — | 6. | — | kníðu |
| — 154. | — | *b.* 13. | — | raðar |
| — *seqv., ubi numeratio paginarum turbata est,* | | | | *lin* 16 hrafna |
| — 249. | — | 1. | *lege* | skyldi 16. verða 24. Þykir |
| — 250. | — | 3. | — | sjálfa 5. rifnar |
| — 253. | — | 22. | — | til - - - bæði 23. drottins |
| — 254. | — | 20. | — | húsbóndann 23. að 34. snáfaðu |
| — 255. | — | 1. | — | kistilinn og qveðr 8. með algaungu 25. brèfsefnid |
| — 256. | — | 1. | — | mikid 4. segja 9. Kollaleiru 12. Þófa-dýnu 22. fari að Leigugerði 23. vili hallast 24. óska - - lucku |
| — 257. | — | 1. | — | Paradísar 7. háu 29. umhverfis *b.* 11. uns 22. fyrstu |
| — 259. | — | 14. | — | lystisemdar 21. hönum 33. Frum-módir *b.* 27. fyrstu |
| — 260. | — | 3. | — | jardholu *b.* 13. Þessu 31. Þinni 34. ætíd |
| — 261. | — | 10. | — | björk 20. Þú *b.* 4. sífelt 9. unadsemdar 10. megindeild 21. teingdir 28. einn |

*pag.* 262 *lin.* 12. *lege* hulin 14. frá sèr numin 22. púngut 32. gant 33. hinu *b.* 17. Þau 24. fordæmíngu 30. sterkar
— 263 — 6. — minni 7. Þeim 17. misunnt 25. mun *b.* 4. undirlag 14. gefnu 15. ófundarhug 16. Þvínga 18. með 21. hyggindi 22. gjörzt 28. mun
— 264. — 10. — fædu 19. fleyin 20. til 30. ágætligarst
*præfat. p.* 3 — 26. — *invidâ*

*De sagâ Örvaroddi adhuc monendus est L. B. ne fabulas pagg. 53. 55. 56. et alibi forte obvias pro vanis figmentis habeat, qvibus autor lectoribus fucum facere vel animi temeritati indulgere voluerit, re verâ enim prudentiæ ducum tribuendæ sunt, fictæque ut licentiam epibatarum hisce terriculis compescerent, et disciplinæ defectum, pro temporis ratione, quodammodo supplerent. Insigne aliud herois nostri prudentiæ documentum habes, pag. 49. ubi pugnam commisurus milites præmonet, ut cæsos omnes ex ipsius copiis statim in flumen abjiciant; videlicet ne arma mortuorum arriperent hostium multitudines. Ultimum denique lætum nuntium tibi, lector! afferendum habeo, scilicet de svetica hujus historiæ versione cum annotatiunculis historicis a viro eruditissimo harumque literarum studiosissimo A. J. Hipping, Religionis Evangelicæ in Cæsareo Gymnasio Petropolitano magistro concinnatâ, quæ jamjam tradetur typographo.*

*Vale & fave!*